# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXVI. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

Ársgjaldið er aðeins 1 dollar, og fá allir skuldlausir félagsmenn, er það borga, þetta tímarit ókeypis.

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1944

**A. Heiðursverndarar**

His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.,
Governor General of Canada
Herra Sveinn Björnsson, Ríkisstjóri Íslands.

**B. Heiðursfélagar**

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Árni Pálsson, Háskóla Íslands, Reykjavík, Ísl.
Prófessor Watson Kirkconnell, McMasters University, Hamilton, Ont.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur, Elfros, Sask.
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Winnipeg, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona, Winnipeg
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Winnipeg
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, Ritst. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D. C.
Ásgeir Ásgeirsson, alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Séra Runólfur Marteinsson, Vancouver, B. C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ont.
J. J. Bíldfell, Winnipeg
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur, Chicago, Ill.
Sigurgeir Sigurðsson biskup Íslands
Gunnar B. Björnson, Minneapolis, Minn.
Ásmundur P. Jóhannsson, Winnipeg, Man.

**C. Ævifélagar**

Árni Sigurðsson, Winnipeg, Man.
Dr. Helgi P. Briem, Consul Gen. of Iceland, New York, N. Y.

**D. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Sr. Friðr. Hallgrímsson, Dómkirkjuprestur, Reykjavík
Sr. Benjam. Kristjánsson, Syðra Laugalandi, Eyjafjarðarsýslu.
Sr. Fr. A. Friðriksson, Húsavík, S.-Þingeyjarsýslu.
Ingibjörg Sveinsson, Hjúkrunarkona, Seyðisfirði, Ísland
Stefán Vagnsson, Hjaltastöðum, Skagafjarðarsýslu.
Eggert Levy, hreppstjóri, Ósum, Húnavatnssýslu.
Fröken Jóhanna Friðriksdóttir, Reykjavík
Frú Guðrún J. Erlings, Reykjavík

2. ENGLAND

Miss Ingibjörg Ólafsson, Stella Maris, Rottingdean, Sussex

3. CANADA

**Árnes, Man.**

Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Johnson
Jónas Ólafsson
O. G. Ólafsson
Þorsteinn Sveinsson
Sigurður J. Thorkelsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Borden, Sask.**

Dr. Jóhannes Pálsson

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel

**Calgary, Alta.**

Jóhann Bjarnason
Sigurður Sigurðsson
Guðmundur Björnsson
J. Ragnar Johnson

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Clairmont, Alta.**

Magnús G. Guðlaugsson

**Cranberry Lake, B. C.**

Jón Sigurðsson

**Elfros, Sask**

J. S. Árnason
Mrs. J. M. Bjarnason
Jón Jóhannesson
Sigurður Arngrímsson

**Frobisher, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Gimli, Man.**

Sigurður Sigurðsson

**Hayland, Man.**

Mrs. Stefanía Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson

**Hamilton, Ont.**

Einar I. Svanbergson

**Halifax, N. S.**

Christian Sivertz

**Hnausa, Man.**

Daniel Halldórsson
Hildibrandur J. Hildibrandsson
V. G. Stadfeld
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Hodgson, Man.**

Rögnvaldur S. Vídal

**Keewatin, Ont.**

Jón Pálmason
Bjarni Sveinsson

**Kenora, Ont.**

Mrs. Sigríður Benson

**Loomis, Sask.**

B. Bjarnason

**Langruth, Man.**

Sigfús Benediktson

**Lundar, Man.**

Sigurveig Benedictson
Jón Einarsson
Emil Guðmundson
Vigfús Guttormsson
Ed. Hallsson
Ágúst Magnússon
Mrs. Ásta Sigurðsson
Grímúlfur Sigurðsson

**Marquette, Man.**

Mrs. Sigríður Sveinson
S. G. Sveinson

**Markerville, Alta.**

Mrs. Rósa S. Benediktson

**Norwood, Man.**

Magnús Peterson

**Osland, B. C.**

Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Oak Point, Man.**

Jón Finnsson
Eric Stefánson

**Oak View, Man.**

Mrs. Jóhannes Johnson
Sigurður Sigfússon

**Otto, Man.**

Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**

Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Albert Thorvaldson

**Red Deer, Alta.**

Ófeigur Sigurðsson

**Reykjavík, Man.**

Mrs. I. Gíslason

**Saskatoon, Sask.**

Próf. T. Thorvaldson,

**Selkirk, Man.**

Ásgeir Bjarnason

**Siglunes, Man.**

Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman

**Sexsmith, Alta.**

Jón Einarsson

**Smeaton, Sask.**

E. E. Vatnsdal

**Steep Rock, Man.**

Th. Gíslason
F. E. Snædal

**Stettler, Alta.**

M. Steinsson

**Swan River, Man.**

C. Guðmundson
Mrs. Thórdís Samson

**Tantallon, Sask.**

Helgi Vigfússon

**Thicket Portage, Man.**

J. H. Johnson

**Transcona, Man.**

P. S. Pétursson

**Vancouver, B. C.**

Mrs. Matth. Friðriksson
Carl Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Kristjana T. Anderson
Magnús Elíasson
S. Guðmundsson
Msr. Anna Matthíason

**Virden, Man.**

Böðvar Johnson

**Watrous, Sask.**

Pétur N. Johnson

**Vogar, Man.**

Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Lestrarfél. "Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson
Páll Jónsson
Asgar Sveistrup

**White Rock, B. C.**

Th. G. Ísdal
Mrs. Morey Block
Mrs. S. Kjartansson
S. D. B. Stephanson

**Wilkie, Sask.**

Miss Dóra Davidson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. Sigríður Árnason
Dr. Ág. Blöndal
Mrs. Jónína Christie
Sr. V. J. Eylands
Páll Guðmundsson
Mrs. Gyða Hurst
Mrs. Jósephina Jóhannsson
Halldór Johnson
Próf. Skúli Johnson
Guðm. F. Jónasson
Wilhelm Kristjánsson
Björn Líndal
Magnús Markússon
S. W. Melsted
Gunnar Norland
Dr. B. H. Olson
Mrs. J. Rafnkelsson
Jón Sigurðsson
Capt. J. B. Skaptason
Mrs. J. B. Skaptason

Dr. Eggert Steinþórsson
Frú Gerður Steinþórsson
Halldór M. Swan
G. S. Thorvaldson, K.C.

**Wynyard, Sask.**

Jakob J. Norman

4. BANDARÍKIN

**Arlington, Va.**

Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**

Dr. Stefán Einarsson
Johns Hopkins University Library

**Bayside, N Y.**

E. B. Johnson

**Bellingham, Wash.**

E. M. Einarsson

**Berkeley, Calif.**

Dr. Caroline Brady
Prof. Sturla Einarsson
Steindór G. Guðmunds
Mrs. Thordís Guðmunds
Rev. S. O. Thorlákson

**Blaine, Wash.**

Thórir Björnsson
Andrew Danielsson
Mrs. Veiga Jóhannson
Sr. Albert E. Kristjánsson
Mrs. Kristín F. Líndal
A. G. Breiðfjörð
Gestur Stephanson

**Boston, Mass.**

Kórmakur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Kapt. G. K. Eggertsson
Cr. A. Guðjohnson
Ágúst Guðmundsson
Kapt. Grímur Hákonarson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnlaugur Illugason
Kapt. Axel Jóhannsson
Norman B. Johnson
Theódór Jónsson
Gunnlaugur Jónsson
Sigtryggur Ólafsson
Guðmundur Pálsson
Adolf Petersen
Pálmi M. Sigurðsson

**Bottineau, N. Dak.**

Albert Árnason
Ásmundur Benson
Óskar B. Benson
Mrs. George Freeman

**Buena Park, Calif.**

Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**

Próf. Francis P. Magoun, Harvard Coll. Library

**Camp Croroder, Mo.**

Chaplain G. B. Guðmundsson

**Chicago, Ill**

Árni Helgason
S. Árnason
Bragi Freymóðsson

# Hinn Lang Útbreiddasti Málvarningur

**Hvað LIONOIL gerir**

Berry Brothers Lionoil ver við fyrir vatni og fúa—fyrirbyggir ryð—eykur endingu og gljáa málaðs flatarmáls—er bókstaflega brúklegt til fjölda hluta.




**Hvar LIONOIL má brúka**

Málarameistarar hafa notað Berry Brothers Lionoil svo árum skiftir, hreina eða til blöndunar. Ef þér hafið aldrei reynt Lionoil, þá borgar það sig að kynnast henni.




**GLIDDEN TITAN-O-ZINK QUICK DRYING ENAMEL**

Sérstakt Gljámál fyrir málarameistara búið til úr hinum undraverðu Titan-O-Lith litum — sérstaklega ætlað vönum málurum. — Þornar á 4 til 6 klukkutímum. Breiðist út og þekur yfirborðið undra vel. Er hreinlegt, tekur þvotti og kastar vel frá sér birtu.

## MURPHY'S UNIVERNISH

Eina lakkið sem nota má á alla hluti utan og innanhúss; á framhurðir, báta, bíla, gluggasillur, þvottastofur, gólf, útistóla, borð og þesshátttar. Safnar engu ryki, þornar á 2—3 kl.tímum. Sem yfirmál þornar það á 24—36 kl.tímum og strjúka má yfir það eftir 36—48 kl.tíma.

Gallonið hylur 750—900 ferfet. **Ekki má bera það ofan á Shellac.** Ágætt á gólfdúka.

**Hið allra besta á kirkjubekki.**




**Enginn hlutur er til sem ekki má búa til lakari og selja ódýrara verði.**

**SVO ER MEÐ GOTT MÁL**

# THE WESTERN PAINT Co. Ltd.

"The Painter's Supply House"

**121 Charlotte Street :: :: Winnipeg, Manitoba**

**Charlottesville, Va.**

Próf. Frederic T. Wood

**Davis, Calif.**

Dr. V. S. Ásmundsson

**Detroit, Mich.**

Hon. Frederick H. Fljózdal
Jónas W. Johnson

**Duluth, Minn.**

Chris Johnson

**Fargo, N. Dak.**

Próf. F. W. Thordarson
Dr. G. K. Björnsson
Mrs. N. B. Johnson
W. A. Myrdal

**Gloucester, Mass.**

Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grand Forks, N. Dak.**

University Library

**Hallson, N. Dak.**

Árni J. Jóhannsson

**Huntington Park, Calif.**

Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ivanhoe, Minn.**

Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

**Jackson, Mich.**

Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**

Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**

Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**

Gunnar Bergman

**Melrose, Mass.**

K. Markússon

**Minneapolis, Minn.**

Miss Hermania Björnsson
Hjálmar Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Sr. David Gulbrandson
Guðmund Peterson

**Minneota, Minn.**

María G. Árnason
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
John A. Johnson
John L. Johnson

**National City, Calif.**

John S. Laxdal

**New Haven, Conn.**

Próf. Adolph B. Benson
Yale University Libr.

**New Ulm, Minn.**

Hon. A. B. Gíslason

**New York, N. Y.**

Dr. E. Thorláksson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



TUTTUGASTI OG SJÖTTI ÁRGANGUR, 1944

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1945

# EFNISYFIRLIT









ÍSLENDINGAR Í VESTURHEIMI SAMFAGNA HEIMAÞJÓÐINNI
Í TILEFNI AF ENDURREISN HINS ÍSLENZKA LÝÐVELDIS.

17. JÚNÍ 1944

—

GUÐ BLESSI ÍSLAND

—

"VÉR HÖLDUM ALLIR HÓPINN
ÞÓTT HAFIÐ SKILJI LÖNDIN."





# 17. júní 1944

Eftir Jakobínu Johnson

---

Um norðurhvel er nóttlaus júní dagur.
Í nýjum ljóma fáni Íslands blaktir.
Á fornum grunni frjálsa ríkið stendur,
því fylla loftið svipir endurvaktir.
— Brennir ei hjörtu allra Íslendinga
ódauðleg minning landsins fyrstu þinga?

Um önnur lönd fer ógnan stríðs og myrkur,
en Ísland treystir hollum máttarvöldum.
Sjá, lýðfrelsi var landnámsmanna hugsjón,
og 'leið til vesturs' merki á þeirra skjöldum.
— Brennir ei hjörtu allra Íslands barna
arftaka dýr sem þessi leiðarstjarna?

Frá lindum helgra lífsins mímisbrunna
til landsins kæra berist vísdóms andi!
Frá miðstöð ljóss sé leiðbeint þeim, er stjórna,
og liðsinnt hvar sem brimið olli grandi!
Lýðveldið nýja njóti æðstu varna!
Nóttlaus sé dagur Íslands frjálsu barna!



# Endurreisn lýðveldis á Íslandi

Eftir prófessor Richard Beck



SVEINN BJÖRNSSON
fyrsti forseti íslenska lýðveldisins

I.

Lýðveldishátíðin á Íslandi síðastliðið sumar mun verða ógleymanleg öllum þeim Íslendingum, sem báru gæfu til að taka þátt í henni, og mikill ljómi mun jafnan leika um hana í hugum þeirra. En eins og kunnugt er, var það hið góða hlutskifti mitt að sækja þessi einstæðu hátíðahöld í sögu hinnar íslensku þjóðar sem fulltrúi Vestur-Íslendinga og sem gestur íslensku ríkisstjórnarinnar. Tel eg mér því sérstaklega skylt, og er það að sama skapi ljúft hlutverk, að segja lesendum þessa tímarits frá lýðveldishátíðahöldunum og öðru því helsta, sem fyrir augu mín bar á ferð minni heim til ættjarðarinnar á þessum örlagaríku tímamótum í sögu hennar.

Það er á allra vitorði, hversu skipagöngur milli Íslands og Ameríku eru seinar á þessum styrjaldartímum. Varð það því að ráði, að leitað væri til hlutaðeigandi yfirvalda um flugferð fyrir mig til Íslands og aftur heimleiðis. Fyrir ágæta aðstoð dr. Thor Thors, sendiherra Íslands í Washington, og mikla velvild herstjórnar Bandaríkjanna og yfirstjórnar ferjuflugs þeirra, var eg fluttur í herflugvél báðar leiðir. Stend eg því, og þeir aðrir, sem hér eiga hlut að máli, í mikilli þakkarskuld við sendiherrann, herstjórn Bandaríkjanna og aðra þá, sem greiddu mér götu hvað flugferðina snerti og gerðu mér förina yfir hafið með þeim hætti, eigi aðeins styttri svo vikum skifti, heldur einnig miklu ánægjuríkari og æfintýralegri.

Lagt var af stað í langflugið áleiðis til Íslands af norðlægum flugvelli í austanverðum Bandaríkjum og lent í Labrador. Eftir nokkurra stunda viðdvöl þar, var haldið áfram til Grænlands, staðnæmst þar og neytt

hádegisverðar. Var bjartviðri er þangað kom, svo að útsýn var ágæt yfir landið úr flugvélinni, og þótti mér Grænland stórskorið, enda er þar sæbratt mjög, en mikilfengleg var fjallasýn og fjarða. Gripu mig einkennilegar tilfinningar þegar eg steig nú fæti fyrsta sinni á mold þessa fornfræga landnáms Íslendinga, og varð mér ofarlega í huga þá stundina atburðarík og örlagaþung saga þessa fyrsta landnáms þeirra.

Og er eg var nú kominn "á Grænlands grund", mintist eg einnig skáldsins bragsnjalla, er orti þar sínar frægustu rímur, og hóf einn mansöng þeirra á ljóðlínunum fögru og alkunnu:

"Móðurjörð, hvar maður fæðist,
mun hún eigi flestum kær,
þar sem ljósið lífi glæðist
og lítil sköpun þroska nær?"

Fór það og að vonum, að þær ljóðlínur sæktu fast á mig þá stundina, því að framundan var síðasti áfanginn heim til ættjarðarinnar. Kosið hefði eg þó að standa lengur við í Grænlandi og sjá mig betur um í hinu forna landnámi Íslendinga á þeim slóðum, en slíks var eigi kostur að þessu sinni, né heldur á vesturleiðinni, því að þá var flogið beint af Íslandi til Nýfundnalands og þaðan eftir stundardvöl rakleiðis til Washington.

Eftir að hádegisverður hafði snæddur verið, eins og fyr er vikið að, hóf flugvélin sig til flugs á ný og lá leiðin nú austur yfir þvera Grænlandsjökla, því að flogið var norðarlega, og var hinn mikli jökulskjöldur, sem landið hylur og teygir arma sína niður í dali og firði, all-ægilegur ásýndum. Hrikafagur en svipkaldur var rekísinn einnig við austurströndina. Annars gerðist ekkert sögulegt á flugferðinni til Íslands. Veður var mjög gott, nema hvað allhvast var í fangið, og dró það nokkuð úr flughraðanum. Blasti hafið, faldað hvítfextum öldum og hið tignarlegasta, annað slagið við augum, en hitt var þó oftar, eins og verða vill á langflugi landa milli, að flogið var ofar skýjunum, sem gat þá að líta snjóhvít og sveipuð sólarljóma, eins langt og augað eygði. Var það bæði fögur sjón og tilkomumikil.

Hló mér hugur í brjósti, því að óðfluga styttist leiðin heim í land hinnar "nóttlausu voraldar veraldar, þar sem víðsýnið skín," en þegar nálgast tók landið, buðu flugmennirnir mér til sætis hjá sér frammi í stýrisklefa sínum, svo að eg gæti notið útsýnisins sem allra best. Mun eg aldrei gleyma því, er eg sá sóluroðinn silfurhjálm Snæfellsjökuls, fyrstan hinna frónsku fjalla, hefjast við himin upp úr skýjahafinu. Hann var mér þá og verður mér jafnan í minningunni, "Íslands hvíta móðurhönd".

Og sannarlega þótti mér Ísland "yfirbragðsmikið til að sjá", er eg leit það nú í fyrsta sinni blasa mér við augum úr loftinu. Enda kemur enginn Íslendingur, sem dvalið hefir langvistum erlendis, svo heim til Íslands, að honum verði eigi starsýnt á landið sjálft, þetta svipmikla og litbrigðaríka land, sem bar hann á brjósti og hefir í fjarlægðinni sveipast ljóma hins langþráða draumalands, og verður því hugumkærra, sem lengra líður á lífsins dag og sjón

manns glöggvast á hið nána samband landsins og þjóðarinnar.

Það var síðla dags þegar flugvélin lenti skamt frá Reykjavík. Mættu þeir mér á flugvellinum Agnar Kl. Jónsson, skrifstofustjóri í utanríkisráðuneytinu (áður aðalræðismaður Íslands í New York), er var hér kominn sem fulltrúi Vilhjálms Þór utanríkisráðherra og ríkisstjórnarinnar, og cand. theol. Pétur Sigurgeirsson (biskups Sigurðssonar), nú við framhaldsnám í Philadelphíu. Mátti því segja, að ríki og kirkja tækju höndum saman um að bjóða mig velkominn til landsins, enda er mér bæði ljúft og skylt að geta þess, að eg naut hinnar mestu vinsemdar og ágætustu fyrirgreiðslu af hálfu ríkisstjórnarinnar, sérstaklega utanríkisráðherra og utanríkisráðuneytisins, og frábærrar velvildar af hálfu biskups Íslands og annara kirkjunnar manna. En hinum ágætu viðtökum, er eg sem fulltrúi Vestur-Íslendinga átti alstaðar að fagna á Íslandi, mun eg lýsa nánar síðar.

Á leiðinni af flugvellinum til Reykjavíkur fengum við ferðafélagarnir að njóta eins af hinum yndislegu vorkvöldum, sem hefja hugann hátt og hita manni um hjartarætur, og skáld vor og málarar hafa fært í hæfan búning ljóða og lita. Minnisstætt verður mér það sérstaklega þegar Esjan, rökkurblá og mild á svip, kom í augsýn í fjarlægðinni. En henni og Íslandi í vorskrúða sínum það kvöld lýsti Klettafjallaskáldið meistaralega í vísu sinni "Að kveldlagi", er hann orti í Íslandsferð sinni 1917:

"Falla Hlés í faðminn út
firðir nesjagrænir.
Náttklædd Esjan, ofanlút,
er að lesa bænir."

II.

Fyrstu dagarnir eftir heimkomuna til ættjarðarinnar fóru eðlilega í það að heilsa og flytja kveðjur, í opinberar og einka heimsóknir og í það að reka ýms erindi, sem mér höfðu verið falin. Meðal annars fylgdi utanríkisráðherra mér nokkrum dögum eftir komu mína í heimsókn til þáverandi ríkisstjóra Íslands, herra Sveins Björnssonar, og frúar hans að Bessastöðum. Voru viðtökurnar þar hinar ástúðlegustu, sem annarsstaðar, og skemtilegt að ganga, í fylgd með ríkisstjóra, um hinn fræga og minningaríka stað og skoða þar prýðileg húsakynni og fyrirmyndar búrekstur. Útsýn er þaðan einnig fögur og staðurinn ágætlega í sveit settur.

Eigi hafði eg heldur lengi dvalið í Reykjavík eða nágrenni höfuðstaðarins, þegar eg varð þess var, að það var eigi aðeins vor í lofti, í hinum venjulega skilningi orðsins, heldur einnig í hugum manna. Seinustu dagana í maímánuði, réttum hálfum mánuði áður en eg steig á land, hafði íslenska þjóðin með fágætum og aðdáunarverðum samhug látið í ljósi eindreginn vilja sinni um lausn fullveldismálsins með allsherjar atkvæðagreiðslu, en áður hafði Alþingi staðið einhuga og óskift um málið. Var því einlægur fögnuður í hugum manna yfir þeim glæsilegu málalokum af hálfu þings og þjóðar, en jafnframt logaði mönnum í brjósti glaður eldur tilhlökkunar í tilefni af atburðinum mikla, sem framundan var



Bústaður forseta á Bessastöðum.

að nokkrum dögum liðnum, endurreisn hins íslenska lýðveldis og hátíðahöldunum, sem marka skyldu á verðugan hátt þau söguríku tímamót í sjálfstæðis- og menningarbaráttu þjóðarinnar. Þakklæti, sigur- og vonagleði fyltu hugi manna og settu svip sinn á þessa vorbjörtu daga, höfga af hjartfólgnum minningum og stórum framtíðardraumum.

Eftir því, sem nær dró hinum langþráða degi, klæddist Reykjavík meiri og meiri hátíðarskrúða. Fánastengur höfðu verið reistar á fjölda húsa og búðargluggar víðsvegar, sérstaklega í miðbænum, voru fagurlega skreyttir með ýmsum hætti, fánum eða fánalitum, blómum eða sveigum, málverkum af íslensku landslagi eða annarskonar myndum af Íslandi. Í langflestum gluggunum gat þó að líta ljósmyndir eða líkön af Jóni Sigurðssyni forseta, sveipuð bláum, hvítum og rauðum litum íslenska fánans eða með hann að bakgrunni. Og sömu söguna var að segja annarsstaðar á landinu, því að hvarvetna var hinum mikla sigurdegi fagnað með bæjaprýði og hátíðahöldum eftir því, sem föng voru á, og alstaðar skipaði mynd Jóns Sigurðssonar og lotningardjúp minningin um hann heiðursrúm í hátíðarskrautinu og hátíðahöldunum eigi síður en í hugum manna.

En sjálf höfuðborgin, svo sem aðrir bæir landsins, var einnig prýdd með öðrum hætti en að ofan getur. Fánar blöktu meðfram öllu Austurstræti og víðar; Landsímahúsið var skreytt skjaldarmerkjum sýslanna og fánum, en framan á svölum Alþingishússins var skjöldur einn mikill með lýðveldishátíðarmerkinu í litum þess, og svalirnar og framhlið hússins klædd grænu íslensku lyngi og laufi. Fánaborg tilkomumikil var umhverfis líkneski Jóns Sigurðssonar á Austurvelli, en yfir götur í miðbænum voru strengdir borðar með hátíðarmerkinu. Íslensk skip, sem á höfninni lágu og við hafnargarðinn voru einnig fánum prýdd.

Segja mátti því með sanni, að höfuðborgin, sem landið alt, væri með

hátíðarsvip, og þjóðin sjálf í hátíðarskapi, enda dró nú til stórra tíðinda.

En áður en lýst er lýðveldishátíðahöldunum, er rétt og í rauninni nauðsynlegt, svo að samhengi atburðanna raskist eigi, að geta hins sögulega fundar í sameinuðu Alþingi, sem haldinn var daginn áður, laust eftir hádegi föstudaginn þ. 16. júní, en þá voru teknar lokaákvarðanir um sambandsslitin milli Íslands og Danmerkur og um stofnun lýðveldisins, samkvæmt þingsályktunum frá 25. febrúar og 8. mars á því ári.

Þegar þingfundur þessi hófst á tilsettum tíma, kl. 1.30, voru áheyrendapallar þéttskipaðir og margt annara gesta í sal efri deildar og hliðarherbergjum, enda var hér um örlagaríkan atburð að ræða. Þingmenn skipuðu sér í sæti sín, en á borðum þeirra og ráðherranna stóð fagur og haglega gerður íslenskur borðfáni, til skreytingar í salnum og til minja um hinn sögulega viðburð, sem nú var að gerast.

Forseti sameinaðs Alþingis, Gísli Sveinsson sýslumaður, setti fundinn og stýrði honum, en tvö mál voru á dagskrá, þingsályktunartillögur frá ríkisstjórninni um sambandsslitin og lýðveldisstofnunina, og flutti forsætisráðherra, dr. jur. Björn Þórðarson þær báðar með viðeigandi inngangsorðum.

Var fyrri tillagan á þessa leið:

"Alþingi ályktar að lýsa yfir því, að niður sé fallinn dansk-íslenski sambandslagasamningurinn frá 1918."

Síðari tillagan var svohljóðandi:

"Alþingi ályktar, með tilvísun til 81. gr. stjórnarskrár lýðveldisins Íslands og þar sem skilyrðum sömu greinar um atkvæðagreiðslu allra kosningabærra manna í landinu er fullnægt, að stjórnarskráin skuli ganga í gildi laugardaginn 17. júní 1944, þegar forseti sameinaðs Alþingis lýsir yfir því á fundi í Alþingi".

Enginn kvaddi sér hljóðs og voru tillögur þessar, eins og fyrirfram var vitað, samþyktar með samhljóða atkvæðum allra viðstaddra þingmanna, 51 að tölu, en einn þeirra lá veikur, og þarf ekki að draga í efa hvar hann hefði skipað sér í flokk í þessu máli.

Þvínæst las forsætisráðherra upp bréf ríkisstjóra, þess efnis, að næsti fundur Alþingis yrði haldinn að Þingvöllum laugardaginn 17. júní, en forseti sameinaðs Alþingis tilkynti, að sá fundur hefðist kl. 1.55 og að tekin yrðu á dagskrá yfirlýsing forseta um gildistöku stjórnarskrár lýðveldisins Ísland og kosning forseta Íslands fyrir tímabilið 17. júní 1944 til 31. júlí 1945. Sagði hann síðan fundi slitið.

Var athöfn þessi öll hin virðulegasta, og hafa allir viðstaddir vafalaust fundið til þess, að þeir höfðu lifað örlagastund í sögu þjóðar sinnar. Með samstiltum einingaranda þings og þjóðar hafði áfanganum langdreymda í sjálfstæðismálum landsins verið náð. Upprisudagur hins íslenska lýðveldis var að morgni.

## III.

Fánum skreytt og í hátíðarbúningi að öðru leyti, eins og að ofan er lýst, blasti Reykjavík við manni þegar

komið var niður í bæinn hinn sögu-ríka laugardagsmorgun þ. 17. júní. En veðravöldin höfðu daufheyrst við bænum manna um góðviðri og bjartviðri, því að himinn var þungbúinn og snemma dags byrjaði að rigna. Hinsvegar hafði hátíðarnefndin fastákveðið að stofnun lýðveldisins að Þingvöllum og önnur hátíðahöld færi fram, hvernig sem viðraði, og var eigi hvikað frá því marki. Skyldi nú fram fara fyrsti þáttur hátíðahaldanna við líkneski Jóns Sigurðssonar á Austurvelli, og var þar margt manna saman komið, þó mjög margir væru að sjálfsögðu farnir til Þingvalla, einkum var mikill fólkstraumur þangað austur á föstudaginn.

Hófust hátíðahöldin kl. 9 með því, að ríkisstjóri, ríkisstjórn, Alþingismenn, fulltrúar erlendra ríkja, fulltrúi Vestur-Íslendinga og aðrir gestir Alþingis gengu í fylkingu úr Alþingishúsinu að styttu Jóns Sigurðssonar. Forseti sameinaðs Alþingis flutti síðan skörulega ræðu um ómetanlegt ævistarf og stjórnfrelsisbaráttu Jóns Sigurðssonar og lagði að því búnu veglegan og fagran blómsveig við fótstallinn á styttu hans. Lúðrasveit Reykjavíkur lék þjóðsöng Íslands, og lauk með því þessari hátíðlegu athöfn. "Síðan breiddi hinn fagri sveigur út blómskrúð sitt við fótstallinn langa, ljósa daga og nætur Jónsmessuskeiðsins, féll eins og fagur gimsteinn inn í nýútsprungið blómaflos vallarins, sem aldrei hefir verið eins gróðursæll og vel hirtur og á þessu sólbjarta sumri: Táknræn mynd þess vaxtar, sem Jón Sigurðsson sáði til með lífi sínu og starfi í þágu lands og þjóðar", eins og Sveinn Sigurðsson, ritstjóri *Eimreiðarinnar*, komst prýðilega að orði í frásögn sinni um lýðveldishátíðahöldin.

Að lokinni athöfninni við styttu Jóns Sigurðssonar, lögðu ríkisstjóri, ríkisstjórn, alþingismenn og gestir lýðveldishátíðarnefndar af stað áleiðis til Þingvalla í bílum sínum, en lögregluþjónar á bifhjólum fóru fyrir hinni löngu bílalest, sem virtist endalaus, enda fór fólk svo þúsundum skifti í alskonar bifreiðum frá Reykjavík til Þingvalla fyrir hádegið þá um daginn. Er það verðugt frásagnar í því sambandi, að engin teljandi slys urðu við hinn mikla mannflutning til og frá Þingvöllum hátíðardagana, þrátt fyrir það, að vegir höfðu stórum spilst vegna rigningarinnar. Bar það gott vitni umferðastjórn lögreglunnar og akstri bílstjóranna.

Gestir allir héldu til gistihússins Valhöll á Þingvöllum, og var þar sest að hádegisverði. En laust eftir kl. 1 gengu ráðherrar, alþingismenn, sendiherrar og aðrir gestir til Lögbergs, með ríkisstjóra og biskup í fararbroddi; en er þangað kom hafði geysimikill mannfjöldi safnast þar saman, svo að Almannagjá mátti fullskipuð heita, en aðrir höfðu tekið sér stöðu uppi á gjárbrúnunum; auk þess var mannfjöldi mikill í brekkunni niður undan Lögbergi og alla leið niður að Öxará. Er talið, að 25—30 þúsundir manns hafi sótt hátíðina, svipaður fjöldi eða fyllilega það, er sótti Alþingishátíðina 1930.

Hafði fánum skreyttur þingpallur verið reistur í brekkunni framan við Lögberg, fyrir ríkisstjóra, ráðherra, biskup, alþingismenn, erlenda sendiherra og aðra fulltrúa, konur þeirra allra og aðra gesti hátíðarnefndar.



Forseti sameinaðs þings, Gísli Sveinsson, setur þingfundi að Lögbergi, og lýsir yfir, að stjórnarskrá lýðveldisins sé gengin í gildi.

Var það mikilfengleg sjón að horfa af þingpallinum yfir haf mannfjöldans, Almannagjá fánum skreytta, með hvíta tjaldborgina á völlunum í baksýn. Gjallarhorn fluttu mannfjöldanum það, sem fram fór að Lögbergi, en björgin umhverfis tóku undir. Var sem maður heyrði þar endurróm frá sál landsins sjálfs á þessari miklu fagnaðar- og sigurstundu í sögu þjóðarinnar.

Meðan gengið var á Lögberg lék lúðrasveitin "Öxar við ána, árdags í ljóma", og var það táknrænt fyrir þennan mikla dag, þrátt fyrir þungviðrið, því að um hann lék bjarmi upprennandi þjóðlífsmorguns. Nálgaðist nú óðum hin stóra stund.

Kl. 1.30 setti forsætisráðherra dr. Björn Þórðarson hátíðina með gagnorðu ávarpi. En þvínæst fór fram guðsþjónusta, er hófst með því, að sunginn var sálmurinn: "Þín miskunn, ó guð". Þá flutti biskup Íslands, dr. Sigurgeir Sigurðsson, fagra og hjartnæma ræðu og bæn, en síðan var sunginn sálmurinn: "Faðir andanna". Samband íslenskra karlakóra, undir stjórn Páls Ísólfssonar tónskálds, annaðist sönginn, sem var hinn prýðilegasti. Og öll var hin látlausa guðsþjónusta með þeim helgi- og hátíðarblæ, er hæfði þeim sögurika atburði, sem hér var að gerast.

Og nú var hið stóra augnablik runnið upp. Kl. 1.55 reis Gísli Sveinsson, forseti sameinaðs Alþingis, úr sæti sínu og mælti á þessa leið:

"Þá er fundur settur í sameinuðu Alþingi, að Lögbergi á Þingvelli við Öxará.

Vegna þeirra merkilegu mála, sem hér eiga að sæta fullnaðar-meðferð, hefir Alþingi í dag með stjórnskipulegum hætti verið flutt af sínum venjulega samkomustað í höfuðstað landsins til þessa fornhelga staðar, þar sem einatt áður dró til úrslita í tilverumálum hinnar íslensku þjóðar.

Verkefni þessa þingfundar er tvíþætt, í samræmi við það, sem þegar hefir fullgert verið og lög standa nú til, og er samkvæmt dagskrá fundarins ákvarðað þannig:

1. Lýst gildistöku stjórnarskrár lýðveldisins Íslands, ásamt öðru, er þeim þætti heyrir.
2. Kjörinn forseti Íslands, er síðar vinnur eið að stjórnarskránni."

Var síðan gengið til dagskrár og tekið fyrir fyrra málið. Forseti sameinaðs Alþingis las þingsályktunina frá 16. júní um gildistöku stjórnarskrár lýðveldisins, sem prentuð er hér að framan, hringdi að því loknu bjöllu og þingmenn risu úr sætum sínum. Þá mælti forseti sameinaðs þings þessi orð:

*"Samkvæmt því, sem nú hefir greint verið, lýsi eg yfir því, að stjórnarskrá lýðveldisins Ísland er gengin í gildi."*

Lýðveldisfáninn var dreginn að hún að Lögbergi. Klukknahringing hófst í Þingvallakirkju, klukkan var tvö, og samtímis var kirkjuklukkum hringt um landið alt. Stóð klukknahringing þess yfir tvær mínútur, og mátti með sanni segja, að þær hringdu inn nýtt tímabil í sögu landsins. Þegar klukknahljómurinn dó út, varð einnar mínútu þögn, samhliða því, að umferð stöðvaðist, eigi aðeins á Þingvöllum, heldur einnig um landið alt. Menn drupu höfði í hátíðlegri lotningu. Áreiðanlegt er það, að þegar þögnin var rofin með því, að hinn mikli mannfjöldi söng þjóðsönginn "Ó, Guð vors lands", hafa menn fundið til þess, að þeir höfðu lifað ógleymanlega stund í sögu þjóðar sinnar — óskastund hennar. Þeir höfðu séð hinn hjartfólgnasta draum kynslóðanna rætast. Lýðveldi hafði verið endurreist á Íslandi. Fortíð og samtíð tóku höndum saman yfir djúp aldanna og bygðu brú inn í draumalönd nýrrar aldar.

Þegar þingmenn höfðu tekið sæti sín á ný, flutti forseti sameinaðs Alþingis snjalla ræðu um hin miklu tímamót í sögu þjóðarinnar, sem nú höfðu gerst, og um hina auknu og nýju ábyrgð, sem lýðveldið legði þjóðinni á herðar.

Þvínæst var tekið fyrir annað mál á dagskrá, kosning forseta Íslands fyrir tímabilið 17. júní 1944 til 31. júlí 1945, en samkvæmt stjórnarskránni átti Alþingi að kjósa hann að þessu sinni, en framvegis kýs þjóðin hann til 4 ára í senn. Var kosið á seðlum og fór kosningin fram samkvæmt reglum um kosningu forseta sameinaðs Alþingis.

Úrslitin urðu þau, eins og löngu er kunnugt, að Sveinn Björnsson ríkisstjóri hlaut 30 atkvæði, Jón Sigurðsson, skrifstofustjóri Alþingis, 5 atkvæði, en 15 seðlar voru auðir. Tveir þingmenn voru fjarstaddir sökum veikinda.

Tilkynti forseti sameinaðs þings



Forseti Íslands herra Sveinn Björnsson vinnur eið að stjórnarskrá lýðveldisins.

þvínæst, að Sveinn Björnsson væri rétt kjörinn fyrsti forseti hins íslenska lýðveldis. Vakti kosning hans mikinn og hjartanlegan fögnuð mannfjöldans, er bar því fagurt vitni, hve djúp og víðtæk ítök hann á í hugum þjóðarinnar. Þá er forseti hafði unnið eið að stjórnarskránni, og mannfjöldinn hafði hylt hann með ferföldu húrrahrópi, flutti hann að Lögbergi fyrsta ávarp sitt til þings og þjóðar, hvatti til sameiningar og þegnlegrar fórnfýsi, og minti þjóðina sérstaklega á hin happasælu málalok að Þingvöllum fyrir 944 árum síðan, þá er kristni var í lög tekin á Íslandi á hinn friðsamlegasta og eftirminnilegasta hátt, svo sem sögur vorar greina.

Var þetta fyrsta ávarp Forseta Íslands íturhugsað og drengilegt, "alvöruþrungin lögeggjan og bæn", eins og því hefir réttilega lýst verið. Vafalaust hefir það einnig fundið næman hljómgrunn í hjörtum þúsundanna mörgu, sem á það hlýddu, enda var því tekið með einlægum fögnuði af mannfjöldanum.

Sleit forseti sameinaðs þings síðan fundi þessum, hinum fjölmennasta, sem nokkru sinni hefir haldinn verið að Lögbergi, og hinum söguríkasta síðan á 13. öld. Mjög skifti þó, góðu heilli, í tvö horn um hið örlagaríka

þinghald þeirrar aldar og hinn sögulega þingfund, sem nú hafði slitið verið. *Þá* leið hið forna lýðveldi undir lok, *nú* var það endurreist að nýju, og sveipaðist jafnhliða frægðarljóma hinnar fornu frelsisaldar. Og næsti þáttur hátíðarinnar, sem einnig fór fram að Lögbergi, kveðjur og árnaðaróskir erlendra fulltrúa, dró einmitt huga manna að hinu glæsilega sjálfstjórnartímabili Íslands fyr á öldum, og að hinum miklu bókmenta- og menningarverðmætum, sem urðu ávextir þess tímabils og verið hafa þjóðinni orkulind og andlegrar yngingar.

Þegar þingfundi hafði verið slitið og Þjóðhátíðarkórinn og þingheimur hafði sungið "Ísland ögrum skorið", fluttu fulltrúar erlendra ríkja hinu nýstofnaða íslenska lýðveldi kveðjur frá þjóðhöfðingjum sínum og ríkisstjórnum. Kynti Vilhjálmur Þór utanríkisráðherra hina erlendu fulltrúa með viðeigandi virðingarorðum, en Forseti Íslands, Sveinn Björnsson, svaraði hverjum þeirra á sama máli og hann hafði mælt. Var fáni þjóðar þeirra dreginn á stöng á þingpallinum meðan þeir fluttu mál sitt, en þjóðsöngur viðkomandi þjóðar leikinn, þá er forseti Íslands hafði þakkað kveðjurnar og svarað þeim.

Voru það fulltrúar fimm erlendra ríkja, sem fluttu ávörp að Lögbergi, þeir Louis G. Dreyfus sendiherra, sem viðstaddur var hátíðahöldin sem sérstakur fulltrúi Roosevelts Bandaríkjaforseta, Gerald Shephard sendiherra, sem var sérstakur fulltrúi Georgs Bretakonungs, August Esmarch sendiherra, sérstakur fulltrúi norsku stjórnarinnar, Otto Johannsson sendifulltrúi, sérstakur fulltrúi sænsku stjórnarinnar, og Henri Voillery, fulltrúi frönsku Þjóðfrelsisnefndarinnar.

Lýstu hinar hlýju kveðjur þeirra allra miklum vinarhug í garð hinnar íslensku þjóðar, skilningi á sjálfstæðiskröfum hennar og réttindum til fulls sjálfsforræðis og virðingu fyrir sögu hennar og menningarbaráttu. Enda vöktu kveðjur þessar mikinn fögnuð hins fjölmenna áheyrendahóps, er hylti hina erlendu fulltrúa með dynjandi lófaklappi; einkum var það eftirtektarvert, hve fagnaðarlætin voru mikil, þá er fulltrúi Norðmanna flutti mál sitt, og svipuðu máli gegndi, þá er sænski fulltrúinn bar fram kveðjur sínar, en þeir mæltu báðir á íslenska tungu. Voru kveðjur hinna erlendu fulltrúa mikilvægur og mjög minnisstæður þáttur í hátíðahöldunum að Lögbergi, hollum þjóðarmetnaði byr undir vængi, en jafnframt sterk eggjan til dáða. Öll þau erlendu ríki, sem hér áttu hlut að máli, viðurkendu stuttu síðar lýðveldið á formlegan hátt; sama máli gegnir um stjórn Sovétríkjanna, er einnig átti fulltrúa við lýðveldisstofnunina, þó eigi flytti hann þar ávarp.

Utanríkisráðherra Vilhjálmur Þór tilkynti einnig að Lögbergi, að hollenska stjórnin í London og pólska stjórnin þar hefðu falið ræðismönnum sínum á Íslandi að flytja íslensku ríkisstjórninni kveðjur og velfarnaðaróskir í tilefni af lýðveldisstofnuninni. Síðar um daginn tilkynti utanríkisráðherra ennfremur, að borist hefðu hlýjar kveðjur og heillaóskir frá Lögþingi Færeyinga og ríkisstjórn Belgíu. Auk þess bárust Forseta Íslands og ríkisstjórn kveðjur

og heillaóskir frá öðrum þjóðhöfðingjum og ríkisstjórnum víðsvegar um lönd. Hinn virti og vinsæli sendiherra Dana á Íslandi um margra ára skeið, dr. F. le Sage de Fontenay, gat eigi verið viðstaddur hátíðahöldin vegna ferðabanns, er kyrrsetti hann í London, en laust fyrir hátíðina hafði hann sent faguryrt og einkar hlýlegt kveðjuskeyti til lands og þjóðar. Þá bárust forseta og ríkisstjórn sægur af heillaóskaskeytum frá ýmsum félögum og einstökum mönnum utanlands og innan, íslenskum og erlendum, meðal annara sendiherrum og ræðismönnum Íslands erlendis, frá mörgum Íslendingum vestan hafs og íslenskum félögum þarlendis. Lýsti það sér vel í þessum fjölmörgu kveðjum víðsvegar að, hverja athygli lýðveldisstofnunin vakti og hversu víðtækur góðhugur fylgdi hinu endurreista íslenska lýðveldi á veg.

Með flutningi hinna erlendu kveðja og árnaðaróska var lokið hátíðahöldunum að Lögbergi. Héldu forseti Íslands og föruneyti hans, þingmenn, sendiherrar og aðrir gestir til Valhallar, en mannfjöldinn dreifðist í ýmsar áttir; margir lögðu þó þegar leið sína inn á Vellina, en þar skyldi fram fara næsti þáttur hátíðarinnar síðar um daginn.

Á Völlunum við rætur Fangbrekku hafði verið reistur mikill íþróttapallur og fór þar fram síðari hluti dagskrár hátíðahaldsins, en þó með nokkrum breytingum og úrfellingum vegna hins óhagstæða veðurs mestan hluta dagsins. Geysimikill mannfjöldi hafði safnast saman umhverfis fimleikapallinn, en þó einkum í brekkunni sjálfri, því að þaðan var útsýn góð bæði niður yfir pallinn og Vellina. Var það mikilfengleg sjón að sjá hina víðáttmiklu brekku verða að samfeldu, lifandi mannhafi.

Hófst þessi síðari hluti hátíðahaldanna með því, að lúðrasveit lék nokkur lög. Þvínæst söng Þjóðkórinn, undir stjórn Páls Ísólfssonar, ýms ættjarðarkvæði, og brátt hafði hinn mikli mannfjöldi tekið svo vel undir, að það var eins og brekkan öll syngi. Var það mjög hressandi og hrífandi á að hlýða, og mun þeim lengi í minni vaka, sem tóku þátt í þeim fagnaðarsöng eða hlustuðu á hann.

Að því loknu flutti formaður Þjóðhátíðarnefndar, dr. Alexander Jóhannesson prófessor, ávarp sitt, sem var hið ágætasta að efni og mjög skörulega flutt, enda var því tekið með miklum fögnuði. Kynti hann að því búnu fulltrúa Vestur-Íslendinga, er flutti kveðjur þeirra, Forseta Íslands, ríkisstjórn og þjóð, og lauk máli sínu með þessum orðum:

"Herra forseti! Eg flyt ríkisstjórn Íslands og íslensku þjóðinni, landi og lýð, hjartans kveðjur og heillaóskir Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi og hinna mörgu þúsunda Íslendinga í landi þar í heild sinni. Þeir myndu hafa fjölment á þessa sigurhátíð þjóðar vorrar, eigi síður en þeir gerðu á Alþingishátíðina tilkomumiklu og minnisstæðu 1930, ef óviðráðanlegar ástæður hefðu eigi verið þrándur í götu. En hjörtu þeirra og hugir sameinast hjörtum og hugum þjóðsystkina þeirra hér heima í þökk og bæn á þessari helgu og hátíðlegu stundu.

"Vissulega leikur bjartur ljómi og fagur um hátindana í sögu Íslands,

og mikill orkugjafi hafa minningarnar um afrek forfeðranna, um forna frelsis- og frægðaröld, hin sögulega arfleifð vor, verið þjóð vorri á liðnum öldum og fram til þessa dags. Enn þá fegurri er samt morgunroðinn á fjöllum þeirra vonalanda hinnar íslensku þjóðar, sem rísa í hillingum af djúpi framtíðarinnar í djörfum draumum sona hennar og dætra. Aukið frelsi og aukinn manndómur haldast löngum í hendur, enda ber sagan því vitni, að sjálfstraust þjóðar vorrar, djörfung og framsóknarhugur hennar hafa vaxið í hlutfalli við aukið sjálfsforræði hennar. Þess vegna er það von og trú barna hennar vestan hafs, að hún fari svo með fjöregg síns endurfengna forna frelsis, að hennar bíði "gróandi þjóðlíf með þverrandi tár," helgað framkvæmd þeirra félags- og menningarhugsjóna, sem verið hafa henni leiðarstjarnan í sjálfstæðisbaráttu hennar og hana hefir fegurstar dreymt. En réttur skilningur á hlutverki þjóðarinnar, trúnaður við hið æðsta og göfugasta í arfi hennar, þjóðhollusta og þegnskapur, er grundvöllur framtíðarhlutskiftis hennar og hamingju.

"Blessunar og bænarorðum vor Íslendinga vestan hafs, ættjörðinni og ættþjóðinni til handa, fæ eg svo, að málslokum, eigi valið hæfari búning heldur en þessar ljóðlínur frú Jakobínu Johnson, er ortar voru nýlega til Íslands:

"Gefi láns og gæfustjarna
gullöld nýja fyrir dyrum.
Leiðin var myrk og langsótt gegnum hættur.
Lýðveldið—Íslands stóri draumur rættur!"

"Guð blessi Ísland og Íslendinga! Lengi lifi og blómgist hið endurreista íslenska lýðveldi!"

Eigi skal hér neinn dómur lagður á það, hvernig þessi kveðjuflutningur tókst, en hitt væri rammasta vanþakklæti að geta þess eigi, hversu frábærlega vel kveðjunum vestan um haf var fagnað af hálfu þúsundanna mörgu á Þingvöllum. Kom þar fram, sem alstaðar á ferð minni, hinn djúpstæði ræktarhugur, sem Íslendingar heima á ættjörðinni bera í brjósti til landa sinna og frænda í Vesturheimi, og lifandi áhugi þeirra fyrir framhaldandi sambandi við íslenska þjóðstofninn vestan hafsins.

Þá er lokið hafði verið flutningi á kveðjunni frá Íslendingum í Vesturheimi, lék lúðrasveitin "Þótt þú langförull legðir" eftir Stephan G. Stephansson, undir hinu tilkomumikla lagi Sigvalda Kaldalóns tónskálds.

En nú gerðist óvæntur atburður, sem mikla athygli vakti og öllum viðstöddum mun lengi minnisstæður. Forsætisráðherra dr. Björn Þórðarson gekk fram á ræðupallinn og kvaðst hafa orðsendingu að færa. Tilkynti hann, að ríkisstjórninni hefði borist skeyti frá Hans Hátign Kristján X. Danakonungi, og hefði konungur í orðsendingu sinni látið í ljós bestu árnaðaróskir sínar um framtíð íslensku þjóðarinnar og vonir um, að tengsl þau (bönd þau), er tengja Ísland öðrum Norðurlöndum, mættu styrkjast.

Tók mannfjöldinn boðskap konungs með miklum fögnuði og hylti hann með ferföldu húrrahrópi, þá er forsætisráðherra vottaði honum



Séð af þingpalli að Lögbergi yfir mannfjöldann. Fremst lúðrasveit og kór.

þakkir þjóðarinnar og bað honum, fjölskyldu hans og þjóð blessunar og velfarnaðar. Síðan lék lúðrasveitin konungssönginn danska. Var auðfundið, að þessi kveðja hins aldurhnigna og hugprúða konungs hafði slegið á næma strengi í brjóstum mannfjöldans, drjúgum aukið mönnum hátíðargleðina og að sama skapi góðhug manna til konungs sjálfs og virðingu manna fyrir honum. Ríkisstjórnin sendi konungi þegar þakkaskeyti fyrir kærkomna kveðju hans.

Hélt dagsskráin síðan áfram með söng Þjóðhátíðarkórs Sambands íslenskra karlakóra, en um 200 manns voru í kórnum. Stjórnuðu þeir söngnum til skiftis Jón Halldórsson, er var aðalsöngstjórinn, Sigurður Þórðarson, Hallur Þorleifsson, Robert Abraham og Þórarinn Guðmundsson. Var söngur þessa fjölmenna kórs tilþrifamikill mjög, en sungin voru einkum ýms ættjarðarljóð eða önnur kvæði þjóðræknislegs efnis, gömul og ný. Í lagi Björgvins Guðmundssonar við kvæði Gríms Thomsens, "Heyrið vella' á heiðum hveri", söng Pétur Jónsson óperusöngvari einsöng við svo ágætar undirtektir, að lagið var endurtekið, enda var það með afbrigðum vel sungið.

Benedikt Sveinsson, fyrv. forseti neðri deildar Alþingis og einn af kunnustu leiðtogum Íslendinga í sjálfstæðismálum þeirra, flutti ræðu um sjálfstæðisbaráttu þeirra, sem mikla athygli vakti, enda var hún prýðilega samin og vel flutt.

Íslandsljóð þau, sem verðlaun

höfðu hlotið og alkunn eru orðin, voru einnig flutt í þessum þætti hátíðahaldanna. Brynjólfur Jóhannesson las upp kvæði Huldu skáldkonu, en Jóhannes úr Kötlum flutti sjálfur kvæði sitt. Var þeim báðum ágætlega fagnað.

Vegna úrfellisins gat eigi orðið af hinni miklu íþróttasýningu, sem fram skyldi fara, nema af hópsýningu 170 fimleikamanna undir stjórn Vignis Andréssonar fimleikakennara. Þrátt fyrir það, að íþróttapallurinn var rennvotur, tókst sýning þessi prýðilega og var bæði fögur og tilkomumikil. Íslandsglíman og sýningar úrvalsflokkanna fóru fram síðar í Reykjavík. Lauk hátíðahöldunum á Völlunum síðan með hljóðfæraslætti, söng og dansi.

En í Valhöll sátu forseti, ríkisstjórn, erlendir fulltrúar og aðrir gestir virðulega veislu í boði Alþingis, er var um alt hið ánægjulegasta. Lauk þannig þessum hátíðlega og ógleymanlega degi að Þingvöllum þ. 17. júní 1944.

Þrátt fyrir hið óhagstæða veðurfar, höfðu hátíðahöldin farið hið besta fram, með festu og virðuleika, sem samboðið var jafn gamalli menningarþjóð og íslenska þjóðin er, og jafn sæmandi hinum örlagaríku tímamótum í sögu hennar, endurreisn lýðveldisins. Yfir þessum einstæðu hátíðahöldum á hinum fornhelga stað þjóðarinnar sveif andi einingar og alvöru. Og framkoma fólksins á Þingvöllum var hvorttveggja í senn frjálsmannleg og glæsileg. Hefi eg aldrei verið stoltari af þjóð minni. Menn voru í sólskinsskapi og létu eigi rigningarveðrið á sig fá; það hvarf í ljóma hins mikla og langþráða viðburðar, sem þeir voru vitni að og þátttakendur í, og þess vegna verður altaf bjart um þennan dag í minningu þeirra.

IV.

Með hátíðahöldunum á Þingvöllum var þó aðeins lokið fyrra þætti þessarar ógleymanlegu þjóðhátíðar á Íslandi. Seinni þátturinn fór fram í Reykjavík daginn eftir þ. 18. júní, og var án efa hið stærsta og tilkomumesta hátíðarhald í sögu höfuðstaðarins. Nú var líka stórum bjartara í lofti en daginn áður, og naut fánaskreyting borgarinnar, sem þegar hefir verið lýst, sín þessvegna að því skapi betur, enda var mikill hátíðarblær yfir Reykjavík þennan fyrsta dag lýðveldisins.

Hófst hátíðin kl. 1.30 síðdegis með stórfenglegustu skrúðgöngu, sem þar hefir nokkru sinni sést. Í fararbroddi fór fylking lögregluþjóna, þá lúðrasveit, og þvínæst fjölmennur hópur barna eitthvað um 2,000 talsins; síðan komu ýms félög og stéttir undir fjölda íslenskra fána og sérfánum sínum, stúdentar, Góðtemplarar, skátar, verslunarmenn, iðnaðarmenn, verkamenn, sjómenn og fjöldi annara félaga af ýmsu tagi. Lék lúðrasveitin ýms ættjarðarlög, en þátttakendur í skrúðgöngunni sungu undir.

Var skrúðganga þessi svipmikil mjög. En mesta athygli og hrifningu vöktu börnin. Báru þau íslenska fána, og margar stúlknanna voru klæddar skrautlegum upphlutum, en aðrar voru í peysufötum og jafnvel möttlum. Hitaði það vafalaust mörgum um hjartarætur að líta þessa fríðu fylkingu íslenskrar æsku,

sem á að erfa landið og byggja sem traustast og fegurst þjóðfélagsmusteri á grunni þess verks, sem nú hafði unnið verið með lýðveldisstofnuninni.

Skrúðgangan hafði safnast saman við Háskólann, þar í grendinni og sunnan Tjarnarinnar, og lagði leið sína yfir Tjarnarbrúna, Fríkirkjuveg, Lækjargötu og fram hjá Alþingishúsinu. En á svölum þess stóð hinn nýkjörni forseti Íslands og tók kveðju mannfjöldans, sem hylti hann með miklum fögnuði. Var fylkingin hálfa klukkustund að ganga fram hjá Alþingishúsinu, enda var giskað á, að um 7,000 manns hefðu tekið þátt í skrúðgöngunni.

Frá Alþingishúsinu hélt skrúðgangan um Austurstræti að Stjórnarráðshúsinu, en framan við það og í nærliggjandi götum hafði safnast saman geysimikill fólksfjöldi, svo að óslitið mannhaf gat að líta um alt Lækjartorg, vestur eftir Austurstræti, upp Hverfisgötu, Bankastræti og Arnarhólstún, og langt suður í Lækjargötu.

Á Stjórnarráðsblettinum skipuðu fánaberar sér annarsvegar, en börnin hinsvegar. Úti fyrir Stjórnarráðshúsinu voru forseti Íslands, ríkisstjórnin, fulltrúar erlendra ríkja og aðrir sérstakir gestir öðru megin við tröppurnar, en alþingismenn hinumegin. Ræðustóll hafði verið reistur fyrir dyrum hússins og gjallarhornum komið fyrir á heppilegum stöðum, svo að vel heyrðist alt sem fram fór. Meðan fólk var að staðnæmast og koma sér fyrir umhverfis Stjórnarráðshúsið, lék lúðrasveitin nokkur lög.

Síðan gekk forseti Íslands, Sveinn Björnsson, í ræðustól og ávarpaði þjóðina, en mannfjöldinn hylti hann að nýju með dynjandi lófaklappi. Flutti hann efnismikla og mjög tímabæra ræðu, horfðist djarflega í augu við hin mörgu viðfangsefni, sem bíða úrlausnar, hvatti til þjóðareiningar og lagði sérstaka áherslu á það, hver nauðsyn bæri til að skapa sem mest vinnuöryggi í landinu. Fórust honum meðal annars þannig orð:

“Menn skipa sér í stéttir og flokka um sameiginleg hugðarmál. Svo hefir verið og svo mun verða. Barátta milli stétta og flokka virðist óumflýjanleg. En þá baráttu verður að heyja þannig, að menn missi aldrei sjónar á því, að þegar alt kemur til alls, erum vér allir á sama skipinu. Til þess að sigla því skipi heilu í höfn, verðum vér að læra þá list að setja öryggi þjóðarheildarinnar ofar öðru. Hér á landi er ekkert gamalt og rótgróið auðvald eða yfirstétt. Heldur ekki kúguð og undirokuð alþýða. Flestir okkar eiga frændur og vini í öllum stéttum þjóðfélagsins. Oss ætti því að vera auðveldara en ýmsum öðrum að vilja hver öðrum vel. Að bera ekki í brjósti heift og hatur, öfund og tortryggni hver til annars, þótt vér höfum lent í mismunandi stéttum í þjóðfélaginu. Oss ætti að vera auðveldara að leggja hver sinn skerf eftir efnum og ástæðum til þess að byggja upp fyrirmyndar þjóðfélag á þjóðlegum grundvelli.” —

Þá fluttu ávörp formenn þingflokkanna fjögra, þeir alþingismennirnir Ólafur Thors, núverandi forsætisráðherra, formaður Sjálfstæðisflokksins, Eysteinn Jónsson, fyrir hönd Framsóknarflokksins, Einar



Ólafur Thors, núverandi forsætisráðherra Íslands, flytur ávarp framan við stjórnarráðhúsið, 18. júní. Til vinstri situr Sveinn Björnsson, forseti Íslands.

Olgeirsson, af hálfu Sósíalistaflokksins og Haraldur Guðmundsson, fyrir hönd Alþýðuflokksins. Voru ræður þeirra allra hinar snjöllustu bæði að innihaldi og flutningi, tilfinningaríkar og markvissar, enda eru þeir allir löngu þjóðkunnir bæði sem ræðumenn og forystumenn í stjórnmálum.

Allir horfðu þeir yfir farinn veg íslensku þjóðarinnar, mintust langrar menningar- og sjálfstæðisbaráttu hennar, frelsisfrömuðanna og hinna mörgu, sem studdu þá að verki, þó að sagan kunni eigi að greina nöfn flestra hinna síðartöldu. Ræðumennirnir brýndu einnig fyrir löndum sínum hinar auknu skyldur, sem þeir hefðu lagt sér á herðar með endurreisn lýðveldisins, til þess að tryggja framtíð þess, farsæld og auðugt menningarlíf með þjóðinni og samúð og virðingu annara þjóða.

Að lokinni ræðu forseta lék lúðrasveitin "Ísland ögrum skorið", en önnur ættjarðarlög eftir ávörp formanna þingflokkanna. Lauk þessari hátíðlegu athöfn síðan með því, að leikinn var þjóðsöngurinn, en yfir hátíðahöldunum í höfuðstaðnum hafði hvílt sami einingar- og virðuleikablær og á Þingvöllum daginn áður.

Laust eftir að athöfninni lauk við Stjórnarráðshúsið, var opnuð í Mentaskólanum söguleg sýning úr frelsis- og menningarbaráttu Íslendinga á liðnum öldum, margþætt og merkileg, eins og síðar mun frekar sagt verða. Formaður þjóðhátíðar-

nefndar, dr. Alexander Jóhannesson prófessor, ávarpaði gestina og bauð þá velkomna, en þvínæst flutti Ólafur Lárusson prófessor mjög fróðlegt og vel samið erindi um sýninguna, en hann hafði annast undirbúning hennar ásamt með þeim dr. Einari Ól. Sveinssyni, Einari Olgeirssyni alþingismanni og Guðlaugi Rósinkrans yfirkennara. Var sýningin síðan opin lengi fram eftir sumri og sótti hana fjöldi fólks, enda var það hin ágætasta skólaganga í sögu landsins að ganga um sýningarherbergin.

Nokkru síðar um daginn hófst íþróttamótið á Íþróttavellinum, að viðstöddu fjölmenni, og fluttu þar skörulegar ræður þeir Benedikt G. Waage, forseti Íþróttasambands Íslands, og Bjarni Benediktsson borgarstjóri Reykjavíkur, en út á völlinn höfðu íþróttamenn úr mörgum félögum gengið í glæsilegri skrúðgöngu. Fóru þar síðan fram tilkomumiklar fimleikasýningar, en eigi lauk mótinu þó fyr en seinna í vikunni.

Um kvöldið hélt ríkisstjórnin mjög virðulega og fjölmenna veislu að Hotel Borg, sem forsætisráðherra dr. Björn Þórðarson stjórnaði, en þessir aðrir fluttu þar ræður: Forseti sameinaðs Alþingis, Gísli Sveinsson, sem mælti fyrir minni Forseta Íslands, Sveins Björnssonar, forseti Íslands, sem mintist fósturjarðarinnar, Vilhjálmur Þór utanríkisráðherra, sem ávarpaði erlenda gesti, og sendiherra Bandaríkjanna, sem svaraði af hálfu erlendu sendiherranna. Var ræðum þessum útvarpað, og sama máli gegndi að sjálfsögðu um öll önnur meginatriði hátíðahaldanna báða dagana, og gerði það fólki um land alt fært að fylgjast með aðalhátíðinni á Þingvöllum og í Reykjavík. Er því auðsætt, að þáttur útvarpsins í hátíðahöldunum var bæði víðtækur og mikilvægur.

En þegar litið er á þessi sögulegu og merkilegu hátíðarhöld íslensku þjóðarinnar í heild sinni, verður eigi annað sagt, en að þau hafi tekist prýðilega og orðið þjóðinni og öllum hlutaðeigendum til sóma, ekki síst þegar tillit er tekið til þess, hversu aðstæðurnar voru að ýmsu leyti erfiðar, og tíminn til undirbúnings naumur, því að þjóðhátíðarnefndin var eigi skipuð fyr en 10. mars síðastliðinn. Í henni áttu sæti, auk formannsins, dr. Alexander Jóhannessonar prófessors, þeir Ásgeir Ásgeirsson, bankastjóri, vara-formaður, Einar Olgeirsson, alþingismaður, ritari, Guðlaugur Rósinkrans yfirkennari og Jóhann Hafstein, lögfræðingur. En vitanlega áttu margir aðrir, karlar og konur, þar góðan hlut að máli, þó að eigi verði það hér rakið. Þessi hátíð varð *þjóð*hátíð í sönnustu merkingu orðsins vegna þess fagra eindrægnisanda, sem ríkti yfir henni; þessvegna er hún rituð óafmáanlegu letri á minnisspjöld manna og í sögu þjóðarinnar.

Vegleg og fjölsótt hátíðahöld í tilefni af lýðveldisstofnuninni fóru einnig fram mjög víða um landið þ. 17. og 18. júní, meðal annars að Rafnseyri, fæðingarstað Jóns Sigurðssonar, þ. 17. júní, og flutti dr. Sigurður Nordal prófessor þar aðalræðuna, sem þótti hin snjallasta. Veður var gott á Norður- og Austurlandi hátíðardagana, og gerði það vitanlega sitt til þess að gera hátíðahöldin sem ánægjulegust. Auk þess voru hátíðahöld, beint eða óbeint

helguð endurreisn lýðveldisins, haldin fram eftir öllu sumri í öllum landshlutum, sérstaklega í sveitum landsins; fjöldi félaga víðsvegar um landið mintist lýðveldisstofnunarinnar einnig með sérstökum samkomum. Enda gat enginn ferðast svo um Ísland síðastliðið sumar, að hann fyndi eigi streyma um sig þá öldu hrifningar og vakningar, sem farið hafði um sál þjóðarinnar í tilefni af endurbornu fullu frelsi hennar og sjálfstæði. Snjallar ljóðlínur Sigurðar Einarssonar hitta markið vel hvað þetta snertir:

"Ylur í lofti og ilmur af vori,
andar nú fjær og nær.
Það er festa í augum og fjör í spori,
því fólkið var nýtt í gær.
Og þessi nýja, náttgamla sveit
fær nýjan hreim í sitt mál,
nýjan himin og nýja jörð,
nýja hugsun og sál."

Fagnaðar- og þakkarhugur þjóðarinnar kom einmitt glögt fram í hinum fjölmörgu kvæðum, sem ort voru í tilefni af lýðveldisstofnuninni, og óhætt mun mega segja, að skift hafi hundruðum, því að þjóðhátíðarnefndinni einni saman bárust á annað hundrað kvæði í verðlauna-samkepninni um hátíðarljóðin. Eðlilega eru kvæði þessi misjöfn að skáldskapargildi, en sum þeirra eru bæði snjöll og fögur, og öll eiga þau sammerkt í því, að djúpstæð ættjarðarást, trú á framtíð hinnar íslensku þjóðar og hvatning til dáða var kjarni þeirra og hin heita undiralda tilfinninganna, sem þar klæddist hreimmiklum búningi íslensks máls. Kvæði þessi bera því einnig vitni, hversu lýðveldishátíðin hefir glætt og eflt eingaranda þjóðarinnar.

Þessi alda fagnaðar og hrifningar náði langt úr fyrir strendur Íslands. Íslendingar erlendis, og þá ekki síst vestan hafs, þar sem þeir skifta tugum þúsunda, mintust lýðveldisstofnunarinnar með miklum og virðulegum hátíðahöldum, og urðu með þeim hætti eitt með ættþjóð sinni heima fyrir á þessum sögu- og sigurríku tímamótum í ævi hennar.

En þó að hinum opinberu lýðveldishátíðahöldum væri lokið með hátíðarveislu ríkisstjórnarinnar sunnudagskvöldið þ. 18. júní, má segja, að fyrsta veisla forseta Íslands, sem haldin var að forsetasetrinu á Bessastöðum laugardaginn 24. júní, væri einnig þáttur í hátíðahöldunum. — Boðsgestir voru ríkisstjórnin, forseti sameinaðs Alþingis, forseti hæstaréttar, biskup Íslands, formenn stjórnmálaflokkanna, fulltrúar erlendra ríkja, fulltrúi Vestur-Íslendinga og nokkrir aðrir íslenskir embættismenn.

Í samræðum við forseta Íslands við það sögulega tækifæri kom það í ljós, sem oftar, hversu hlýjan hug hann og aðrir forráða- og forystumenn íslensku þjóðarinnar bera til Íslendinga vestan hafs. Hins sama gætti í þakkar- og kveðjuorðum Sveins forseta, þá er eg, stuttu eftir að eg kom til Íslands, afhenti honum, í viðurvist ríkisstjórnarinnar, heiðursskírteini frá Þjóðræknisfélaginu, og þá er eg, rétt áður en eg hélt heimleiðis aftur, afhenti honum, að forsætisráðherra og utanríkisráðherra viðstöddum, hina áletruðu eirtöflu, sem félagið sendi íslensku

þjóðinni í nafni Vestur-Íslendinga í tilefni af endurreisn lýðveldisins.

V.

Fyrir örláta og ágæta fyrirgreiðslu ríkisstjórnarinnar varð mér unt að ferðast víðsvegar um landið og verða við tilmælum um að flytja á samkomum í öllum landshlutum, mörgum þeirra mjög fjölmennum, kveðjur frá Íslendingum vestan hafs og segja frá lífi þeirra og starfi og þjóðræknisbaráttu. Viðtökurnar, er eg sem talsmaður Vestur-Íslendinga átti hvarvetna að fagna voru svo frábærar, að eg fæ þeim eigi með orðum lýst. Eg fann hlýjuna og alúðina streyma til mín úr öllum áttum, og hvorttveggja flutti eg með mér vestur um hafið og hefi reynt að finna sem hæfastan búning í ræðu og riti. Mörg félög og fjöldi einstaklinga átti hér jafnan hlut að máli, en ítarlegri greinargerð um þessa hliðina á ferð minni á heima í forsetaskýrslu minni á þjóðræknisþinginu.

Hins skal þó þakklátlega minst hér, að á þessu ferðalagi mínu gafst mér í fyrsta sinni á ævinni tækifæri til að ferðast um ýmsa hluta landsins, sem eg hafði eigi áður séð, og sjá marga af fegurstu og sérkennilegustu stöðum þess, svo sem Ásbyrgi, Dettifoss, Goðafoss, Gullfoss og Geysi. Tel eg Gullfoss eitthvert hið allra fegursta náttúrufyrirbrigði, sem eg hefi nokkru sinni augum litið, enda faldi hann eigi "flæðielda" sína í "fölskva kvöldsins", þegar mig bar að garði hans, en birtist mér í allri regnboga og litadýrð sinni. Svipmikill þótti mér Geysir einnig og mintist eg myndauðgrar og glöggrar lýsingar Böðvars Bjarkan á honum í þessu erindi:

"Sjá, holskeflur hvítar við blámóðu ber,
þær blika eins og perlur í glampandi logum.
Og litregn af kvikandi ljósbroti fer
eins og leiftur um úðann, í sindrandi bogum.
Í andköfum heitum er eimslæðum fleygt
yfir ólgandi hrannir og bragelda-sveiminn,
en af sóldruknum blæ þeirra földum er feykt,
svo þeir flaksast og hverfa út í vor-ljósa-geiminn."

Óbreytt var fegurð fjarða og fjalla á æskustöðvunum á Austurlandi og Fljótsdalsherað svipfrítt og fangvítt yfir að líta; Eyjafjörður samur við sig um fjölbreytni og tíguleik; ógleymanleg útsýn af Möðrudalsöræfum víða vegu og af Vatnsskarði yfir Skagafjörð heiðríkan sumardag. — Aldrei gleymist mér heldur för niður Borgarfjörð syðra dýrlega morgunstund, eða þá Reykjavík, eins og hún blasti við af Kjalarnesinu sama morgun. Fagurt þótti mér einnig í Dölum vestur og svipmiklir Vestfirðir, að ógleymdum sjálfum Þingvöllum, helgistað þjóðarinnar, sem ólíkir eru öllum öðrum stöðum, og

---

Fulltrúi Vestur-Íslendinga afhendir forseta Íslands eirtöfluna, sem Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi sendi landi og þjóð að gjöf. Frá vinstri til hægri: Dr. Richard Beck, Vilhjálmur Þór, utanríkisráðherra, Dr. Björn Þórðarson, forsætisráðherra og Sveinn Björnsson, forseti.

gróðursælt var Suðurlandsundirlendið með svipfríðum fjallahring sínum.

Eg fékk einnig að sjá ættjörðina í fegursta sumarskrúða, því að tíðin var frámunaleg góð, blíðviðri og sólskin mikinn hluta þess tíma, sem eg dvaldi heima á Íslandi. Sá eg órækar sannanir þess, hverja uppsprettu fegurðar og yndisauka Ísland á upp á að bjóða, leiti menn opnum augum í fang þess, hvort sem er til fjarða, dala eða fjalla, og um landið alt. Gladdist eg jafnframt yfir því, að augu manna eru áreiðanlega að opnast fyrir þeirri margbreyttu náttúrufegurð, sem þar er að finna, og lýsir það sér í auknum ferðalögum fólks víðsvegar um landið. Hefir Ferðafélag Íslands unnið merkilegt og þakkarvert verk í þessa átt.

Þá voru mér hinar miklu verklegu framfarir síðari ára eigi síður fagnaðar- og aðdáunarefni heldur en fjölbreytt fegurð landsins. Nefni eg sem dæmi Hitaveitu Reykjavíkur, með mannvirkjunum öllum þar að lútandi, að Ljósafossi og annarsstaðar. Eigi fór það heldur fram hjá mér, hversu verksmiðjuiðnaður af ýmsu tagi hefir færst í aukana á síðustu árum, eða nánara talað síðan eg var seinast heima á ættjörðinni Alþingishátíðarárið 1930. Mér þótti, meðal annars, merkilegt að skoða Fiskiverksmiðju Haraldar Böðvarssonar kaupmanns á Akranesi og ýmsar verksmiðjudeildir Kaupfélags Akureyrar, svo að eitt dæmi sé tekið sitt úr hvorum landshluta, er bera gott vitni iðnaðarlegum framförum landsins.

Mjög var það einnig ánægjulegt að kynnast hinum nýju stórhýsum, sem risið hafa frá grunni í Reykjavík á síðustu árum, sérstaklega Háskólanum og Sundhöllinni, sem eru hin prýðilegustu hvort í sínu lagi. Lét eg þau orð falla í ræðu á samkomu í Háskólanum, að hver háskóli, hvar sem væri í hinum stærri löndum, væri fullsæmdur af slíku skólahúsi. Má það vera öllum velunnurum Háskóla Íslands óblandið fagnaðarefni, hversu vel er nú að honum búið um húsakynni, og þá eigi síður hitt hversu honum vex nú fiskur um hrygg með margháttaðri fræðslustarfsemi en áður var, enda er honum mikið og veglegt hlutverk ætlað í menningarlífi þjóðarinnar.

Sjómannaskólinn í Reykjavík verður einnig mikið hús og veglegt, og sæmandi þeirri mikilvægu og fjölmennu stétt þjóðarinnar. Tilkomumikil þótti mér einnig Matthíasarkirkja á Akureyri, og myndarlegir mjög héraðsskólar þeir, sem eg heimsótti, svo sem í Reykholti, að Laugarvatni og Núpi í Dýrafirði. Ennfremur tók eg eftir því, að sveitabæir eru nú mjög víða miklu betur hýstir en áður var, þó að sumstaðar skorti á æskilega prýði í híbýlagerð. En þó skólahúsin, kirkjurnar og húsakynni alment séu aðeins ytra borð framfaranna og menningarinnar, þá gefur alt slíkt mjög til kynna hvert stefnir í þeim efnum og vitnar um hinn menningarlega og andlega áhuga, sem liggur að baki slíkra framkvæmda.

En svo að vikið sé aftur að hinum verklegu framförum, þá er sérstaklega ánægjulegt að gefa því gaum, hve notkun rafmagns til hita og ljósa hefir farið í vöxt á Íslandi, og er þar um stórstígar framfarir að ræða, þegar í minni er borið, að aðeins 40

ár eru liðin síðan fyrsta rafstöð var reist á Íslandi (1904). Í aukinni notkun raforkunnar á þjóðin margþætta og stórvæga framtíðarmöguleika, og er því gott til þess að vita, að vænta má framhaldandi og víðtækra framkvæmda á því sviði.

Þá þótti mér hitt eigi síður athyglis- og frásagnarvert, hversu Íslendingar eru farnir að notfæra sér jarðhitann, eigi aðeins til hitunar skóla og annara húsakynna, heldur einnig til ræktunar blóma, grænmetis og ávaxta. Var mér fátt skemtilegra í heimförinni heldur en að ganga um gróðurhúsin á Reykjum í Mosfellssveit og Reykjum í Ölfusi og sjá þar íslenska banana og vínber, að tvent eitt sé talið. Framtíðarmöguleiknarir eru áreiðanlega mjög miklir á þessu sviði, þó framleiðsla þessi sé enn sem komið er mjög dýr, þegar á markaðinn kemur. Sannast æ betur og betur orð skáldsins: "Þetta land á ærinn auð, ef menn kunna að nota' hann."

Líti maður svo á hið andlega líf þjóðarinnar, menningarlíf hennar, fer ekki fram hjá manni hin mikla bókaútgáfa á Íslandi og bókakaup að sama skapi, því að vitanlega helst það mjög í hendur. Nú er auðvitað hvergi nærri alt jafn þungt á metum listar og menningargildis, sem út er gefið af bóka tagi, en margt af því eru mjög merkilegar bækur og góðar, og eigi allfáar ágætar, hvort sem litið er á útgáfur eldri rita, frumsamin samtíðarrit eða þýðingar. Og vissulega er það ekki ómerkilegt menningar fyrirbrigði, að þegar Íslendingar fengu nokkur fjárráð, verja þeir eigi litlu af því fé til bókakaupa.

Eg gaf einnig að sjálfsögðu nokkurn gaum að öðrum hliðum á íslenskri nútíðarmenningu. Eg sá sýnd á leiksviði í Reykjavík síðastliðið sumar tvö víðfræg merkisverk norskra höfuðsnillinga í leikritagerð, "Pétur Gaut" Henriks Ibsen og "Paul Lange og Tora Parsberg" eftir Björnstjerne Björnson. Færðu leiksýningar þessar mér heim sanninn um það, að Íslendingar eiga góðum leikkröftum á að skipa, sem munu þó njóta sín enn betur, þegar Þjóðleikhúsið kemur til sögunnar, og skyldi þess ekki langt að bíða.

Þá fer það eigi fram hjá neinum, sem til Íslands kemur og hefir eyrun sæmilega opin, hve íslensk tónlist hefir orðið fjölbreyttari, þjóðlegri og sérstæðari á síðari árum. Eiga þar fyrst og fremst hlut að máli hin eldri tónskáld, lífs og liðin, sem brautina ruddu, en þar koma einnig til greina yngri tónskáldin, sem hafa með tónlagasmíðum sínum af ýmsu tagi aukið margbreytni og svipbrigði íslenskrar tónmentar, en á því sviði er um mikinn gróður að ræða. Varð eg t .d. mjög hrifinn af hinu ágæta lagi Sigvalda Kaldalóns tónskálds við hið hjartnæma erindi úr kvæði Eggerts Ólafssonar, "Ísland ögrum skorið". Þótti mér það einnig verðskuldað réttlæti örlaganna, að þetta ljóð ættjarðarvinarins mikla og vorboðans í sjálfstæðisbaráttu Íslendinga skyldi hefjast upp í slíkan tignarsess í hugum landa hans, eins og raun bar vitni, einmitt á því ári, þegar draumur kynslóðanna um endurheimt frelsi Íslands rættist að fullu.

Þá duldist mér eigi, að í íslenskri myndlist er einnig um mikinn og margbreyttan gróður að ræða, og bar sýning Félags íslenskra myndlistarmanna, er haldin var í sambandi við

Lýðveldishátíðina, því glögt vitni. Hún var fjölbreytt mjög, því að þar gat að líta margvísleg málverk, vatnslitamyndir, teikningar og höggmyndir, og sýndi hún ótvírætt, að íslenska þjóðin á mörgum gáfuðum og snjöllum listamönnum á að skipa, eldri og yngri, og prýddu eigi allfáar konur þann hóp á sýningunni. En alls gat að líta 74 listaverk eftir 28 málara og myndhöggvara á sýningu þessari. — Jafnhliða því, sem eg skoðaði þessa eftirtektarverðu og fjölskrúðugu listasýningu, gerði eg mér einnig sérstaka ferð í "Hnitbjörg" og átti þar ástúðlegum viðtökum að fagna hjá hinum sjötuga snilling, Einari Jónssyni, er þar heldur enn áfram að skapa frumleg og stórbrotin listaverk, sem enginn Íslendingur í kynnisför til ættjarðarinnar má láta fara fram hjá sér.

Og þegar minst er á íslenskar listir og listamenn, er það sannarlega ánægjulegt til frásagnar, hvert kapp menn leggja á það að prýða heimili sín með málverkum, en þess sá eg mörg merki, og ber það sannarlega menningarbrag þjóðarinnar fagurt vitni.

Þá þótti mér sérstaklega merkileg og verður minnisstæð mjög sögulega sýningin í Mentaskólanum, sem haldin var einnig í sambandi við Lýðveldishátíðina, eins og fyr er vikið að, og fór framúrskarandi vel á því. Var sýning þessi í níu deildum og veitti mjög gott heildaryfirlit yfir sögu hinnar íslensku þjóðar frá byrjun vega hennar og fram á þennan dag.

Fyrsta deildin fjallaði um byggingu Íslands og upphaf allsherjarríkis; önnur deildin um þjóðveldistímabilið 930—1262; hin þriðja um landafundi og langferðir; sú fjórða um miðaldir Íslands (1262—1550), viðnám landsmanna gegn erlendu valdi, en hin fimta um niðurlægingar-tímabilið í sögu Íslendinga (1550—1787), þangað til verslunareinokuninni var létt af. Sjötta deildin, "Dagrenning", fjallaði, eins og nafnið bendir til, um endurreisnartímabilið fram að Þjóðfundinum 1851, sú sjöunda var, eins og vera bar, sérstaklega helguð Jóni Sigurðssyni forseta, lífi hans og starfi, hin áttunda lýsti sjálfstæðisbaráttunni frá 1874, og níunda deildin sýndi framfarir þjóðarinnar síðan Íslendingar fóru að fá vald yfir málum sínum 1874. Voru línurit, teikningar og ljósmyndir til skýringar hinum miklu framförum, sem orðið hafa á umræddu tímabili.

Ýmsir íslenskir málarar og teiknarar höfðu gert myndir af sögulegum viðburðum fyrir sýninguna, og bar þar mest á hinni ófullgerðu mynd Gunnlaugs Blöndal, listmálara, af Þjóðfundinum 1851, og mun mörgum leika hugur á að sjá hana fullgerða.

Eigi var gengið fram hjá Vestur-Íslendingum á sýningu þessari, því að þeim var tileinkaður nokkur hluti deildarinnar um landafundi og langferðir; voru þar kort yfir Íslendingabygðir vestan hafs, myndir úr lífi Vestur-Íslendinga og af þeim Stepháni G. Stephánsson og dr. Vilhjálmi Stefánsson.

Þessi sýning úr frelsis- og menningarbaráttu hinnar íslensku þjóðar sýndi það deginum ljósar, að Davíð skáld Stefánsson hafði rétt að mæla þegar hann komst svo að orði um hana: "Og hennar líf er eilíft kraftaverk". Á þessari menningarlegu og

sögulegu sýningu mátti einnig sjá það letrað ljósum rúnum, að íslenska þjóðin er fyrir löngu búin að réttlæta tilveru sína meðal þjóðanna, rétt sinn til þess að vera frjáls og fá að lifa lífi sínu í friði.

Sýningin hafði að yfirskrift "Frelsi og menning", og hittu þau orð vel í mark. Því að sannmæli eru eftirfarandi orð úr formálanum að sýningarskránni: "Saga Íslendinga er fágætlega glögt dæmi þess, að blómið menning getur ekki vaxið nema úr jarðvegi frelsisins. En með frelsi er ekki aðeins átt við frelsi undan einhverju, frelsi undan oki, heldur um leið frelsi til einhvers. Frelsi til samvinnu og samtaka, til laga og réttar, til sjálfstæðs menningarlífs. *Frelsið í þessum skilningi er ekki stjórnleysi, heldur heilbrigt, mannsæmt líf.*"

Í þeim anda hefir hin íslenska þjóð tekið á ný sæti sitt í hópi frjálsra og óháðra lýðræðisþjóða.

Í sambandi við frásögnina um hina merkilegu sögulegu sýningu er skylt og ánægjulegt að geta þess, að á fundi sameinaðs Alþingis þ. 20. júní síðastliðinn var samþykt með samhljóða atkvæðum 3 miljóna króna fjárveiting til byggingar fyrir Þjóðminjasafn, og skal nú þegar hafist handa um undirbúning slíkrar byggingar. Fyrnefndir formenn þingflokkanna fjögra, alþingismennirnir Ólafur Thors, Eysteinn Jónsson, Haraldur Guðmundsson og Einar Olgeirsson fluttu þingsályktunartillögu um þetta mikilvæga mál, en Ólafur Thors var aðalflutningsmaður, og komst meðal annars þannig að orði í framsöguræðu sinni:

"Ein meginstoð okkar er og verður sjálfstæð þjóðmenning. Til varðveislu hennar verðum við að halda lífrænu sambandi við sögu okkar og fortíð. Til þess er þjóðminjasafnið nauðsynlegt, þjóðminjasafn, sem almenningur getur haft not af, sem verður skóli þjóðarinnar í framtíðinni."

Munu allir unnendur sögu Íslands og menningar fagna því að hafist hefir verið handa um þetta mikla nytjamál, og líta svo á, að fjárveitingin til þess sé sæmandi "morgungjöf til lýðveldisins", eins og Eysteinn Jónsson orðaði það í umræðum um málið.

Hefir þá verið drepið á nokkuð af því helsta, sem verður efst í huga mínum, þegar eg renni sjónum yfir hið marga og mikla, sem fyrir augu bar á Íslandsferð minni. Vafalaust munu ýmsir segja, að þar sé horft á hlutina gegnum rósrauð gleraugu hátíðargleðinnar og bjartsýninnar, sem láti sér sjást yfir það, sem miður fer. Ekki skal þess dulist, að mörgu er ábótavant hjá hinni íslensku þjóð, og öfugstreymi ýmiskonar í lífi hennar, eins og segja má einnig um aðrar þjóðir heims, stærri og smærri. En eining sú, sem ríkti bæði hjá þingi og þjóð um lausn lýðveldismálsins, spáir góðu um það, að þjóðin muni einnig sameinast um úrlausn annara vandamála sinna, sem bæði krefjast viturlegrar leiðsagnar af hálfu forystumanna hennar og fórnfýsi og samvinnu af hennar hálfu. Sigrar þeir, sem hún hefir unnið á liðinni tíð í glímunni við hin örðugustu kjör, eru þá eigi síður góðspá um það, að hún muni bera gæfu til að ganga sigrandi

af hólmi þeirra vandkvæða, sem hún verður að leysa á sem heillavænlegastan hátt í framtíðinni.

Í þakklátum huga geymi eg til daganna enda minningarnar um þessa atburðaríku ferð, um lýðveldishátíðina, þjóðina frjálslegu, framsæknu og gestrisnu, um landið svipmikla og fagurprúða. Enginn fær farið slíka ferð, komið undir göfgandi áhrif náttúrufegurðar Íslands eins og hún blasir við í sumardýrð sinni og fundið himinn sögunnar hvelfast þar yfir höfði sér, svo að honum aukist eigi heilbrigð þjóðerniskend og hollur þjóðarmetnaður.

Eg kom "heiman-heim" úr ferðinni fasttrúaðri á framtíð hinnar íslensku þjóðar og á íslenskt þjóðerni, á þroskamátt íslenskra menningarverðmæta, og ennþá sannfærðari en áður um það, að því aðeins greiðum vér Íslendingar vestan hafs vora þegnlegu skuld best og varanlegast, að vér varðveitum og ávöxtum í lengstu lög alt hið fegursta, djúpstæðasta og lífrænasta í menningararfi vorum.

---

# Sólarljóð hin nýju

Eftir Guttorm J. Guttormsson

Þeir hafa fyrir skálkaskjól,
Þig skæra, blíða himinssól.
Með birtu þinnar huliðshjálm,
Með hlíf úr þínum geislamálm,
Í þinni dýrð, úr þinni átt
Þeir þjóta ofan loftið blátt
Til húss, er enga hefir vörn,
Og hæfa markið — saklaus börn.
En sé þeim hætta sjálfum á
Að sjái til að hæfa þá
Í mildri birtu, er berst þér frá,
Ei beint til jarðar, en á ská, —
Svo hverfi þeir, í heljarleik
Þeir hylja þig með vítisreyk.

# Skýjaborgir

Eftir Einar P. Jónsson

---

Þeir skopast að skýjaborgum,
sem skilja' ekki neitt í því
að alfagur, æðri heimur
sé ofan við reyk og blý,
að fólkið, sem fórst um daginn,
þar finni sig sjálft á ný.

Þó lönd séu böðuð blóði
og bannfærð öll heilög rök,
og bikarinn barmafyltur
af brjálaðra þræla sök,
þú virðir þó aðalseðlið
hin andlegu Grettistök.

Þó bæn stigi hæst til hæða,
er Heródes enn á ferð,
og þúsundum barna bana
býr blóðdrifið níðingssverð,
sem hert var á heiftar-afli
við hræsninnar suðugerð.

Í álögum enn þá bíður
mörg útvalin hetjuþjóð,
sem dreymir um friðað frelsi,
þó friðurinn kosti blóð. —
Í skýjunum brosa borgir
við bjarma frá kvöldsins glóð.

Svo dimt verður aldrei yfir,
að eygi' ekki neina borg
í skýjanna huldu hafi
með hafnir og friðsæl torg.
Þar á sér að lokum útför
hver ógn og hver mannlífssorg.

# Okkar á milli

Eftir Dr. J. P. Pálsson

Nýtísku einþættingur sem fram fer í þorpi á vestur-sléttu Canada, á heiðskírum morgni í júnímánuði. — *Fyrsta* og *þriðja sýning árið* 1941. *Önnur* sýning árið 1916.

*PERSÓNUR*

*Gamli læknirinn* yfir sjötugt í fyrstu og þriðju sýningum. Tuttugu og fimm árum yngri í annari sýning.

*Ungi læknirinn* innan þrítugs, lítill og veiklulegur.

*Hjúkrunarkonan* fremur óálitleg og lítið eitt hölt.

*Jonni* rúmlega tvítugur, stór vexti og hið mesta glæsimenni. Hann er kvikur í hreyfingum og iðar af æskufjöri. Í samtalinu við gamla læknirinn, situr hann aðeins nokkur auknablik í senn. Annars gengur hann um gólf, horfir út um gluggann, eða stendur með höndurnar á skrifborðinu og þrumar skoðanir sínar yfir læknirinn. — Stundum verður vart séð hvort honum er full alvara, eða hvort hann er aðeins að stríða vini sínum og koma honum til að þrefa við sig.

*Flækingurinn,* í rifnum og stagbættum hermannabúningi frá 1918. Hár hans er grátt, óhreint og úfið. — Andlitið afskræmt af gömlum meiðslum, og vinstra augað hulið svartri blöðku. Hann er órakaður. Göngulagið lýsir máttleysi í ganglimunum og hendur hans eru óstyrkar. Röddin hás og brostin.

*FYRSTA SÝNING*

Móttökustofa gamla læknisins. — Fyrir miðjum vegg í baksýn, bréfageymsla (filing cabinet) um fimm feta há og jafnhá bókaskápum sem standa á báðar hliðar. Á geymslunni standa nokkrar ljósmyndir af Jonna, þegar hann var á ýmsum aldri. Sú fyrsta af hvítvoðung, hin síðasta af hermanni. Ofan við ljósmyndirnar hangir mottó prentað stóru letri, í mjóum svörtum ramma; beggja megin við það hanga leyfi- og prófskírteini læknisins. — Á vinstri vegg, stór gluggi aftarlega; framar dyr út í biðstofu. — Á hægri vegg aftarlega, dyr inn í lækningastofu; framar klæðaskápur með hurð fyrir. — Á hliðarveggjum hanga nokkrar myndir. — Aftarlega á sviðinu er stórt skrifborð, bakvið það skrifstofu-stóll. Annar stóll við hægri enda borðsins er hliðstæður áhorfendunum. — Á borðinu eru skriffföng og eitt tímarit.

*Ungi læknirinn* (kemur inn frá vinstri. Gengur frá sumarkápu og hatti í klæða-skápnum. Gengur að glugganum og horfir út).

*Hjúkrunarkonan* (kemur frá hægri. Staldrar við þegar hún sér læknirinn).

*Ungi læknirinn* (lítur um öxl): Góðan morgun.

*Hjúkrunarkonan:* Góðan morgun, læknir. (Lítur á armúrið). Þú ert snemma á ferli. Heill klukkutími þar til fyrstu sjúklinganna er von.

*Ungi læknirinn:* Já, en þetta er fyrsti starfsdagur minn hér, og eg verð að setja mig í stellingarnar. (Þau brosa).

*Hjúkrunarkonan:* En það gerir þú varla með því að horfa út í sumardýrðina. Er veðrið, annars, ekki indælt í dag? Og að horfa yfir lystigarðinn á svona fögrum sumarmorgni——

*Ungi læknirinn:* En eg var ekki að dá fegurð náttúrunnar. Komdu og sjáðu það sem eg sé.

*Hjúkrunarkonan* (gengur að glugganum og horfir út): Hvaða ósköp er að sjá manninn!

*Ungi læknirinn:* Eg gekk fram hjá honum áðan, og hann lá nákvæmlega í sömu stellingum, þarna á bekknum.

*Hjúkrunarkonan:* Hann gæti verið dauður. — Tókstu eftir því?

*Ungi læknirinn:* Já. Hann er lifandi, en—— (hikar).

*Hjúkrunarkonan:* En hvað? Lifandi dauður?

*Ungi læknirinn:* Það er víst réttasta lýsingin. Hann hefir mist annað augað, og andlitið er hræðilega afskræmt.

*Hjúkrunarkonan:* En sá uppdráttur á mannræflinum! Eru ekki þessar tuskur sem hann er í hermannaföt frá fyrra stríðinu?

*Ungi læknirinn:* Ekki sá eg betur.

*Hjúkrunarkonan:* Eg hélt allir hermannabúningar frá 1918 væru fyrir löngu liðnir undir lok.

*Ungi læknirinn:* Já eg hefi nú séð margan illa til fara á síðastliðnum tíu árum, en þessi mannskepna ber af þeim öllum. Hann er sjálfkjörið vitni kreppunnar, án þess að segja orð.

*Hjúkrunarkonan:* Ertu viss um að hann sé lifandi?

*Ungi læknirinn:* Já, hann bara sefur. Hefir líklegast sofið þarna í nótt.

*Hjúkrunarkonan:* Það er hálf óviðfeldið að horfa á hann héðan úr stofunni. Það er ekki ólíklegt að hann þarfnist læknishjálpar. En þarna kemur gamli læknirinn — og athugar hann. Hann er að þreifa á slagæðinni. — Gerðir þú það?

*Ungi læknirinn:* Nei. Sannast að segja fanst mér ekki vert að ónáða hann. Svefninn er honum hollastur. Svo var eg annars hugar. (Snýr frá glugganum).

*Hjúkrunarkonan* (glettin): Þú hefir verið sokkinn niður í framtíðardrauma þína. Það hlýtur að vera meir en lítið spennandi, að taka við umdæmi, sem sami læknirinn hefir sint í hálfa öld.

*Ungi læknirinn:* Nei, mig var ekkert að dreyma. En eg var að velta fyrir mér, hvernig eg ætti að fara að, svo sjúklingunum brigði ekki um of við skiftin. Það líklega tekur þá tíma að átta sig, og mér að venjast svona umdæmi. Eina bótin, að þú verður hér eitthvað framvegis, svo héraðsbúar finni hér eitthvað það, sem minnir þá á liðna tíð.

*Hjúkrunarkonan* (brosir. Lagar til á skrifborðinu): Jú víst er eg fullorðin; en þó eg hafi unnið hér síðan eg útskrifaðist, er þessi liðna tíð sem þú talar um, ekki nema þrjú ár. Og ætlist þú til að eg haldi hér við hálfrar aldar andrúmslofti, er eg hrædd um að þú verðir fyrir vonbrigðum.

*Ungi læknirinn:* Nei, eg er aðeins að hugsa um, að þeir, sem áður hafa

leitað hingað, finnist þeir ekki vera komnir í ókunnugt umhverfi.

*Hjúkrunarkonan:* Viltu þá að öllu hagi hér til framvegis eins og nú?

*Ungi læknirinn:* Já. Að svo miklu leyti sem hægt er.

*Hjúkrunarkonan:* Og skírteini gamla læknisins? (Glettin). Ekki býstu þó við að fleyta þér á þeim?

*Ungi læknirinn:* Nei. Eg hengi mín upp í staðinn.

*Hjúkrunarkonan:* Heldur þú að sjúklingarnir líti ekki á það sem einskonar skjalafölsun? Og svo er mottóið þarna. (Bendir).

*Ungi læknirinn* (nálgast mottóið og les): "Eitt lóð af varúð er betra en pund af lækningum". — Gamalt og gott máltæki.

*Hjúkrunarkonan:* Eða spakmæli. Að minsta kosti þykir sóttvörn nú á tímum, engu síður nauðsynleg en lækningar.

*Ungi læknirinn:* Það hefir sjálfsagt hangt þarna í mörg ár. Sjúklingarnir mundu sakna þess.

*Hjúkrunarkonan:* Eg er ekki viss um að gamli læknirinn láti þér það eftir.

*Ungi læknirinn:* Og því ekki? Hér hefir það sína þýðingu fremur en annars staðar. Enda segist hann búinn að vera sem læknir.

*Hjúkrunarkonan:* Honum getur verið það tilfinningamál. Hann kann að vera mannleg vera, ekki síður en læknir.

*Ungi læknirinn:* Eins og við séum það ekki öll. — Eða við hvað áttu?

*Hjúkrunarkonan:* Gamla konan, sem haldið hefir hús fyrir hann öll þessi ár, sagði mér nokkuð um þetta mottó, sem ekki kemur að öllu leyti við læknis-embættinu.

*Ungi læknirinn* (Sest bak við skrifborðið og bendir á hinn stólinn): Og hvað sagði gamla konan?

*Hjúkrunarkonan* (sest): Það var um einhvern Jonna. Varla í frásögur færandi.

*Ungi læknirinn:* Lofaðu mér að dæma um það.

*Hjúkrunarkonan:* Jæja. Það er sagt, að þegar læknirinn var í skóla, hafi hann verið trúlofaður ungri blómarós, hér í bænum; en svo hafi slitnað upp úr því áður en hann útskrifaðist. Henni hefir líklega leiðst biðin, því hún giftist öðrum. Svo varð það eitt af fyrstu embættisverkum hans, að líta eftir þessari fornu ástmey sinni, og hjálpa frumburði hennar í heiminn. Á þeim árum var vanfærum konum yfirleitt lítið sint, þjáðust þær ekki af alvarlegum sjúkdómum. En annaðhvort af fornri ást, eða meðfæddri nákvæmni, vaktaði hann þessa konu eins og sjáaldur auga síns og gaf henni ýms ráð meðan hún gekk með Jonna, sem var strax, nýfæddur, álitinn fyrirmyndar barn, eins og þú líka getur séð á myndunum þarna. (Bendir). Þær eru allar af Jonna.

*Ungi læknirinn:* Og læknirinn setti inntak mottósins í samband við atgervi barnsins.

*Hjúkrunarkonan:* Ekki aðeins það. Læknirinn og móðir Jonna reyndu snemma, að innræta honum varfærni, og einhverntíma varð öðru hvoru þeirra máltækið að orði. Og barnið hafði það orðrétt eftir. Og þó hann hefði ekki minstu hugmynd um þýðingu þess, tók hann trygð við það og hafði það yfir undir öllum mögulegum kringumstæðum.

*Ungi læknirinn:* Já eg skil nú hvernig læknirinn fékk mætur á því.

*Hjúkrunarkonan:* Einhver hefir sagt, að fullorðnir séu aðeins börn, stór vexti. Og allir vita að menn hafa sérstaka nautn af að eiga sameiginleg leyndarmál. Meðlimir leynifélaga standa fastast saman fyrir ýms tákn, seremóníur og inngangsorð, sem ekkert hafa sér til ágætis annað en vera félagslimum sameign, en marklaus þeim sem utan félagsins standa. Og læknirinn stofnaði einskonar leynifélag með sér og Jonna. Hann fór með fyrri hluta mottósins, "eitt lóð af varúð", og kendi svo drengnum að botna með, "er betra en pund af lækningum". Eða Jonni byrjaði, en læknirinn botnaði. Og til að gera leyndardóminn enn dýpri, entu þeir með að segja báðir í senn, "okkar á milli." Og þessi einfalda seremónía reyndist óbrigðult deyfimeðal, nær sem eitthvað gekk að Jonna, og lækningin hefði annars reynst óþægileg, eða valdið sársauka.

*Ungi læknirinn:* En hver og hvar er þessi Jonni nú? (Lítur á ljósmyndirnar). Eg sé hann hefir verið í fyrra stríðinu.

*Hjúkrunarkonan:* Hann týndist á Frakklandi og kom aldrei í leitirnar. Svo dóu foreldrar hans úr spönsku veikinni 1918. Og gamla konan segir, að síðan hafi ekki læknirinn litið glaðan dag.

*Ungi læknirinn* (stendur upp og skoðar myndirnar).

*Hjúkrunarkonan* (stendur upp): Eg held mér sé nær að halda áfram með að taka til í lækningastofunni. (Fer út til hægri).

*Gamli læknirinn* (kemur inn frá vinstri. Sér unga læknirinn niðursokkinn í að skoða myndirnar. Gengur að klæðaskápnum. Þeir bjóða hver öðrum góðan dag. Gengur frá hattinum í skápnum): Mér þykir þú vera árrisull, en svo ertu líka nærri eins ungur, eins og eg var á þínum aldri.

*Ungi læknirinn* (hlær): Nærri því eins ungur, segir þú.

*Gamli læknirinn:* Já. Veistu ekki að heimurinn er eldri nú, en þegar eg var á þínum aldri?

*Ungi læknirinn:* Ekki hafði mér nú dottið það í hug. — Eg var að minnast á það við hjúkrunarkonuna, að mig langaði til að sem minst breyting ætti sér stað hér í stofunni, þó eg taki við, svo sjúklingarnir kannist þó við umhverfið. Það verða þeim nóg vonbrigði að þú ert farinn.

*Gamli læknirinn:* Eg veit ekki. Sumum mun varla mislíka það. Þeir vita sem er, að nýir vendir sópa best.

*Ungi læknirinn:* Þeir verða færri en hinir. Eg er að hugsa um að biðja þig að lofa myndunum að vera þar sem þær eru, svona fyrst um sinn.

*Gamli læknirinn:* Það er velkomið. En eg hefði búist við að þú veldir eitthvað nýstárlegra til að prýða með stofuna.

*Ungi læknirinn:* Eins og það sem nýtt er sé endilega fegurra en hið gamla. (Þögn).

*Gamli læknirinn* (tekur stólinn við borðsendann og færir hann að bakveggnum. Stendur upp á honum og tekur niður skírteinin, sem hann leggur á borðið): Ekki beint fegurra, en ef til vill þýðingarmeira, að minsta kosti fyrir þá sem ungir eru.

*Ungi læknirinn:* Hvernig geta hlutirnir haft misjafna þýðingu fyrir unga og gamla?

*Gamli læknirinn* (Hefir tekið niður mottóið og strýkur af því með vasaklút): Fyrir þá gömlu er hið liðna eini veruleikinn; fyrir hina ungu, hin líðandi stund og jafnvel ókomin tíð. Þeim finst hið gamla aðeins hégómi, sem betur væri sópaður á burt.

*Ungi læknirinn:* Ekki felst eg á það. Eg held yngri kynslóðin sé skynugri en svo, að hún virði fortíðina að vettugi. Slíkt væri heimskulegt. Og hversu ungur sem einn læknir kann að vera, veit hann, að þekking hans byggist á athugun og reynslu fyrirrennara sinna.

*Gamli læknirinn:* En er ekki maður sem útskrifast hefir sem læknir, orðinn gamall — í hugsun ef ekki áratölu? (Tekur ljósmyndirnar).

*Ungi læknirinn:* Enginn skynsamur maður, hvort sem hann er ungur eða gamall, mælir bót fortíðar-dýrkun, lýsi hún sér í þröngsýni og kyrstöðu. En svo eg snúi aftur að efninu, mig langar til að þú lofir myndunum og mottóinu að vera, í bráðina. Eg vildi heldur breyta til um þær smátt og smátt.

*Gamli læknirinn:* Mottóinu? En þetta er aðeins margþvættur málsháttur, sem fleiprað er með hugsunarlaust og ásetningslaust.

*Ungi læknirinn:* Eg held það eigi þó hvergi betur heima en í læknastofu. Í því felst einfaldur sannleikur sem við læknarnir skiljum og breytum eftir fram yfir það sem alment gerist.

*Gamli læknirinn* (brosir raunalega): Á þínum aldri hugsaði eg eins og þú, en nú efast eg um að þetta sé rétt.

*Ungi læknirinn:* Nú jæja. Við skulum ekki fást um það. En hvað um myndirnar og mottóið? Skrítið hvernig smámunir geta leitt til alvarlegra hugsana. En sjáðu nú skelluna þarna á veggnum, þar sem mottóið hékk. Hún væri það fyrsta sem sjúklingarnir rækju augun í, og kæmi kannske til hugar, að fleiri auða og mislita bletti væri að finna hjá nýja lækninum. (Þögn).

*Gamli læknirinn* (skoðar ljósmyndirnar): Sástu flækinginn, sem sefur á bekknum handan við götuna?

*Ungi læknirinn:* Já, eg kom þá leiðina. En ætlarðu að láta mér eftir mottóið og þessar ljósmyndir?

*Gamli læknirinn:* Sástu hvað andlit hans er afskræmt?

*Ungi læknirinn:* Hann hefir að líkindum einhverntíma orðið fyrir slysi.

*Gamli læknirinn:* Hann er í gömlum hermanna búningi.

*Ungi læknirinn:* Hann getur verið einn af þeim, sem komu heim úr fyrra stríðinu, en náðu sér aldrei.

*Gamli læknirinn:* Já, einn af þúsundunum. Hver lagði þeim til lóð af varúð? Ekki gerðum við læknarnir neitt til að koma í veg fyrir alt það böl og eymd, sem af stríðinu hlaust. Og nú er önnur styrjöld skollin á. Nei. Ekki eitt lóð af varúð, en heilar smálestir af lækningum.

*Ungi læknirinn:* Ekki er það í okkar verkahring, að taka fram fyrir hendurnar á valdhöfum þjóðanna.

*Gamli læknirinn* (meðan hann hengir mottóið og raðar ljósmyndunum þar sem þær voru): Líklega ekki. En ekki virðist úr vegi, að læknastéttin hefði eitthvað að segja um þau ákvæði stjórnmálamanna, sem

hrinda miljónum manna, kvenna og barna út í allskonar eymd og volæði. Þegar alt kemur til alls, er ætlast til að við gerum við sárin og útrýmum drepsóttum þeim, sem jafnan fylgja styrjöldum. (Þegir auknablik — tekur hermannsmyndina). Þessi mynd er af ungum vini mínum, sem gerðist sjálfboði í fyrra stríðinu. (Lítur á úrið). Reyndar eru allar þessar ljósmyndir af honum. Og fyrst við höfum nægan tíma, langar mig til að segja þér frá viðtali okkar, áður en hann gekk í herinn.

(Læknarnir setjast, en hverfa um leið áhorfendunum úr sýn. Takist þau fyrirbrigði ekki með hljómlist og myrkri á leiksviðinu, skal nota tjaldið).

*ÖNNUR SÝNING*

Leiksviðið sama, en autt. Öllu hagar eins til í stofunni, nema hermannsmyndin sést ekki.

*Jonni* (berhöfðaður, kemur inn frá vinstri. Lítur um stofuna. Gengur að borðinu, tekur tímaritið og blaðar í því).

*Gamli læknirinn* (kemur frá hægri. Hann er klæddur hvítri lækna-kápu. — Með skrifuð blöð í hendinni. — Andlit hans ljómar þegar hann sér Jonna): Æ sæll og elskaður, Jonni minn.

*Jonni:* Blessaður og sæll, fóstri. (Þeir takast fast í hendur).

*Gamli læknirinn:* Nú skulum við tylla okkur niður, meðan þú leysir onaf skjóðunni. Svo þú ert loksins kominn heim. Hvað tafði þig annars? Við áttum von á þér fyrir löngu.

*Jonni:* Ó maður verður nú að jafna sig eftir að útskrifast úr háskólanum með hæsta vitnisburði og styrk til framhaldsnáms í Oxford.

*Gamli læknirinn:* Já þú hefir gert vel, prýðisvel, en þó ekki fram yfir það sem eg vonaðist eftir.

*Jonni:* Ójæja. En þetta eru nú alt smámunir, eins og nú er komið. Sem stendur gerir það fjári lítið til þó maður sé lítt lærður, hafi maður hraustan skrokk og skörp skilningarvit.

*Gamli læknirinn:* Þú átt við stríðið?

*Jonni:* Hvað annað gæti eg átt við? Um hvað annað getur maður hugsað?

*Gamli læknirinn:* Það er ýmislegt sem stendur þér nær en styrjöld í annari heimsálfu.

*Jonni:* Ekkert, sem mér kemur í hug rétt núna.

*Gamli læknirinn:* Þér hefir þó ekki dottið í hug að ganga í herinn?

*Jonni:* Jú, meir en svo. Eg hefi ákveðið það. Og leit inn til þín til að fá vissu um að eg sé fær til hermensku.

*Gamli læknirinn:* Þú ættir að bíða við og hugsa þig betur um.

*Jonni:* Eg er búinn að hugsa mig um. Svo er heldur ekki eftir neinu að bíða, nema ef vera skyldi ósigri.

*Gamli læknirinn:* Og vita foreldrar þínir um þetta tiltæki þitt?

*Jonni:* Nei. Eg ætla ekki að segja þeim frá því, fyr en eg veit hvort eg er fær. Ef til vill ekki fyr en eg hefi innritast í herinn.

*Gamli læknirinn:* Auðvitað ertu fær, annars mundir þú varla skara fram úr skólabræðrum þínum á leikvellinum. Þú ætlar þó ekki að innritast sem óbrotinn liðsmaður?

*Jonni:* Jú. Annaðhvort það eða ekkert.

*Gamli læknirinn:* Þetta er ekkert nema ungæðisháttur, Jonni minn. — Eins og eg segi, liggur þér ekkert á. Nær sem þörf gerist, verður þú og aðrir kallaðir í herinn af yfirvöldunum. Annars er þér í lófa lagið að komast að liðsforingjastöðu.

*Jonni:* Það er árangurslaust fyrir þig að telja um fyrir mér. Í herinn fer eg, hvað sem hver segir, og bíð ekki eftir að verða skyldaður til þess. Til herkænsku kann eg ekkert, og kæri mig heldur ekki um liðsforingjastöðu. (Þögn). Vitaskuld er búningurinn og sá heiður, sem fylgir honum, ærið freistandi. En svo er mér hitt ljóst, að einn óbrotinn liðsmaður, í tæka tíð, er meira virði en tíu í ótíma. — Eitt lóð af varúð — (þögn). Ertu búinn að gleyma formúlunni, fóstri? — Okkar á milli.

*Gamli læknirinn:* Þetta er alvörumál, Jonni minn. Þú ættir ekki að hugsa það með léttúð. Því þó þú kunnir að meta lítils fjör þitt og framtíð, ættir þú að hugleiða hvernig foreldrar þínir taka þessu. Eða finst þér ekki þú hafa neinar skyldur gagnvart þeim?

*Jonni:* Jú. En ekki í þessu tilfelli aðrar en þær, sem hver heilbrigður maður hefir gagnvart öðrum friðsömum og góðviljuðum mönnum, hvar sem þeir búa á hnettinum. Og þó það sé efamál, hvort eg komi að nokkru liði, er þetta eina leiðin, sem vit mitt og samviska sér, út úr þeim ógöngum sem mannkynið er komið í, fyrir vitleysu og aðgerðaleysi ykkar eldra fólksins.

*Gamli læknirinn:* Ekki veit eg hverja eða hversu marga þú átt við, þegar þú talar um okkur eldra fólkið en eg segi fyrir mig, að eg hata allan ófrið manna á milli, hvað þá blóðugar styrjaldir. Hinsvegar skortir mig, því miður, vald til að afstýra þeim.

*Jonni:* Segjum að eg stæði brennivarga að verki, þar sem þeir bæru eld að húsum, ætti eg að láta slíkt afskiftalaust, af því eg er ekki í slökkviliðinu? Gerði eg það, hefði eg þó betri málstað en þið, læknarnir, því starf ykkar gengur alt út á að verja mennina allskonar eymd og áföllum.

*Gamli læknirinn:* Með öðrum orðum, þó eldri kynslóðin öll eigi sök á styrjöldinni, erum við læknarnir sekastir.

*Jonni:* Því ekki það? Þið þykist sjálfkjörnir til að firra mannskepnuna allskonar böli, og persónulega hefir þú valið þér slagorð þess efnis og hengt það upp á vegg.

*Gamli læknirinn:* En þú getur varla búist við, að læknastéttin hafi höndur í hári þeirra sem ráða lögum og lofum í heiminum.

*Jonni:* Nei, ekki sem stendur; en eg vona að sú tíð komi, að þið sjáið hversu víðtækur verkahringur ykkar er, og gegnið skyldu ykkar. Og hvað því viðvíkur að hafa höndur í hári stjórnmálamanna, eruð þið engir eftirbátar fólksfjandans hans Ibsens.

*Gamli lækirninn* (brosir): Heldurðu eg viti ekki að þú ert að koma mér til að þrefa við þig? Þannig á að slá mig af laginu, svo eg missi sjónar á aðal orsök þessa frumhlaups þíns, sem ekkert er annað en ungæði og ævintýraþrá. En ekkert sem þú segir, vegur á móti vonum mínum og óskum um framtíðar velferð þína.

*Jonni:* Þarna er eldri kynslóðin lifandi komin! Þú hugsar aðeins um mig, talar um fyrir mér, vilt ákveða lífsferil minn, rétt eins og eg væri miðdepill alheimsins og öll tilveran snerist um mig. Og þetta, fyrir þá tilviljun að þér þykir vænt um mig.

*Gamli læknirinn:* Tilviljun?

*Jonni:* Hvað er það annað en tilviljun? Eða heldurðu að eg væri uppáhaldið þitt, hefði eg fæðst og alist upp, til dæmis, í Tókíó eða Timbuktú. Og hvar og hvenær sem eg hefði álpast inn í heiminn, hefði eg þó verið mannvera, eins og eg er nú, hvorki meira né minna. Eind í mannkyns-heildinni, eins og dropi í hafinu eða sandkorn á sjávarströnd. Megna ekkert einn, en mynda þó heildina með öllum hinum, á ekki meiri rétt á sjálfum mér, en hver annar einstaklingur allra miljónanna sem byggja jörðina.

*Gamli læknirinn:* En hvað sem þessari heimspeki þinni líður, máttu reiða þig á, að leiðbeiningar og ráð mín og foreldra þinna munu reynast þér hollari en fljótfærni þín og höfuðórar.

*Jonni:* Þetta getur verið; en lengur treysti eg ekki þeim, sem hafa verið í og með öllu því, sem leitt hefir til ófriðarins. Héðan af verð eg að treysta á mitt eigið vit og vilja.

*Gamli læknirinn:* Já. Eg kannast við sjálfbirgingsskap æskunnar.

*Jonni:* Það eruð þið, eldra fólkið, sem eru sjálfbirgingar. Þið hafið staðið aðgerðalausir meðan leiðtogar þjóðanna bjuggu undir morð miljónanna og eyðilegging verka þeirra. Og enn standið þið hjá, blygðunarlausir, og eigið ekki hærri hugsjón en þá, að koma þeim undan sem ykkur eru kærastir.

*Gamli læknirinn:* Mér er ómögulegt að ásaka mig, eða þá sem mér eru kunnugir, fyrir styrjöld sem hefst í annari heimsálfu.

*Jonni:* Nei. Þú lítur svo á að þetta stríð sé einskonar náttúru fyrirbrigði, eins og til dæmis jarðskjálfti eða fellibylur. Því neita eg algerlega. Það er bein afleiðing af áformum og framkvæmdum tiltölulega fárra manna; og því er skynsamlegt og sanngjarnt, að menn áformi og framkvæmi þannig að til styrjalda geti ekki komið.

*Gamli læknirinn:* En mennirnir eru nú einusinni svona gerðir——

*Jonni:* (grípur fram í): Að þeir njóta best lífsins með því að drepa hver annan? Nei. Það ætlaðir þú ekki að segja, en eitthvað í þá átt — að þeir séu eigingjarnir að náttúrufari og hver vilji skara eld að sinni köku. Eg kannast við þá kenningu. En þeir sem fylgja henni virðast gleyma öllum hinum, sem daglega leggja líf sitt í sölurnar fyrir aðra, oft og einatt án þess að vita nokkur deili á þeim. Er *það* ekki mannlegt eðli? Eða hefir þú barist við insta eðli þitt, þegar þú hefir lagt á þig vökur, þreytu og margskonar óþægindi sem fylgja starfi þínu?

*Gamli læknirinn:* Mennirnir eru ekki allir eins gerðir, Jonni minn.

*Jonni:* Og það held eg þó, nema þeir séu að einhverju leyti vitskertir, eða afvegaleiddir af þeim sem vitskertir eru.

*Gamli læknirinn:* Kannske þú viljir halda því fram, að valdhafar heimsins, séu flestir vitskertir?

*Jonni:* Já, valdi þeir morðum og eyðileggingu. Þeir þjást ýmist af ágirnd, valdafíkn, þjóðardrambi eða ótta af öðrum, sem komið er á stig brjálsemi.

*Gamli læknirinn:* Og við læknarnir ættum náttúrlega, að heimta að fá að skoða þrjótana, og skipa lögreglunni að fara með þá á geðveikra hæli. Nú eru kenningar þínar að verða broslegar, Jonni minn.

*Jonni:* Og þínar grátlegar. Eg skal taka sjálfan mig sem dæmi. Þú hefir annast mig síðan eg var í móðurkviði, varið mig fyrir margskonar kvillum og landfarsóttum, gefið móður minni holl ráð um meðferð á mér, jafnvel sagt fyrir um klæðnað minn og matarhæfi, og ert nú upp með þér af hreysti minni og heilbrigði. Og nú er eg fær! Fær til hvers? Fær til að fara í önnur lönd og drepa eða limlesta meðbræður mína, sem eg á engar sakir við; og má búast við að verða sjálfur limlestur eða drepinn. Og séu hinir svonefndu óvinir mínir upplýstir menn, hafa þeir sama viðhorf og eg. Er nokkurt vit í öðrum eins fjarstæðum?

*Gamli læknirinn:* Vit eða óvit. Ekki ræður þú bót á þessu með því að kasta þér fyrir byssukjaftana.

*Jonni:* Þið kennið að varúð, viðhöfð í tæk tíð, komi oft í veg fyrir veikindi og jafnvel meinsemdir sem annars krefðust skurðlækninga. Í þessu tilfelli hafið þið gjörsamlega brugðist þessari kenningu ykkar, og því liggur ekki annað fyrir en skurðlækning. Hvort hún hepnast verður eins mikið undir ykkur komið, eins og okkur hinum, sem ganga á vígvöllinn. Okkar stríð kemur svo best að notum, að þið breytið eftir kenningu ykkar, en hengið hana ekki upp á vegginn aðeins til prýðis.

*Gamli læknirinn:* Eg sé að engu tauti verður við þig komið fyr en þú hefir ausið þér út. Láttu mig nú heyra, hvernig læknastéttin ætti að haga sér, svo hún slyppi við ákærur þínar. En mundu eftir að verkahringur hennar liggur utan stjórnmálanna.

*Jonni:* Því neita eg fastlega. Eg veit ekki betur en þið hafið nú þegar allmikil völd þegar til heilsufars þjóðarinnar kemur og annars sem að því lýtur. Það þætti aum landstjórn, sem væri án heilbrigðismáladeildar, og sú deild lítils metin, færi hún ekki að ykkar ráðum. Eða eru það ekki aðallega læknar, ásamt verkfræðingum og ýmsum handverksmönnum, sem ráða fyrir um fyrirkomulag og útbúnað á flestu því sem snertir heilsufar almennings, alt frá umbúnaði á salernum og saurrennum til lofthreinsunar og lýsinga himinhárra halla, ekki síður en náma í iðrum jarðar? Og svo voldugir eruð þið, að einn af ykkar minstu stéttarbræðrum getur kyrsett stærsta hafskip heimsins, álíti hann einn einasta farþega haldinn af smitandi veiki. (Þögn).

*Gamli læknirinn.* Haltu áfram. Þú hefir sjálfsagt hugsað þér hvernig heilbrigðismáladeild okkar þjóðar á að afstýra styrjöldum í annari heimsálfu.

*Jonni:* Á líkan hátt og hún ver þjóðina fyrir slysum, gaseitrun og drepsóttum. Fyrst og fremst getur hún heimtað að landstjórnin taki fyrir tilbúning á öllu því, sem að vígbúnaði lýtur.

*Gamli læknirinn:* Og neiti stjórnin að taka það í mál?

*Jonni:* Þá gerið þið læknarnir verkfall. Þið hafið góðar og gildar ástæður til að neita, að hressa upp á sjúkt fólk, þegar stjórnin býr sig undir að láta drepa þá, sem heilbrigðir eru.

*Gamli læknirinn:* Jæja. Gerum ráð fyrir að okkur tækist þetta, sem nær varla nokkurri átt. Hverju værum við bættari með því? Við stæðum uppi varnarlausir fyrir árásum annara þjóða.

*Jonni:* Að minsta kosti munduð þið komast hjá, að telja óskabörnin af að ganga í herinn. (Þögn).

Hvort sem eg lít á velgengni eða eymd mannkynsins, fæ eg ekki bundið hugann við eitt þjóðfélag, hvorki mitt né annað.

*Gamli læknirinn:* Ætlarðu að reyna að telja mér trú um að ættjörð þín sé þér ekki kærari en önnur lönd?

*Jonni:* Land okkar byggja menn af mörgum mismunandi þjóðflokkum, og við að kynnast þeim, hefi eg sannfærst um, að í insta eðli sínu erum við allir hver öðrum líkir. Ef ein þjóð hatast við aðra svo að til orustu kemur, er það fyrir áróður misviturra óhappamanna, sem mæla lífshamingju sína eftir þeim auðæfum og völdum, sem þeir afla sér, hvort heldur það er gert með réttu eða röngu. (Þögn).

*Gamli læknirinn:* Haltu áfram. Eg hlusta.

*Jonni:* Hvorki læknisfræðin né aðrar vísindagreinar er séreign eða sérkenni einnar þjóðar, heldur alls mannkyns. Það sem vísindamenn hafa fyrir satt í einu landi er viðurkendur sannleikur um allan hinn mentaða heim. Hvorki mismunandi stjórnarfar, iðnaður, fjármálastefnur né trúarbrögð raska tilgátum og niðurstöðum allra þeirra þúsunda, sem iðka vísindalegar rannsóknir hvar í veröld sem er. Í hverju landi eiga læknar með sér öflugan félagsskap, en sá félagsskapur verður að komast í samband við önnur félög vísindamanna og menningarfrömuða þjóðfélagsins. Finst þér nú til of mikils ætlast af slíkum mönnum að þeir beittu viti og vilja til að koma í veg fyrir að þjóðin legði út í stríð?

*Gamli læknirinn:* Og leyfði öðrum þjóðum að sparka í sig og troða á sér?

*Jonni:* Skamt sér þú fóstri. Gerðust þau samtök, sem eg hefi bent á, innan vébanda hvers þjóðfélags, væri hugsanlegt að þau sameinuðu sig og mynduðu með sér einn alþjóða félagsskap.

*Gamli læknirinn:* Og hvernig ætti svo þetta alþjóða félag að taka fram fyrir hendurnar á stjórnarvöldum hinna ýmsu þjóða?

*Jonni:* Á sama hátt og hver heilbrigðismáladeild gerir í sínu heimalandi. Hér væri að ræða um heilbrigðismáladeild alls hins mentaða heims.

*Gamli læknirinn:* En nú hefir heilbrigðismáladeild aldrei borið ábyrgð á borgarastríði heima fyrir.

*Jonni:* Nei. En þrátt fyrir það hvílir ábyrgðin á þeim, sem eiga að sjá um vöxt og viðgang og heilsufar borgaranna. Bölvunin er, að þið, læknarnir, sjáið ekki hversu víðtækur verkahringur ykkar er. Þið látið

kjör fólksins afskiftalaus, þó fjöldinn sé oft og einatt hálfsveltur, hálfnakinn og búi í hreysum, sem eru ósamboðin siðaðri þjóð. Alt þetta líðið þið vitandi þó, að slíkt ástand veldur ótölulegum sjúkdóms tilfellum og dauðsföllum, og leiðir að síðustu til byltingar og borgarastríðs. Og þetta í allsnægta landi! Engin stétt í mannfélaginu er sáttari en læknastéttin, við það fyrirkomulag, sem leyfir tiltölulega fáum meðlimum þjóðfélagsins, sem örvita eru af ágirnd og valdafíkn, að raka að sér ágóðanum af viti og striti hinna og koma beinlínis og óbeinlínis í veg fyrir, að alþýðan njóti þeirra auðæfa sem land hennar er svo ríkt af. Með öðrum orðum: Þið eruð ætíð boðnir og búnir að láta úti pund af lækningum, en ekki eitt einasta kvintini af varúð.

*Gamli læknirinn:* Ætlast þú til að læknastéttin umturni þeirri þjóðfélagsskipun sem við búum við, þá er því til að svara, að við höfum hvorki tíma né tækifæri til þeirra hluta. Þar að auki erum við læknarnir, og mér er óhætt að segja aðrir vísindamenn, ólíklegastir allra manna, til að rífa niður það sem reynsla og hyggjuvit mannanna hefir bygt upp, og hafa svo engu að treysta nema loftköstulum þínum og annara angurgapa.

Jonni: Læknisfræðinni eins og öðrum vísindum hefir þó miðað áfram mest fyrir loftkastala byggingar þeirra, sem sjálfsagt hafa verið kallaðir angurgapar á sinni tíð. Á eg að minna þig á nöfn nokkurra?

*Gamli læknirinn:* Jæja, Jonni minn. Eg nenni ekki að jagast við þig. Þér er svo mikið niðri fyrir, að þér léttir líklega ekki fyr en þú hefir helt yfir mig öllum þessum vísdómi þínum.

*Jonni:* Eg benti þér á, að stofna mætti alþjóðafélag með ykkur læknana í broddi fylkingar. Fyrsta verkefni þess væri að rannsaka allar orsakir sem beinlínis og óbeinlínis leiða til styrjalda, og gera skynsamlegar tillögur til breytinga á því ástandi, sem leiðir til stríðs. Svo ættu ályktanir og tillögur ykkar að vera skyldunámsgrein í hverjum skóla um allan heim. Og það ætti ekki að reynast þrekvirki, að sýna ungum og gömlum fram á tilgangsleysi mannlífsins eins lengi og yngri kynslóðin drepur og limlestir sjálfa sig og eyðileggur það sem feður hennar og forfeður bygðu upp. Og þetta kallar þú loftkastala! Bláköld, mannleg skynsemi ætti að mega ganga út frá því, að læknar og aðrir vísindamenn neiti að vinna að miljóna morðum og annari eyðilegging, sem stríð hafa í för með sér, og að listamenn og verkfræðingar álíti markmið sín öllu fremur gleði og velmegun mannkynsins, en þjáningar og niðurdrep þess. (Þögn).

*Gamli læknirinn:* Ertu búinn?

*Jonni:* Enn skilja alt of fáir, að það er núverandi stjórnarfar og fyrirkomulag á hagsmunum einstaklinga og þjóða, sem orsök er að þessu stríði. Þann sannleik verður alþýðan að læra að skilja og viðurkenna áður en von er um frið. (Þögn).

*Gamli læknirinn:* Það liggur talsvert verkefni fyrir þessu alþjóða félagi þínu. Svo mikið, að eg sé ekki út úr því, og það þó eg hætti alveg við lækningar.

*Jonni:* Yfirleitt er engin staða í mannfélaginu eins vandasöm eins og þeirra, sem fara með völdin. Þó hafa

fæstir þeirra meiri siðferðislegan rétt til að ráðslaga örlögum fjöldans, en eg hefði til að stunda lækningar. Hvernig komast þessir menn til valda? Ekki hafa þeir notið sérmentunar í sögu, hagfræði, félagsfræði né öðrum greinum, sem lúta að stjórnmálum. Að minsta kosti er þess ekki krafist af þeim. Nei. Í stað sérmentunar og viðurkendra mannkosta, ráða efnahagur, kænska og kjaftavit hvort þeir komast í valdasessinn. Að eg tali nú ekki um hina, sem taka völdin að erfðum, þó þeir kunni að vera bófar eða bjánar eða hvort tveggja. Það mætti ekki minna vera, en heimtað væri skírteini af þessum náungum, þess efnis að þeir væru ósnertir af ágirnd og valdafíkn. Því menn sem hafa það markmið í lífinu, að hrúga saman fé, sem þeir geta aldrei notið, eða ráða örlögum annara án þess, að bera velferð þeirra fyrir brjósti, eiga fremur heima á geðveikrahælum, en í þingsölum. (Þögn).

*Gamli læknirinn:* Mikið dreymir þig, Jonni minn.

*Jonni:* Fleiri en mig hefir dreymt um alheims frið. Sumir hafa jafnvel hlotið friðar-verðlaun Nóbels fyrir draumóra sína. Ekki hafið þið læknarnir orðið fyrir þeirri sæmd. — Þið, sem þykist útvaldir til að stemma stigu fyrir eymd og böli mannkynsins, hafið aldrei hrært hönd né tungu til að firra það mestu hörmungum þess — styrjöldunum. Nóg að þið eignið ykkur slagorð og hengið það upp á vegginn. (Þögn).

*Gamli læknirinn:* En nú duga ekki einu sinni draumórar og bollaleggingar.

*Jonni:* Nei. Við, sem færir erum, verðum að fara — í þetta sinn.

*Gamli læknirinn:* Ekki allir. — Margir verða að vera heima.

*Jonni:* Já, eldri kynslóðin. En þó við hinir yngri sitjum að krásinni, spái eg að þið sem eldri eruð, hljótið meir en reykinn af réttunum.

*Gamli læknirinn:* Eg á bágt með að sjá samræmi í friðar-prédikun þinni og ákvörðun að ganga í herinn, án þess að hafa nokkra vissu fyrir, að þú verðir þar að meira liði en þó þú værir heima.

*Jonni:* Eg einn verð að dæma um það. Komi eg til baka heill á húfi, getur skeð að eg beiti mér fyrir friðarmálum framtíðarinnar; verði eg drepinn eða limlestur, kant þú að vakna til meðvitundar um, að styrjaldir eru engu síður hættulegar en landfarsóttir og annað því um líkt, og að mottóið okkar hafi víðtækari merkingu en þú hyggur nú. Ef til vill á þetta gamla leikfang okkar mestan þátt í, að eg geng í herinn. Finn þig seinna. (Fer út til vinstri).

### *ÞRIÐJA SÝNING*

Hefst þar sem fyrstu sýningu lauk. Breytingin gerist með sömu gerningum og fyr.

*Gamli læknirinn:* Sama daginn innritaðist Jonni í fótgönguliðið.

*Ungi læknirinn:* Hann hefir verið einkennilegur maður.

*Gamli læknirinn:* Aldrei fanst okkur það, meðan hann umgekst okkur. Og bréf hans frá vígstöðvunum voru blátt áfram. Hann skrifaði oft og það síðasta kom eftir að foreldrar hans meðtóku hraðskeytið sem tilkynti þeim að hann væri týndur.

*Ungi læknirinn:* Og hann kom aldrei til skila?

*Gamli læknirinn:* Aldrei. (Situr hugsi. Þögn).

*Ungi læknirinn* (stendur upp): Jæja. Ekki dugar þetta. Bráðum ber sjúklinga að. (Fer út til hægri).

*Flækingurinn* (kemur inn frá vinstri): Góðan daginn læknir.

*Gamli læknirinn* (lítur upp. — Dræmt): Góðan morgun. (Stendur upp). Eg skal kalla á læknirinn.

*Flækingurinn* (bandar hendinni og sest): Nei, bíddu við. Þú ert minn læknir. Eg frétti að í dag væri síðasta tækifærið að finna þig hér.

*Gamli læknirinn* (hikar, sest, athugar flækinginn): Það er ekki lengur í mínum verkahring, að sinna hér sjúklingum.

*Flækingurinn:* Eg heyri svo sagt. En það tekur þig aðeins nokkur augnablik að líta á mig.

*Gamli læknirinn* (tekur eyðublað upp úr borðskúffunni og penna á borðinu): Nafn og aldur? (Þögn). Má eg fá að vita hvað þú heitir og hvað gamall þú ert? — Og heimilisfang?

*Flækingurinn:* Svo þú þekkir mig ekki!

*Gamli læknirinn:* Eg er hræddur um ekki.

*Flækingurinn* (hristir höfuðið): Þá getur þú varla talist góður borgari.

*Gamli læknirinn:* Við skulum ekki fást um það. Segðu mér bara hvað þú heitir.

*Flækingurinn:* Eigir þú við skírnar- og ættarnöfn, er eg fyrir löngu hafinn yfir þann hégóma.

*Gamli læknirinn* (hikandi): En hvar áttu þá heima?

*Flækingurinn:* Hvar sem er á allri jarðar kringlunni.

*Gamli læknirinn:* Með öðrum orðum, þú ert flakkari.

*Flækingurinn:* Eins og þér sýnist um það. Eg á heima í öllum löndum siðmenningarinnar.

*Gamli læknirinn:* Hefir þú nokkuð sérstakt fyrir stafni?

*Flækingurinn:* Já, heldur það.

*Gamli læknirinn:* Og hvaða atvinnu stundar þú?

*Flækingurinn:* Frægð.

*Gamli læknirinn:* Frægð?

*Flækingurinn:* Heimsfrægð.

*Gamli læknirinn:* Og á hverju byggist sú frægð?

*Flækingurinn* (klórar sér í höfðinu): Ja, eg man það nú ekki í svipinn; en allar stórþjóðir efla hetjuskap og ættjarðarást borgara sinna með því að minnast mín og halda frægð minni á lofti.

*Gamli læknirinn* (ráðalaus): Má eg líta á skrásetningarskírteini þitt?

*Flækingurinn:* Eg hefi ekkert þesskonar á mér. Þesskonar plögg eru mér ónýt og óþörf.

*Gamli læknirinn:* Varstu ekki skrásettur í fyrra sumar?

*Flækingurinn:* Nei, svo lágt legst eg ekki, að eg sinni slíkri heimsku.

*Gamli læknirinn:* Lögreglan er kannske á annari skoðun.

*Flækingurinn* (hlær ámátlega): Eins og mig varði nokkuð um skoðanir lögreglunnar. Eg er fyrir löngu vaxinn yfir öll lög. Eg er æðri öllum stjórnarvöldum.

*Gamli læknirinn:* Svo þú vilt ekki að eg fái nokkur deili á þér.

*Flækingurinn* (hristir höfuðið): Æ, fyrirgefðu. Eg gleymdi fáfræði þinni, að þú þekkir ekki mesta mann heimsins — *hinn ókunna hermann.*

*Gamli læknirinn:* Hinn ókunna hermann!

*Flækingurinn:* Já. Eg er hann. Mesti maður í heimi. Dáður í ræðu og riti í öllum löndum heimsins. Hvarvetna hafa mér verið reist hin veglegustu minnismerki, og næst guði almáttugum, er eg lofaður og vegsamaður jafnt af háum sem lágum. Þegar þjóðhöfðingjar og æðstu prestar hafa sem mest við, flytja þeir mér hátíðlegar lofræður og kostbæra blómsveiga. Og svo segist þú ekki þekkja mig, — hinn ókunna hermann. (Þögn).

*Gamli læknirinn:* Eg er hræddur um að það sé ekki á mínu valdi að hjálpa þér.

*Flækingurinn:* Hver sagði að eg væri hjálparþurfi?

*Gamli læknirinn:* Nú til hvers leitaðir þú til mín?

*Flækingurinn:* Eg vildi að þú litir svona á mig, segjum til að fullvissa mig um, að eg sé fær — fær til að taka öllu því lofi og öllum þeim heiðri sem hlaðið er á mig. Eins og þú veist, þarf sterk bein til að þola góða daga.

*Gamli læknirinn* (stendur upp): Eg er að fara heim. Hvernig væri að þú kæmir með mér, svo við gætum rabbað saman í næði? (Stendur upp og sækir hattinn sinn).

*Flækingurinn:* Eg þakka boðið, en eins og þú getur skilið, hefi eg í mörg horn að líta. (Stendur upp og starir á mottóið. Ungi læknirinn og hjúkrunarkonan koma inn frá hægri. Þau staldra við og horfa ýmist á flækinginn eða gamla læknirinn. — Ungi læknirinn heldur á skírteinum sínum. Gamli læknirinn tekur skírteini sín af borðinu og gengur til dyra vinstra megin. Heldur hurðinni opinni og starir á flækinginn).

*Flækingurinn* (haltrast fram gólfið eftir gamla lækninum. Við sjálfan sig): Eitt lóð af varúð, betra en pund af lækningum. (Endurtekur þetta *ad lib* þar til hann er kominn að dyrunum, þá lítur hann upp á gamla læknirinn): Okkar á milli.

Skírteini unga læknisins falla á gólfið.

Gamli læknirinn og flækingurinn fara.

*TJALDIÐ*

# Við lát gamals landnámsmanns

Eftir Ragnar Stefánsson

---

Nú rofnar sú fylking þess landnema-liðs
sem leitaði vestur um höf,
sem fórnaði öldum og óbornum lýð
sinni einustu' og dýrustu gjöf —
sem sigraði í eldraun og sárustu neyð
þó það sjálft hlyti nafnlausa gröf.

Það fennir í blóðdrefjuð frumherjans spor
í framsækni batnandi hags,
og sagnirnar fyrnast um bjargþrota bú
til brauðfæðslu næsta dags —
um málagjöld hans, sem var margþáttað strit
frá morgni til sólarlags.

En flest af þeim hetjum, sem háðu það stríð,
hafa hlotið hinn síðasta blund,
við frumskóga breiða, sem biðu' eftir þeim
og breytt var í akur og grund —
og orkan, sem stjórnaði þrekvirkjum þeim,
var hin þróttmikla norræna lund.

Þeir töluðu fátt, en þeir framkvæmdu alt
það, sem frelsið og landskyldan bauð.
En mannvit var hærra á metum hjá þeim
en markið að léttfengnum auð —
svo stundum varð erfiðisarðurinn smár
upp í ellinnar framfærslu-brauð.

---

Það kennir í öreigans aðstöðu þrátt
hins úrsvala næðings og kuls.
Þó samtíðar-öldin sé óskygn á flest
sem ekki varð metið til gulls —
þá finst henni, að líkindum, legkaupið greitt
og landskuldin borguð til fulls.



# Tveir merkismenn

Eftir Dr. Stefán Einarsson



Guðmundur Finnbogason



Guðmundur Friðjónsson

I.

Árið, sem nú er að líða, hefir höggvið stórt skarð í fylkingar mentamanna heima á Íslandi. Tvö skáld í blóma lífsins hafa fallið fyrir aldur fram: ljóðskáldið Jón Magnússon og tónskáldið Emil Thoroddsen. Enginn fær giskað á hvílíkur skaði er að dauða þessara manna, þeir virtust eiga langa og merka starfsbraut framundan, ef lifað hefðu.

Hinsvegar væri það vanþakklæti við forsjónina að segja að þeir nafnarnir Guðmundur Friðjónsson og Guðmundur Finnbogason hafi hnigið fyrir aldur fram. Þeir voru báðir komnir á áttræðis aldur og lifðu því undir boðinu: ungur má, en gamall skal. Þrátt fyrir það verður þögnin eftir þessa menn tilfinnanlegri en eftir ýmsa aðra gengna, af því að þeir hafa báðir í nærfelt hálfa öld verið raddháir forsöngvarar í bókmentakór Íslands.

Kannske væri réttara að segja að Guðmundur Finnbogason hafi verið forsöngvari, en nafni hans óþreytandi einsöngvari. Því þótt ekki væri vegna annars en ritstjórnar Skírnis og forsetastarfs í Bókmentafélaginu, þá hefir Guðmundur Finnbogason verið hinn merkasti leiðtogi í íslenskum andans heimi.

Hinsvegar hefir rödd Sendlings-

ins, eins og Guðmundur Friðjónsson kallaði sig oft í gamni og alvöru, verið svo hvell og sérróma, að fáir eða engir hafa komist undir lag með honum, og einmitt þessvegna saknar maður hennar kannske ennþá meir.

Þegar eg var unglingur, voru báðir þessir menn komnir fram á ritvöllinn og létu hið vígamannlegasta. Þótt þeir væru ólíkir, man eg eftir því, að mér hætti við að blanda þeim saman. Þessir nafnar skrifuðu meira en aðrir menn; blöðin voru full af greinum eftir þá, og það háværum pistlum á stundum. Báðir voru þeir Þingeyingar, og báðir munu þeir hafa verið Valtýingar; en það voru ekki meðmæli með þeim í heimastjórnarsveit þeirri, sem eg ólst upp í. Og inst inni voru þessir nafnar innilega sammála í þjóðrækni sinni og ást á íslenskum arfi, í tungunni, í bókmentunum og í eðli sveitafólksins. Það var því ekki að ófyrirsynju, að Guðmundur Finnbogason skrifaði fyrstur manna um nafna sinn af ágætum skilningi, þar sem aðrir mentamenn höfðu þá mest haft nafn hans í skimpi og flimtingi.

Samt var margt, sem skildi þá, ekki síst á yngri árum. Guðmundur Friðjónsson var lítt skólagenginn maður, og eftir að hann hafði fest ráð sitt í hinni virðulegu stöðu bóndans, skaut hann oftast ómildum hornaugum til þeirra manna, er hann kallaði "hlaupaklaufir á mentaveginum". — Þótti þessum sjálfmentaða manni lítið varið í skóla og lærða menn yfir höfuð. Hér á móti var Guðmundur Finnbogason háskólagenginn doktor og víðmentaðri og víðsýnni en margir hans jafnaldrar og svo mikill skólamaður, að hann gerðist frumkvöðull að skólakerfi því hinu nýja, er tók börnin skyldutaki, er þau voru sjö ára, og slepti ekki af þeim hendinni fyr en þau voru útlærðir stúdentar.

Alt þetta var Guðmundi Friðjónssyni auðvitað mikill þyrnir í augum, og yfirleitt var hann, frá því að hann tók að skrifa fyrir alvöru, allmikill íhaldsmaður á flestum sviðum, nema að því er snerti kirkju og klerka, því, eins og fleiri Þingeyingar á þeim árum, hélt hann lítið upp á þá stétt og stofnun.

Guðmundur Finnbogason var aftur á móti framfaramaður hinn mesti, eins og hans var von og vísa, vegna hinnar ódræpu bjartsýni, er entist honum fram til dauðadags.

Síðar meir — á þriðja tug aldarinnar — áttu þeir nafnar meiri samleið, því þá logaði upp í báðum ástin til ættjarðarinnar og hinna fornu leifða. Báðir leituðu aftur í blámóðu aldanna, báðir voru fengsælir á þeim vettvangi. Og síðasta áratuginn, sem þeir lifðu, snerust þeir líka báðir öndverðir gegn hinum nýju stefnum, sem risu í rótlausum bæjunum, stefnum verkamanna og hinna vinstri manna, er áttu sína fremstu formælendur í mönnum eins og Þorbergi Þórðarsyni og H. K. Laxness.

Það var ekki laust við að þessi yngsta kynslóð sakaði Guðmund Finnbogason um stofulærdóm, en nafna hans á Sandi um sótsvart íhald og elliglöp.

Sannleikurinn er nú sá, að leitun mun hafa verið á mönnum, sem betur báru háan aldur en þeir nafnar. Guðmundur Finnbogason var síhraustur og síungur, þar til hjartað bilaði. — Guðmundur Friðjónsson átti ekki

altaf slíkri hrossheilsu að fagna; síðustu árin förlaðist honum sýn og heilsan bilaði, ekki ósennilega vegna margra áratuga strits bóndans í viðbót við andlegu vinnuna. Svo mikið er víst að hann andaðist eftir langa legu á sjúkrahúsinu á Húsavík.

Það væri því ekki að undra, þótt ellimörk sæist á síðustu verkum Guðmundar Friðjónssonar. Eg hygg raunar að það verði varla sagt, þótt hitt megi vera, að hann hafi ekkert ritað eins gott síðustu árin, eins og hann ritaði best áður. Mér líst svo á síðasta sagnakver hans: *Úti á víðavangi; frásagnir um dýr,* (Reykjavík 1938), en eg hef ekki séð síðustu ljóðabók hans: *Utan af víðavangi; kvæði,* (Reykjavík 1942).

Aftur á móti átti hann margar greinar í blöðum og tímaritum fram á síðustu ár, sem í engu virðast standa að baki því er hann hafði áður ritað af sama tæi.

II.

Guðmundur Friðjónsson andaðist á sjúkrahúsinu á Húsavík 24. júní 1944 eftir langa og erfiða legu. Hafði hann verið veikur síðustu tvö eða jafnvel þrjú árin. Mun hann hafa haft krabbamein.

Útför hans var ger mjög virðuleg. Fór hún fram bæði að Húsavík og að heimili hans Sandi, en hann var grafinn að Neskirkju í Aðaldal. Átta synir hans báru kistuna til grafar. Einn sonur hans, Valtýr orti kvæði, er kirkjukórinn söng við jarðarförina, annar þeirra, Þóroddur, flutti kveðju frá konu og börnum.

Guðmundur kvæntist árið 1899 Guðrúnu Oddsdóttur, bróður- og fósturdóttur Baldvins Sigurðssonar í Garði, Aðaldal. Börn þeirra eru: Bjartmar, hreppstjóri á Sandi; Þorgnýr, kennari í Aðaldal; Þóroddur, kennari á Eiðum; Völundur, gáfaður piltur, dáinn 1930; Baldur, bóndi á Sandi; Heiðrekur, verslunarmaður á Akureyri; Valtýr, heima á Sandi; Snær, dó á fyrsta ári; Hermóður, bóndi á Nesi, Aðaldal; Sigurbjörg, gift kona á Sandi; Solveig og Friðjón, bæði heima á Sandi.

Það er auðséð, að Guðmundur hefir eigi aðeins verið "auðugur að verkum vel", heldur hefir hann og verið "af sonum sæll." Til hvors tveggja hefir hann notið þess að hann var kvæntur vel.

Karl Kristjánsson oddviti á Húsavík tilfærði í ræðu, er hann hélt við útför Guðmundar, kvæði eftir skáldið, er hann kallar "Niðurstöðu" ævi sinnar. Það hljóðar svo:

Fór eg í heiði, fékk eg eina tínu.
Fór eg á engi, sló eg meðal brýnu.
Út reri eg og einn eg fékk í hlut.
Upp dreg eg bát í naust með léttan skut.

Stiltu þig, son minn, stillið grátinn dætur,
strengharpa mín þótt laskist. —
Góðar nætur.
Norræna lifir enn, þó undan beri
útskagamann, sem langan barning reri.

Það eru engin elliglöp á þessari kveðju.

Láts Guðmundar var að sjálfsögðu getið í öllum blöðum. Bestar fréttir af útförinni, 6. júlí 1944, eru í *Morgunblaðinu* 7. júlí. Ræða Karls Kristjánssonar er í *Tímanum* 25. júlí.

Bestu greinar um Guðmund skrifuðu við þetta tækifæri G. G. Hagalín í *Alþýðublaðinu* 6. júlí: "Við útför

skáldsins á Sandi", og Guðbrandur prófessor Jónsson í *Vísi* 8. júlí: "Skáldið Guðmundur Friðjónsson á Sandi".

III.

Guðmundur Finnbogason varð bráðkvaddur á Sauðárkróki mánudaginn 17. júlí 1944.

Hann hafði farið með Guðmundi Samúelssyni, húsameistara, norður í land í fyrirlestraför, og var staddur á Sauðárkróki hjá kunningjafólki sínu þar. Var hann glaðvær að vanda og ræðinn, og kendi sér einskis meins, þar til alt í einu að hann leið út af og var þegar örendur.

Útför hans var haldin í Reykjavík 18. júlí með sæmilegri viðhöfn. Guðmundur lét eftir sig ekkju, Laufeyju Vilhjálmsdóttur, merka konu, og fjögur börn uppkomin: Guðrúnu, Vilhjálm verkfræðing, Örn og Finnboga, sem báðir eru í Mentaskólanum í Reykjavík.

Frásögn um útförina er í *Alþýðublaðinu* 25. júlí 1944, en bestu minningargreinarnar skrifuðu þeir Valtýr Stefánsson í *Morgunblaðinu* 23. júlí, *Árni Jónsson* (frá Múla?) 24. júlí og G. G. Hagalín í *Alþýðublaðinu* 28. júlí.

Rétt áður en eg frétti lát Guðmundar barst mér bréf frá honum skrifað mánuði áður en hann dó. Í bréfi þessu segir Guðmundur óafvitandi lokaþátt sögu sinnar; datt mér því í hug að senda ekkju hans orð, og biðja hana leyfis að birta það hér í *Tímaritinu*. Leyfið var ljúfmannlega veitt, og hér er bréfið:

Reykjavík, 15. júní 1944

Kæri vinur!

Kunningi minn einn lánaði mér í gær síðasta árgang *Tímarits Þjóðræknisfélagsins,* sem annars er ekki enn komið til okkar áskrifenda hér heima. Þar las eg hina elskulegu grein þína um mig, og vil eg ekki draga það, að þakka þér innilega fyrir hana og alla vinsemd, sem þú hefir sýnt mér og mínu starfi. Eg lít nú naumast eins stórt á það og þú gerir, því að mér finst eg hafa afkastað litlu af því, sem eg vildi gert hafa, og sérstaklega ekki verið maður til að hrinda svo sem neinu af tillögum mínum í framkvæmd, þeim, sem eg hefi átt til annara að sækja um fylgi. Þó er eg sáttur við lífið og þakklátur fyrir það, að eg hefi fengið að lifa nokkurn veginn samkvæmt eðli mínu, og veit ekki til að eg eigi nokkra verulega óvini, sem mér ekki stendur á sama um. Rétt getur þú til um það, að mér fanst eg vera að byrja nýtt líf, er eg fékk lausn í náð frá embættisstörfum og fékk að eiga allan minn tíma sjálfur, og ætlaði eg þá að verja þeim stundum, er eg ætti eftir, til þess að skrifa um það, sem mér væri sjálfum hugleiknast, og helst um heimspekileg efni, og þess vegna hefi eg verið að losa mig við öll aukastörf árið, sem leið: Bókmentafélagið, Skírni, Mentamálaráð, Þjóðvinafélagið, o. s. frv. Eg varð líka að ljúka við kaflann í Alþingissögunni um Alþingi og Mentamálin — mitt leiðinlegasta ritverk! Svo hélt eg einn háskólafyrirlestur um "Tímann og eilífðina", og skrifaði alllanga ritgerð um skáldskap Einars Benediktssonar, sem á að koma framan við heildarútgáfu af kvæðum hans.

Mundi eg gleðjast, ef hún gerði mönnum auðveldara að skilja heimsskoðun og lífsskoðun þess mikla manns. Svo þýddi eg dálitla bók: "Vísindin og andinn", sem eg sendi þér hér með. Eg kenni mér einskis meins — *nema* hjartað er eitthvað farið að hægja á sér, segja læknarnir, svo að eg verð að fara að ganga hæg-ara en áður. Hve lengi það endist, má guð vita, en eg vona, að eg fari rólegur, þegar það hættir að slá. —

Nú fer þjóðhátíð í hönd: "Hefji guð í gæfu gott stand það land!"

Eg vona, að eg fái að sjá þig hér heima sem fyrst.

Með bestu kveðjum og óskum alls góðs.

Þinn einlægur,
*Guðm. Finnbogason*

Við þetta bréf er engu að bæta.

# Einbúinn

**Eftir Jón Jónatansson**

Við þessa gömlu götu
minn gamli vinur bjó
um áratugi, aleinn
og einstæðingur dó.

Í frama-fyrirmensku
og fyrirmyndar brag,
hér stóð hans einka óðal;
— svo eyðilegt í dag. —

Eg horfi heim á staðinn
þar hljótt er alt í dag,
eg sé á bygð og býli
er breytt um svip og lag.

Eg sé úr röð og reglu
á rúi' er stórt og smátt
öll girðing höll og hrörleg
og hliðið upp á gátt.

Um skúrinn berar skellur
sem skíni' í vindnædd bein,
í skotum hangir skúmið
og skrælnuð viðargrein.

Og blómið hallar höfði
í hnipri, fölt og stirt;
í tún er komin tyrming
og taðan ekki hirt.

★

Þú söngst þar sólskins daga
á sorgarhiminn þinn
í hljómum ljóðs og laga
barst ljós í sál þér inn.

Og friðarbikar bergðir
úr bernsku þinnar hönd
og namst þér æsku-óðul
og andans blóma-lönd.

Þú einverunni undir,
því auðnan skautum brá
á öfugt borð við báru
og byr á ævi-sjá.

En aldrei einn þó varstu,
— við alla hreinn og jafn —
þú lékst og lifðir glaður
við ljóssins myndasafn.

Mig grípa gamlar stundir:
— þá geng eg framhjá hljótt —
er sátum einir saman
og sungum fram á nótt.

Eg man á kyrrum kvöldum,
sem kváðu um frið og sátt,
sig hófu orgels-hljómar
í haustloft tært og blátt.

Í kvöld eg hljóður hlusta
í hússins rökkur inn,
nú ómar engin nóta
um opinn gluggan þinn.



# Glæsisvallahirðin

**Leikur í einum þætti.**

**Eftir Guttorm J. Guttormsson**

---

*PERSÓNUR:*

*Útvörðurinn*
*Spekingurinn*
*Goðmundur*
*Vinir hans og vildarmenn*
*Rauður ráðgjafi hans*
*Stríðsmenn*
*Varðmenn*
*Yfirforingi*
*Þjónar*
*Síðhöttur*
*Sauðsvartir almúgamenn*

★

Hallarsalur. Veggirnir eru tjaldaðir reflum, fánum og skjaldarmerkjum. Framarlega til hægri handar er lágt hásæti eða öndvegi, í því situr Goðmundur — heldur á veldissprota, að útliti ekki ólíkur spilakong. Á veggnum til vinstri er opinn gluggi, eða vindauga, þar situr útvörðurinn, lítt klæddur, gamall, sköllóttur, skininn og horaður, nærri gagnsær, sýnist stirnaður upp og kreptur af kyrsetum, hefir sjónauka áfastan höfðinu, lítur ekki til hægri né vinstri horfir stöðugt út um gluggann, hreyfist ekki. Í baksýn eru dyr sem sjást mjög óglögt fyrir hóp af dökkklæddum almúgamönnum sem standa alt af í sömu sporum, nema þegar þeir þurfa að víkja úr vegi fyrir einhverjum æðri, lifandi eða dauðum. Hirðmenn, líkir spilagosum, vinir og vildarmenn Goðmundar, í litklæðum, tveir stríðsmenn, annar handleggjalaus, hinn fótalaus, standa honum til beggja handa. Fyrir framan hásætið eru, ýmist kyrrir eða á reiki: Rauður ráðgjafi, í gosabúningi, Spekingurinn, í sauðsvörtum almúgafötum, nokkrir þjónar, tveir varðmenn, í röndóttum einkennisbúningi, en vopnlausir.

*Goðmundur:* Við erum eina þjóðin í heiminum, sem nokkurn siðferðislegan rétt hefir að vera til. Við erum eina þjóðin sem á ætt sína að rekja til guðanna. Uppruni okkar er dýrlegur! Fyrir okkar uppruna og ágæta þjóðararf erum við yfirburða þjóð — ofurmenni. Til þess að þið gengjuð úr öllum skugga, hver ætt okkar er og uppruni, hef eg kvatt þennan erlenda, óháða vísindamann til að staðfesta framburð minn. Áður en við drekkum skál ríkisins kveð eg þig, erlendi spekingur, til að gefa úrskurð þinn.

*Spekingurinn* (stígur fram fyrir hásætið): Eg hefi rannsakað mál þetta rækilega og varið til þess löngum tíma, grandskoðað ættfræði allra þjóða og loks komist að þeirri óyggjandi niðurstöðu, að þið eruð eina þjóðin í víðri veröld sem komin er af öpum. (Stutt þögn. Allir standa sem steini lostnir).

*Goðmundur* (æstur): Leiðið hann út og hálshöggvið hann. (Varðmennirnir taka Spekinginn og leiða hann út á milli sín). Öllum öðrum þjóðum ber þess vegna að lúta okkar þjóð.

Öllum öðrum þjóðum ber þess vegna að fórna sér og öllu sínu til vaxtar og viðgangs okkar þjóð. Fyrir minn atbeina hefir hún orðið voldugasta þjóð í heimi.

*Fyrsti hirðmaður:* Þó er ríki þitt voldugra en þjóðin.

*Annar hirðmaður:* Já það er sitthvað þjóð og ríki.

*Goðmundur:* Eg er ríkið, þið eruð þjóðin. Þjóðin er bara menn.

*Fyrsti hirðmaður:* Hvernig fór ríkið að verða svona voldugt?

*Annar hirðmaður:* Mennirnir skapa sína guði.

*Goðmundur* (byrstur): Ha!

*Annar hirðmaður:* Alla aðra en þig; þú hefir skapað sjálfan þig.

*Goðmundur* (sefaður): Þú hefir rétt að mæla.

*Einn af vinunum:* Sumir verða miklir af meðhaldi fólksins og engu öðru; aðrir miklir af mótþróa þess, þeir eru afarmenni, hinir fyrrtöldu ekki. Fólk, sem er komið í öngþveiti, orðið höfuðlaus her, fer að líta sér eftir leiðtoga. Það velur af handa hófi mann sem virðist ekkert hafa sér til ágætis og hefir aldrei ætlað sér að verða neitt. Fólkið hleður undir hann, leiðir sinn leiðtoga í von um að hann verði fær um að leiða það. Hann gengst upp við þetta og fer að telja sér trú um að hann sé meiri en hann er sjálfur. Hann vex því meir sem til meira er ætlast af honum, gerist hlaðinn af tiltrú fólksins, verður alt af meiri og meiri, uns hann, sem var ekkert, er vaxinn því yfir höfuð.

*Goðmundur* (skipandi): Setjið þennan vin minn í gæsluvarðhald, geymið hann þar meðan eg er að átta mig á þessu sem hann sagði. (Varðmennirnir leiða hann burt). Ef eg hefði ekki aðhafst neitt, væri eg ekki neitt. Með afrekstverkum mínum hef eg skapað sjálfan mig, orðið voldugastur meðal herkonunga. Eg lít svo á að alt, sem miðar til vaxtar og viðgangs ríkisins — mín sjálfs — sé réttlæti, jafnvel þó það komi í bága við réttlætistilfinninguna. Eg hefi stokkið á margar varnarlausar þjóðir undir því yfirskini að eg væri að vernda þær gegn öðrum herkongum. Mér hefir auðnast að láta greipar sópa um fjárhirslur ýmsra þjóða gegn því loforði mínu að vernda þær, hvenær sem á þær yrði ráðist. Þjóðir, sem ekki vildu þiggja vernd mína, hef eg brytjað niður. Þegar eg komst ekki til að eyða þeim sjálfur, flýtti eg stundum fyrir mér með því að selja þeim vopn í hendur, etja þeim saman og láta þær eyða hvora annari. Jafnóðum og herfangið varð laust, hirti eg það og hafði heim með mér.

*Fyrsti varðmaður* (áhyggjufullur): Þá er ekki að furða þó fækkað hafi um vopnin hér heima fyrir.

*Útvörðurinn* (eins og röddin hljómi úr fjarlægð): Getur ekki einhver háski stafað af þessum ókunnu skipum sem liggja hér fyrir landi?

*Goðmundur:* Mér veitti einna örðugast að koma vopnum út í eyjarskeggja nokkra, sem eg vildi að vernduðu auðlindir eyjar sinnar, svo eg síðar gæti ausið úr þeim sjálfur. Fólk á ey þessari var á afar lágu siðferðis- og menningarstigi, hafði aldrei borið vopn, aldrei drepið mann, aldrei séð mannsblóð. Það afsagði með öllu að beita vopnum; mér tókst samt að gera menn úr því.

*Fótalaus stríðsmaður:* Þér hefir tekist að gera fáa menn úr öllum fjöldanum.

*Goðmundur:* Eg hjó af nokkrum þeirra hausinn, þá sáu þeir að vopn var einmitt það sem þeir þurftu að hafa sjálfir.

*Stríðsmaður handleggjalaus:* Svo hefir þú látið þá verja þig fyrir öðrum herkongum, meðan þú varst að ausa úr auðlindum þeirra.

*Goðmundur:* Já. Hingað er alt herfangið komið — gull og gersemur — og búið að grafa það í jörð. Þess vegna er ríki okkar svona voldugt.

*Útvörðurinn* (röddin eins og áður): Nú hafa þeir á skipunum látið út marga smábáta.

*Fyrsti vildarmaður:* Stoltir megum við vera og hróðugir af að tilheyra slíku ríki.

*Annar vildarmaður:* En sú gifta að vera óhultur undir verndarvæng slíks herkonungs.

*Goðmundur:* Látum oss drekka skál ríkisins. (Svartir þjónar bera stórt steinker í kring — um leið og þeir hella í bikarana springa bikararnir sundur). Já, ósvikinn er drykkurinn. (Þjónarnir skifta um drykkjarílát og hella í á ný). Skál ríkisins!

*Hirðmenn:* Skál herkongsins!

(Allir drekka nema Útvörðurinn. Tveir menn meðal almúgans detta niður dauðir).

*Einn af vinunum:* Þetta voru útlendingar, sem ekki þoldu drykkinn.

*Goðmundur:* Berið þá burt. Slíka ættlera og örkvisi eigum við ekki sjálfir á meðal okkar. (Líkin eru borin burt og eru þegar stirðnuð).

*Útvörðurinn* (eins og áður): Er það ekki grunsamlegt að fjöldi manna er nú að færa sig af langskipunum niður í smábátana?

*Goðmundur:* Þar eð eg hef haft mig í hættu——

*Fótalausi stríðsmaðurinn:* Þegar þú gast ekki skýlt þér bak við hertekna fanga.

*Goðmundur:* —en hepnast þó að flytja hingað herfang úr hverju landi sem eg hefi heimsótt, hygst eg nú að halda kyrru fyrir um hríð og njóta ávaxtanna af því sem eg á í jörðu grafið, vopna herinn að nýju, búa hann út til nýrrar herferðar. — Svo eg hafi tóm til þess verð eg að láta mér ant um friðinn. Mér er skylt að beita mér sem best fyrir friðarhugsjón, sýna öðrum herkongum fram á það, hve nauðsynlegt sé að friður haldist milli landanna.

*Rauður:* Sumar þjóðirnar, sem þú hefir heitið vernd þinni, ef á þær yrði ráðist — þjóðirnar sem þykjast hafa um sárt að binda af þínum völdum, eru nú, eins og þú veist, að berjast við ýmsan áräsher og alt af að biðja þig að senda sér hjálp samkvæmt samningi.

*Goðmundur:* Meðan þessi árásarher er að drepa þær, er hann ekki að drepa okkur.

*Rauður:* Þær eru ekki ánægðar með það.

*Goðmundur* (önugur): Hef eg ekki oftsinnis ámálgað við þig að tilkynna þessum skjólstæðingum mínum að eftir að lönd þeirra eru lögð í eyði og hver maður drepinn skuli þeir berjast með mínum her og minn her með þeim, hlið við hlið, í sameiginlegum tilgangi — fyrir sannleikann og réttlætið.

*Rauður:* Þær halda því fram, að, ef þú efndir loforð þín, mundu þær vinna sigur og ófriðurinn hjaðna niður.

*Goðmundur:* Segðu báðum ófriðaraðilum að halda áfram að berjast, eg standi með þeim. (Upp yfir alla). Þeir mega gjarna eyða hver öðrum, svo löndin verði laus og mér auðveldara að leggja þau undir mig.

*Rauður:* En þú veist að þeir, sem þú lofaðir verndinni, eru að bíða ósigur. Hinir, sem sigra leggja undir sig löndin.

*Goðmundur:* Segðu að eg mótmæli!

*Rauður* (þokar sér aftur á bak): Eg ræð þér að leyfa ekki framar inngöngu sendisveinum þjóða þeirra er staðhæfa að þú hafir gert sér rangt til.

*Goðmundur:* Eg hef alt af getað haft þá af mér með nýjum og nýjum loforðum.

*Rauður:* Að því getur komið að eintóm loforð dugi ekki.

*Goðmundur:* Öllu er óhætt meðan þjóðir, sem eg hef sigrað, eru að rétta við aftur. Það má ekki leyfa þeim of langt. Eg verð aðeins að bíða þangað til þær hafa komist yfir mátulega mikið fé fyrir mig að taka í mína varðveislu.

(Varðmennirnir, hafa komið til baka).

*Fyrsti varðmaður* (kallar): Nú eru þeir á leið til lands. Auðsjáanlega eru þetta óvinir; þeir eru með vopn sem okkar eigin vopnasmiðir hafa smíðað.

*Goðmundur* (all æstur): Óvinir á leið til lands! og útvörðurinn hefir ekki gert viðvart. Heyrði nokkur hann gera viðvart? (Allir þegja). Enginn! Leiðið útvörðinn út og hengið hann.

*Annar varðmaður* (hefur útvörðinn upp úr sætinu): Hann er þegar dauður og — farinn að stirðna.

*Goðmundur* (mildilega): Það er þá réttast að hlífa honum.

Annar varðmaður lætur útvörðinn falla í sætið aftur, snúa hægri hliðinni að glugganum og horfa brostnum sjónarglerunum fram.

*Rauður* (við Goðmund): Nú vil eg gefa þér það heilræði að friðmælast við þessa óvini, sem að sjálfsögðu þykjast eiga harma sinna að hefna.

(Útvörðurinn er skyndilega lagður spjóti inn um gluggann).

*Goðmundur* (mjög hátíðlega): Sem þið sjáið, piltar, hefir á okkur verið ráðist og það án þess við gæfum tilefni til.

*Fyrsti varðmaður:* Hann var þegar dauður.

*Goðmundur:* Það réttlætir ekkert, því ef hann hefði ekki verið dauður mundi hann nú hafa verið drepinn. Hér er mikið að orðið; við höfum mist manninn sem okkur var ómissandi. Hann var sjáandinn, sem bar í höfði sínu augu okkar allra, heyrandinn sem bar á höfði sínu eyru okkar allra——

*Annar varðmaður:* Þá höfum við að sjálfsögðu verið sjónlausir og heyrnarlausir þangað til hann dó.

*Goðmundur:* Undir honum áttum við okkar öryggi. (Lík útvarðarins er borið burt). Sendið út menn til að lýsa víginu á hendur óvinunum og kunngera þeim að eg krefjist þess að

fá full manngjöld. (Varðmennirnir fara út). Látum okkur drekka erfi hins myrta útvarðar ríkisins.

(Þjónarnir bera drykkinn í kring. Allir drekka fast). Varðmennirnir koma til baka.

*Fyrsti varðmaður:* Þeir afsegja að greiða manngjöld.

*Goðmundur:* Lýsið þá yfir því að jafnvel þótt við elskum friðinn og viljum fórna öllu í þágu friðarins finnum við okkur knúða til að grípa til vopna til að rétta okkar hlut.

(Varðmennirnir fara).

*Rauður* En við höfum engin vopn. Þú hefir selt vopnin í hendur þeirra sem nú eru okkar óvinir.

*Goðmundur:* Við höfum nóga menn.

*Rauður:* Ekki til að fella aðra, heldur til að falla.

*Goðmundur:* Við höfum nóga menn til að fylla upp í skörðin jafnóðum og þeir falla. (Að utan heyrist blásið til atlögu). Verið rólegir, vinir og drekkið. Við megum treysta hernum okkar; þar er margur hraustur sveinn. (Enn bera þjónarnir drykk í kring og allir drekka. Að utan heyrist háreisti sem berst á burt og dvín). Yfirforingi kemur inn, blóðugur í framan, illa til reika, rifinn í lær og laka.

*Yfirforinginn:* Allur okkar her hefir lagt á flótta. Ennþá hafa engir fallið. Þeir hlaupa dauðir.

*Goðmundur* (með miklum eldmóði): Haha! Skál drengir! Ekki einn einasti maður fallið. Þetta eru hetjur í lagi. Þeir skulu allir sæmdir heiðursmerkjum.

*Rauður:* En þeir eru að flýja.

*Goðmundur* (hrifinn): Þetta verður frægasti flótti í sögunni. Skál! (Allir drekka). Hið besta sem þessi flótti hefir í för með sér er það, að leikurinn berst á burt frá höllinni, svo við getum verið ugglausir og óhultir og haldið áfram að njóta lífsins í næði.

*Yfirforinginn:* Það er aðeins lítill hluti óvinaliðsins sem rekur flóttann; megin herinn er hér á næstu grösum.

Varðmennirnir hafa komið til baka.

*Fyrsti varðmaður* (við Goðmund): Síðhöttur nokkur, sem bíður utan dyra, varð fyrir svörum, kvað sig hafa umboð margra þjóða til að koma í veg fyrir styrjöld. Við her þennan kvaðst hann ekki ráða, en geta, ef sér væri leyfð innganga í höllina, gert atför hans að erindisleysi. (Þögn). Eg tjáði honum þá að ákveðið væri að veita ekki sendisveinum þjóða viðtöku. En hann sat við sitt keip þar eð erindi sitt væri fólgið í því að greiða ríkinu réttmæta skuld.

*Goðmundur:* Það er nóg ástæða að leyfa honum ekki inn að hann hygst að greiða mér skuld. Eg kann því betur að draga menn inn til þess nauðuga.

*Fyrsti varðmaður:* Hann tjáði mér ennfremur að, ef hann fengi ekki inngöngu með góðu móti mundi hann taka til sinna ráða.

*Einn af vinunum:* Það er næsta grunsamlegt að hann skuli vera svona áfjáður.

*Goðmundur:* Eg er óhultur fyrir honum í þessari höll. Dyraverði hef eg trúa og dygga; slíkir dyraverðir eru ekki á hverju strái.

(Í þessu kemur ófrýnn maður inn

í svörtum kufli, með hött síðan — gengur hægt — staðnæmist frammi fyrir Goðmundi).

*Síðhöttur* (tekur blikandi öxi undan kuflinum): Mál er nú komið að eg greiði þér fult verð. Þetta er vopnið góða sem þú seldir mér í hendur. Eg hef aldrei þurft á því að halda fyrr. (Reiðir öxina í háa loft og klýfur Goðmund í herðar niður — fer út, óhindraður af öllum).

*Goðmundur* (eins og ekkert hefði ískorist): Meira öl, félagar! Látum okkur drekka og njóta lífsins. Sendið inn hingað hljóðfæramenn og dansmeyjar. Þið ættuð að sjá þær berbökuðu sem eg hafði heim með mér í síðustu ferðinni.

*Rauður:* Ætlarðu að þola þessa skapraun?

*Goðmundur (önugur):* Þessa skapraun? Hvaða skapraun? Ó-já, eg veit við hvað þú átt. Sendið þið út menn á eftir honum tafarlaust. Segið að eg krefjist þess að hann biðji afsökunar. (Varðmennirnir fara). — Sumar þeirra voru giftar. Eg nenti ekki að farga eiginmönnum þeirra, lofaði þeim að lifa til að sjá eftir konum sínum. Eg lofaði þeim að eg skyldi sjá svo um að þær hefðu ekki ástæðu til að harma þá — það voru mín huggunarorð og síðustu kveðjur.

(Varðmennirnir koma til baka).

*Annar varðmaður:* Óvinirnir eru nú að fylkja liði ekki alllangt frá höllinni.

*Fyrsti varðmaður:* Hann neitar að biðja afsökunar.

*Goðmundur* (æstur): Slík ósvífni! Farðu út og segðu honum að hjá því verði ekki komist að líta á tilræði hans sem persónulega árás og móðgun. (Annar varðmaður dregur hlera fyrir gluggann. Það gerir hálfdimt í hallarsalnum). Hvað er nú?

*Fyrsti varðmaður:* Vegna þess að voði er fyrir dyrum og engir að gæta dyranna, létum við læsa þeim.

*Goðmundur:* En hvað er um dyraverðina? Eg þykist nú skilja. Síðhöttur sá hefir drepið mína trúlyndu dyraverði og þess vegna komist inn.

*Fyrsti varðmaður:* Nei. Dyraverðirnir reyndust ótrúir.

*Goðmundur* (ógurlegur): Þrælarnir! Sendið þá fyrir minn dóm.

*Fyrsti varðmaður:* Þeir eru gengnir í lið með óvinunum; þeim hefir verið blásið í brjóst að héðan af væri það eini vegurinn til að halda lífi.

(Hirðmenn, vinir og vildarmenn ókyrrast, en almúginn stendur enn í sömu sporum).

*Goðmundur* (blíður): Verið rólegir drengir, ekki er ástæða til að óttast, þó einn kögursveinn hafi komist inn og farið aftur svo-búinn.

Að utan heyrist hávaði sem af jöfnu fótataki margra manna, er nálgast.

*Fyrsti vildarmaður* (óttasleginn): Mér dettur ekki í hug að gera lítið úr vernd þinni herra, enginn kann að meta hana meira en eg, en aðal háskinn er fólginn í því, að óvinir þínir leggi eld að höllinni og brenni okkur alla inni.

*Rauður* (við Goðmund): Þú mundir sleppa vel ef þeir gengju að því að fá alt gullið, sem þú átt í jörðu grafið, gegn því að þeir létu þig sjálfan óáreittan.

*Goðmundur* (hróðugur): Gullið

mitt! Nei, aldrei. Friðinn kaupi eg aldrei fyrir gullið mitt. Fyrr mundi eg fórna hverju mannslífi í landinu. (Lækkar róminn). Hvar eru nú öl-sveinarnir?

(Það er hastarlega lostið á hurðina — vopnabrak heyrist).

*Einn af vinunum* (snýr sér auðmjúklega til Goðmundar): Í nafni allra vina þinna og skjólstæðinga skora eg á þig að ganga út og segja eitthvert vilyrði, sem mundi friða óvini þína í bili, svo við vinir þínir gætum komist undan ómeiddir — hver til síns heimilis.

*Goðmundur:* Mig tekur sárt að þið skulið vera svona huglausir. Þið hefðuð átt að vera með mér, þegar eg var umkringdur óvinum úti á regin hafi, með heljarmikinn ránsfeng, sem eg sökti heldur í sjó en hann félli aftur í hendur eigendanna.

Að utan heyrast hróp og köll.

*Fyrsti varðmaður:* Þeir kveðja þig til útgöngu.

*Einn af vinunum:* Við vinir þínir krefjumst þess, sérstaklega vegna sjálfra okkar, að þú veitir þeim einhverja úrlausn — verðir að einhverju leyti við ósk þeirra.

*Rauður:* Sem ráðgjafi þinn ræð eg þér nú í síðasta sinni, að gera að minsta kosti einhverja tilraun.

*Goðmundur* (eftir nokkra umhugsun): Eg skal gjarna þóknast ykkur með því að reyna að beita einhverjum undanbrögðum, ljúga að þeim einhverju nýju — lofa þeim einhverri úrlausn, án þess þó eg ætli mér að efna nokkuð. En — hætt er við að þeir treysti mér ekki eftir alt sem er undangengið.

Um leið og hann stendur upp losnar hann sundur í miðju eftir endilöngu og fellur — sinn helmingurinn til hvorrar handar.

*TJALDIÐ*

---

# Íslendings auðkenni

Eftir Jón Jónatansson

Þótt um merkur vang og völl
vítt, ættsterkur skálmi
ber hann merki Íslands öll
undir serk og hjálmi.

Hvar í sýn sem hann um fer
hafs á gínum völtum,
hlið við sína sverð hann ber
sem að skín á hjöltum.

Þótt 'ann haldi auðnir á
yfir kaldan hjara,
merkin skjalda samt má sjá
sem um aldir vara.

# Heimsókn biskups Íslands

Eftir prófessor Richard Beck

---

Heimsókn Sigurgeirs Sigurðssonar, biskups Íslands, síðastliðinn vetur mun jafnan verða talinn merkur viðburður í sögu Íslendinga vestan hafs, enda þóttu það mikil og góð tíðindi, er það varð hljóðbært, að ríkisstjórnin hefði valið þennan ágæta fulltrúa heimaþjóðarinnar, og jafnhliða einn af allra virðulegustu embættismönnum hennar, til þess að mæta fyrir hönd sína og íslensku þjóðarinnar á 25 ára afmæli Þjóðræknisfélagsins. Var þar um að ræða mikið vinarbragð af hálfu ríkisstjórnarinnar, og félaginu og Íslendingum í landi hér að sama skapi sómi sýndur. En hinar drengilegu undirtektir stjórnarinnar um að senda fulltrúa á aldarfjórðungsafmæli félagsins, og þá eigi síður val fulltrúans, eru ennþá þakkarverðari, þegar tekið er tillit til þess, að tími varð minni til stefnu en ætlað hafði verið. Er að þessu vikið í bréfi frá þáverandi utanríkisráðherra Íslands, herra Vilhjálmi Þór, til forseta Þjóðræknisfélagsins (dags. 4. febrúar 1944), og sæmir vel, að þetta bréf, er lesið var upp, þá er biskup var kyntur þingheimi, geymist í málgagni félagsins einmitt í sambandi við frásögnina um komu og frægðarorð hins göfuga gests heiman um haf hingað á vesturvegu. Bréfið, sem einnig hefir inni að halda hlýjar kveðjur til Þjóðræknisfélagsins og Vestur-Íslendinga, er á þessa leið:



"Við höfum skiptst á nokkrum símskeytum fyrirfarandi, út af 25 ára afmæli Þjóðræknisfélagsins. Er mér það mikið gleðiefni, að mér og ríkisstjórninni hepnaðist að koma því svo fyrir, þótt tíma væri naumur, að við getum sent fulltrúa héðan að heiman til ykkar, og sérstaklega er mér það mikið ánægjuefni, að mér hepnaðist að fá svo virðulegan sendimann sem biskupinn yfir Íslandi herra Sigurgeir Sigurðsson er.

"Eg er þess fullviss, að Þjóðræknisfélagið og Vestur-Íslendingar yfirleitt meta það að verðleikum, að þessi einn af æðstu

embættismönnum þjóðarinnar er valinn til þessarar farar, sem um leið er góður ræðumaður og glæsilegur.

"Vill ríkisstjórnin með þessu hafa sýnt virðingu sína og þakklæti fyrir hið ágæta starf Þjóðræknisfélagsins, samheldni Vestur-Íslendinga og trygð þeirra við íslenska tungu og menningu.

"Eg nota þetta tækifæri til þess persónulega, að senda yður, meðstarfsmönnum yðar og Þjóðræknisfélaginu, mínar bestu kveðjur og heillaóskir.

"Eg óska og vona, að starf yðar og annara, sem vinna að þjóðræknismálinu á komandi árum, megi ná jafn miklum árangri eins og á liðnum tímum." — —

Kom það og fljótt á daginn, að frábærlega vel hafði tekist til um fulltrúavalið, svo að eigi varð á betur kosið, og einnig hitt, að Íslendingar vestan hafs kunnu, eins og ráðherrann gat réttilega til í bréfi sínu, vel að meta komu svo ágæts og mikilsvirts fulltrúa ættþjóðarinnar.

Fyrir góðan atbeina amerísku herstjórnarinnar á Íslandi, fór Sigurgeir biskup flugleiðis vestur, og sömuleiðis heim aftur, og kom til Washington nokkrum dögum fyrir þann tíma, er þjóðræknisþingið skyldi hefjast, en til Winnipeg um hádegi sunnudaginn áður, þ. 20. febrúar. Hópnum, sem beið þar á flugvellinum, mun lengi verða minnisstæður sá viðburður, er silfurvængjuð og sólu glituð flugvélin lenti, og biskup steig broshýr út úr henni til móts við okkur, sem biðu hans þar, og skýrði okkur frá því, að hann hefði lagt af stað heiman af Íslandi seint á miðvikudaginn næsta á undan, og þó átt nokkra dvöl í Washington og Chicago á leiðinni. En eigi var hinum góða gesti lengi til setu boðið.

Síðdegis næsta dag, fyrsta þingdaginn, flutti Sigurgeir biskup, fyrir húsfylli, fyrstu ræðu sína vestan hafs, kveðjur ríkisstjórnar Íslands og íslensku þjóðarinnar. Byrjaði hann kveðjuflutning sinn með því að láta leika hljómplötu með einkar fögru ávarpi til Vestur-Íslendinga og Þjóðræknisfélagsins frá þáverandi ríkisstjóra Íslands og núverandi forseta þess, herra Sveini Björnssyni, sem Þjóðræknisfélagið á Íslandi hafði látið undirbúa, og fylgdi forseti félagsins, Árni G. Eylands framkvæmdastjóri, því úr garði með hlýjum kveðjuorðum; en af hinni hlið hljómplötunnar söng blandaður kór þjóðsöng Íslands, "Ó, Guð vors lands". Ávarp Sveins ríkisstjóra var sem hér segir:

"Kæru landar vestan hafs.

"Ungur átti eg í föðurhúsum kost á því að sjá einstaka Vestur-Íslendinga, sem komu hingað til lands í heimsókn. Mér fanst þá flestir þeirra vera eins og útlendingar.

"Árið 1913, þegar verið var að undirbúa stofnun Eimskipafélagsins, komu hingað í umboði Vestur-Íslendinga nokkrir menn að vestan. Erindi þeirra var að ræða við okkur á hvern hátt landar okkar handan hafsins gætu rétt hjálparhönd til þess að koma í framkvæmd þessu þjóðþrifafyrirtæki, sem þá var talið Grettistak fyrir okkar fámennu og fá-

henni. Eg get því ekki sagt hana alla, og hreint ekki á líkan hátt og hann sagði hana. En aðalinnihald hennar er þannig:

Það eru um níu hundruð ár síðan saga þessi gjörðist, og hún gjörðist á Norðurlöndum. Það er sönn saga, og hún var snemma færð í letur á íslensku og hefir verið þýdd á margar tungur. Hún er af konungi, sem var ungur að aldri, þegar hann settist að völdum. Faðir hans, sem líka var konungur á Norðurlöndum, hafði farið fram með lítilli vægð við þegna sína, og urðu margir honum óvinveittir, og gjörðu bændur uppreisn og börðust við hann, og þar féll hann í grimmum bardaga. Þegar hinn ungi konungur tók við völdum, byrjaði hann stjórn sína með allmikilli hörku, því að honum var mjög gramt í geði til þjóðarinnar fyrir óhlýðni hennar við föður hans. Var framkoma hins unga konungs gagnvart öllum, jafnvel ráðgjöfum hans og hirðmönnum, svo stirð og hranaleg, og orð hans svo bitur og særandi, að margir þeirra, sem honum voru nákomnir og vinveittir, óttuðust, að þjóðin mundi gjöra uppreisn og reka hann frá völdum, ef hann héldi áfram að vera harðstjóri. Kom ráðgjöfunum og hirðmönnunum saman um það, að einhver þeirra yrði að áminna hann og vanda um við hann. En flestum hraus hugur við, að takast það á hendur. Var að lokum afráðið, að kasta skyldi hlut um, hver segja skyldi konungi til siðanna. Með hirðinni var um það leyti íslenskur maður, sem var mikið skáld og verið hafði mikill vinur föður hins unga konungs, og báru allir hirðmennirnir óbilandi traust til þessa Íslendings, og þegar kastað var hlut, var stilt svo til, að hlutur skáldsins kom upp. Orti þá Íslendingurinn langt og voldugt kvæði, gekk fyrir hinn unga konung og flutti honum kvæðið. En í kvæðinu var alt, sem Íslendingurinn vildi segja konunginum. Hann byrjaði kvæðið með mildum og hógværum orðum, minti hinn unga konung á föður hans, og bað hann að reiðast ekki við bersögli ráðgjafa sinna. Þar næst lét skáldið hvert reiðarslagið fylgja og sagði konungi afdráttarlaust til syndanna, og sagði meðal annars:

"Hver eggjar þig að ganga á bak málum þínum? Fastorður skyldi konungur vera. Hver eggjar þig að höggva bú þegna þinna?"

Skáldið bað hann að varast þetta. "Vinur er sá, er varar," sagði skáldið. Og hann endaði kvæðið mjög fagurlega og kvaðst vilja lifa og deyja með hinum unga konungi, en skoraði jafnframt á hann, að breyta sér og hegðun sinni sem allra skjótast. Konungurinn hlustaði á kvæðið með mikilli eftirtekt, og það hafði góð áhrif á hann, því að hann var vitur maður. Hann hlýddi orðum skáldsins og varð upp frá því mildur og réttlátur konungur, sem þjóðin hans virti og elskaði. Hann og hinn berorði, djarfmælti Íslendingur voru vildarvinir eftir það á meðan þeir báðir lifðu. Þannig gat hið ágæta íslenska skáld, með einu kvæði, afstýrt innanríkis óeirðum og bardögum.

"Þannig er aðal-inntak sögu þeirrar, sem Hans sagði okkur í skálanum þetta áminsta sunnudagskvöld," sagði Wilson; "og sagan hreif á svip-

aðan hátt og kvæði íslenska skáldsins, því að Hogg verkstjóri hlýddi á hana með sérlega mikilli athygli. Þegar sögunni var lokið, gekk hann þegjandi út og var um stund á reiki í kringum skálann. Þá er hann kom aftur inn í skálann, lagði hann sig til svefns, án þess að mæla orð af munni. Daginn eftir var hann venju fremur fátalaður og hógvær. Í þá tvo mánuði, sem eg var eftir það, við skógarhöggið, heyrði eg hann aldrei beita stóryrðum eða bituryrðum við nokkurn mann. Og eg þakkaði það sögunni, sem Hans sagði okkur um íslenska skáldið og hinn unga, norræna konung."

"Og svo náttúrlega hafa þeir, Hans og verkstjórinn, verið bestu vinir eftir það," sagði konan mín.

"Mér er það ekki fyllilega ljóst," sagði Wilson; "en hitt er víst, að við, skógarhöggsmennirnir allir, urðum vinir Hansar."

"Vissulega er þessi landi minn góður drengur," sagði eg.

"Já, hann er drengur góður," sagði Wilson; "hann er líka alúðarvinur minn og kvæntur systur minni."

Að því mæltu gekk Wilson til sætis síns. En eg átti tal við hann aftur nokkrum sinnum áður en við skildum í Vancouver. Og því oftar sem við töluðumst við, því betur gast mér að honum.



# Hver orti þessa vísu?

Inn til jökla, inn til jökla
eg vil mína ævi búa;
að mér fjalla dísir hlúa,
þótt eg gangi frosnum fótum
fram með bláum jökulrótum.
Þar er eg svo frjáls og frí —
fjallborg helgri luktur í.

Fyrir 60—70 árum og að líkindum fyr, var þessi vísa á hvers manns vörum á Jökuldalnum og í Heiðinni. Hún var sungin með sama lagi og "Tíkar-Mangi" eftir Jónas Hallgrímsson. Já, og eftir á að hyggja, hvaðan er lagið runnið?

Ef gamlir og langminnugir menn og konur kunna vel ortar vísur eða kvæði, sem hvergi hafa verið prentuð áður, gerðu þeir vel í því, að skrifa þau upp og forða þeim með því frá glötun.

# Útverðir íslenskra fræða

---

I.

Þegar hinni stórhuga tillögu um stofnun háskóla á Íslandi var fyrst hreyft endur fyrir löngu, voru það víst fáir, sem álitu slíkt framkvæmanlegt. Jafnvel einlægir föðurlands vinir, sem mestan hug lögðu á, að fá stjórnina sem mest inn í landið, töldu þetta óframkvæmanlega höfuðóra og draumarugl. Kaupmannahöfn var í hugum fjöldans miðstöð allrar norrænnar menningar og fræðslu. Þangað hafði mestur hluti íslenskra handrita farið, þar reis hin nýrri endurvakningaralda, og þangað sóttu flestir vorir andlegu leiðtogar mentun sína.



En draumurinn um háskóla á Íslandi rættist, — jafnvel löngu áður en hinn stóri draumur um algjört lýðfrelsi þjóðarinnar komst í framkvæmd. Og reynslan sýnir, að hann hefir blessast. Þar hafa risið upp frá rótum margir hinir ágætustu mentamenn yngri kynslóðarinnar. En hann þarf að auðgast og stækka. Eitt af aðal hlutverkum hans í framtíðinni ætti að verða það, að gjörast veraldar miðstöð íslenskrar bókmentafræðslu, fornrar og nýrrar, og málkunnáttu, ef hann þegar er ekki orðinn það. Þaðan verða að renna straumar norrænnar menningar, og þaðan eiga, umfram alt, að fylkjast útverðirnir, sem halda þeim straumum lifandi. Hann þarf að vera svo kostum búinn, að þangað þurfi allir að sækja, er framhaldsnáms æskja í forn-norrænum málvísindum og fornum og nýjum bókmentum Íslendinga.

Eitt af því alnauðsynlegasta, til þess að svo geti orðið, er, að hann eignist stafréttar endurprentanir eða ljósmyndaútgáfur af öllum þeim handritum og bókum og skjölum um forn fræði, norræn og íslensk, sem ekki eru til heima fyrir, og engin tök eru á, að ná heim frá erlendum söfnum víðsvegar um heim. Væri með því fengin meiri trygging fyrir því, að ekki þyrfti að stöðvast nauðsynleg vísindaleg starfsemi á þeim sviðum, ef um samgöngubann væri að ræða. Auk þess yrði þar þá í einni heild það alt, sem nú þarf að tína úr öllum áttum.

Þá þarf og svo um hnútana að búa, að málfræði og bókmentadeild háskólans, að minsta kosti, líði aldrei þröng; og skaðar ekki, að minna íslenska auðmenn á, hvar í heimi sem þeir búa, að styðja íslenska ríkið svo með ríflegum fjárframlögum, að háskólinn neyðist aldrei til að draga inn hornin á þeim sviðum.

Að sjálfsögðu stendur háskólinn nú þegar í sambandi við aðrar samskonar mentastofnanir annara landa, með mannaskiftum og áframhalds námi stúdenta. En það þarf að aukast. Útbreiðslustarfið þarf að vera þess eðlis, að íslenskri tungu og fræðum verði meiri gaumur gefinn. Það er, til dæmis, naumast vansalaust, að enginn háskóli í Canada skuli enn hafa bætt forn-norrænu eða íslensku inn í tungumáladeildir sínar. Í betri háskólum Evrópu og allmörgum háskólum Bandaríkjanna er þessi fræðigrein talin sjálfsögð og nauðsynleg. Hafa vitanlega oft Íslendingar skipað þar kennara stól og gjöra það enn. Við þrjár slíkar stofnanir sunnan landamæranna eru Íslendingar í prófessors sæti. Þeir þyrftu að vera margfalt fleiri.

Þessum þremur mönnum vildi eg tileinka fyrirsögn þessa greinarstúfs, enda þótt aðeins eins þeirra verði minst að þessu sinni. Áður hefir Tímaritið birt mynd af og greinargjörð um hinn elsta þeirra, hinn alkunna fræðimann Halldór Hermannsson, prófessor við Cornell háskólann og vörð hins mikla Fiske-bókasafns. Lesendur Tímaritsins þekkja hann, meðal annars, af hinum ágætu ritgjörðum hans, er í því hafa birtst á ýmsum tímum. Vísa eg og til greinar um hann í 23. árg. þessa rits eftir forseta félags vors, dr. Richard Beck.

Hinir tveir eru þeir jafnaldrarnir dr. Richard Beck, prófessor við ríkisháskólann í Norður-Dakota og dr. Stefán Einarsson, prófessor í norrænum fræðum við Johns Hopkins háskólann í Baltimore í Marylandríkinu.

Dr. Beck fékk að vísu undirbúningsfræðslu sína heima í föðurlandinu, en skömmu eftir hina fyrri heimsstyrjöld kom hann hingað vestur, og hefir áframhalds námsferill hans legið hér vestra — einkum við Cornell háskólann — og þar varði hann doktors ritgjörð sína.

Dr. Stefán er beinn kvistur af háskólameiði Íslands, og þaðan er vonandi að fylkist í framtíðinni útverðirnir, sem tendra og halda logandi blysi íslensk-norrænnar menningar um allan hinn mentaða heim.

## II.

Eg vona, að hvorki dr. Stefán Einarsson né lesendur *Tímaritsins* hneykslist, þótt eg skýri lítið eitt frá ætterni og starfsferli hans, þótt hann sé enn hvorki ellihrumur né til moldar genginn. En eins og flestir vita, og sjá má af myndinni, er maðurinn enn á besta skeiði, fullur af eldlegum áhuga og starfsmagni þroskaðs hreystimennis.

Stefán Einarsson er fæddur 9. júní 1887 að Höskuldsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Foreldrar hans voru merkisbóndinn Einar Gunnlaugsson, af góðum Breiðdælskum bændaættum, og Margrét Jónsdóttir, kona hans; nú bæði dáin. Margrét var dóttir séra Jóns Jónssonar prests að Klyppstað í Loðmundarfirði og Kirkjubæ í Hróarstungu. Hann var

sonur Jóns vefara, sem mikil ætt er af komin á Austfjörðum, einkum í Fljótsdalshéraði. Amma Stefáns í móðurætt var Þórunn Magnúsdóttir, prests Bergssonar í Eydölum, systir meistara Eiríks Magnússonar, sem lengst starfaði, og dó, í Cambridge á Englandi.

Er svo að sjá, að Stefán hafi fengið góða undirbúningsmentun í heimahúsum, því sextán ára sest hann í þriðja bekk Akureyrarskóla, og næsta ár er hann í fjórða bekk Mentaskólans. Þá las hann eitt ár utan skóla, og tók stúdentspróf vorið 1917. Fór hann því næst í Háskóla Íslands og las norræn fræði hjá þeim prófessorunum og fræðimönnunum Sigurði Nordal, Alexander Jóhannessyni, Jóni Aðils og Páli E. Ólasyni. Í árslok 1923 lauk hann meistaraprófi í íslenskum fræðum og skrifaði í sambandi við það ritgjörð um íslenska hljóðfræði.

Næsta sumar fór hann á vegum dansk-íslenska félagsins til Danmerkur, og þá um veturinn (1924-25) með styrk úr Sáttmálasjóði til Finnlands. Stundaði hann þar hljóðfræði, og rannsakaði, að sjálfs hans sögn, meðal annars sinn eigin framburð í máli á tilrauna-hljóðfræðistöðinni við háskólann í Helsinki.

En hann virðist einnig hafa orðið þar fyrir áhrifum annara og viðkvæmari radda, því um sumarið 1925 kvæntist hann stúlku, er hann hafði kynst í Finnlandi um veturinn. Hét hún Margareta E. Schwarzenberg, og var frá Pernau í Estlandi.

Þá um haustið fóru þau, ungu hjónin, til Englands, og safnaði hann þar að nokkru gögnum til bókar við háskólabókasafnið í Cambridge. Eftir það fóru þau heim til Íslands og bjuggu í Viðey um veturinn, og vann hann þar að ritstörfum.

Næsta sumar tók hann að vinna úr efni því, er hann hafði safnað til í Helsinki, og að ári liðnu hafði hann lokið doktorsritgjörð sinni "Beitrage zur Phonetik der islandishen sprache". Varði hann hana við háskólann í Oslo í Noregi 21. sept. 1927, og var þannig fyrsti Íslendingurinn, sem ávann sér doktorsgráðu í Noregi. Næstur honum kom Jón Dúason, síðar um haustið.

Á háskólaárum dr. Stefáns kom hinn merki rithöfundur og fræðimaður Bandaríkjanna, Kemp Malone, heim til Reykjavíkur. Aðstoðaði Stefán hann við nám íslenskrar hljóðfræði, sem hann svo síðar (1923) skrifaði um lærða og erfiða, og að lærðra manna áliti, góða bók: "The Phonology of Modern Icelandic". Tókst með þeim vinátta, sem meðal annars leiddi til þess, að próf. Malone hvatti Stefán til að koma vestur um haf. Mun hann hafa mælt með honum við stjórnendur Johns Hopkins háskólann. Kom hann því hingað vestur skömmu eftir að hann hafði varð doktorsritgjörð sína í Noregi, sem áður var nefnd. Síðan hefir hann setið þar að verki — fyrst sem grúskari, þá aðstoðarkennari, síðar meðprófessor í tungumáladeild háskólans. Og nú nýskeð hefir hann verið skipaður prófessor í norrænum fræðum (Scandinavian Philology).

Á sumrum hefir Dr. Stefán löngum dvalið við Cornell háskólann vegna hins mikla íslenska bókasafns þar. Tvisvar hefir hann skroppið til Íslands (1930 og 1933) og eitt sumar kendi hann íslensku við "The Lingu-

istic Institute of America" í New Haven.

III.

Eitt af þeim mörgu fyrirbrigðum í lífi og háttum manna eru hinar svonefndu mállýskur, sem oft og tíðum einkenna svo málfæri fólks, að hægt er að geta sér til um, úr hvaða fjórðungum eða bygðarlögum það er runnið. Lýsir það sér ekki aðeins í orðalagi og sérkennilegum talsháttum, heldur og í framburði algengra orða og í hreim málsins. Út á þann hála ís ætla eg ekki þó að hætta mér, að reyna að grafa fyrir rætur þess eða útskýra það á fræðimannlegan hátt. En ætla má, að hin sameiginlegu einkenni hverrar mállýsku stafi af einangrun eins landshluta frá öðrum. Á það þá einkum við stafaframburð og hljóm orðanna. Einstök orðatiltæki (skrípaorð og sérvisku hnykkir) spretta að líkindum að einhverju leyti af löngun til að vera frumlegir í máli og öðruvísi en aðrir menn. En raddblær, hæð og dýpt, að svo miklu leyti, sem hann ekki er eftirherma, byggist á sköpun barkakýlis hvers einstaklings, og verður víst ekkert við því gjört, meðan hverri hljóðstöfu ekki gefið víst svið og sveiflufjöldi eins og nótunum í tónstiganum. Öll þessi afbrigði verða að hverfa eða lagast með tímanum. Útvarp og hljóðritun ætti að geta afnumið allar mállýskur á skömmum tíma — einkum ef þjóðin gæti öðlast þá djörfung, að endurbæta stafrófið svo, að til væri stafur fyrir hvert ákveðið hljóð, og einn óbreytilegur framburður hvers bókstafs því samfara. Ætti þá enginn maður eða kona að fá kennaraleyfi, sem ekki hefði staðist próf í hinum viðurkenda rétta framburði. Við kensluna yrði og að nota hljómplötur til skilningsauka. Gæti þetta gefið síðari tíma hljóðfræðingum nýtt og aukið verksvið.

Ekki hefi eg haft af því, að spyrja dr. Stefán þess, hvað olli því, að hann gjörði hljóðfræði að sérgrein í áframhaldsnámi sínu. En ekki mun fjarri sanni, að geta sér til, að það hafi að einhverju leyti leitt hann inn á þá braut, að hann þegar á háskólanámsárum sínum vann fyrir sér með því, að aðstoða þá Sigfús Blöndal og Jón Ófeigsson við hina miklu íslensk-dönsku orðabók, sem Blöndal var aðalritstjóri að. Kom það mest á Stefán, að búa undir prentun hljóðskrift og framburðar táknanir bókarinnar og lesa af því próförk. Þá var hann og uppalinn á þeim stöðvum, þar sem tvær öldur ólíks framburðar rákust á — austfirskan og sunnlenskan. Gjörir hann einmitt grein fyrir mörgu af því í ritgjörðum sínum um málbreytingar og hljóðvillur. Eitt er víst, að meistaraprófs ritgjörð sína skrifar hann um íslenska hljóðfræði, og sama er að segja um doktors ritgjörð hans.

Þó skrítið sé, byrjar samt ekki rithöfundarferill þessa unga manns á málfræðilegum efnum, ef þessar vísindalegu prófritgerðir eru undanskildar. Heldur sökkvir hann sér fyrirvaralítið ofan í sagnfræðileg efni. Á eg þar við Sögu Eiríks Magnússonar, er hann reit veturinn sem hann dvaldi í Viðey, sem áður er drepið á. Eiríkur var ömmubróðir hans. Gjörði hann það og mest fyrir áskorun vina og frænda sinna, enda stóðu þeir bræður, Ólafur og Magnús Gíslasynir, systursynir Eiríks, mestan straum af kostnaðinum við ritun

bókarinnar og útgáfu. Á háskólaárum sínum hafði Stefán safnað drögum til sögunnar, og svo síðast, er hann dvaldi um tíma í Cambridge 1925. Útgáfu bókarinnar var að vísu frestað þangað til á aldarafmæli Eiríks (1933), eins og skýrt er frá í formála hennar.

Þessi bók, sem bygð er á nákvæmri rannsókn bóka, bréfa, skjala og skilríkja þeirra tíma, bæði á Íslandi og Englandi, er ekki aðeins ævisaga eins manns, heldur og sögulegt yfirlit yfir helstu viðburði þess tímabils, samband söguhetjunnar við Jón Sigurðsson og fleiri þeirrar tíðar menn; en einkum þó um verk það er hann var að vinna á Englandi í samvinnu við marga ágætustu menn Breta, eins og t. d. skáldið og snillinginn William Morris, Powell og fleiri í þarfir norrænnar menningar. Lýsir hann og mannkostum og skaphöfn söguhetjunnar meistaralega, og lætur hann þar ósjaldan sjálfan tala. Kennir þar víða allhressilegrar austfirsku. Má óhætt fullyrða, að þessi fyrsta bók höfundarins setji hann framarlega í röð þeirra manna, er ævisögur rita.

Síðan hefir dr. Stefán verið síkrifandi. Eru víst fá íslensk tímarit, sem hann ekki hefir ritað í — t. d. Iðunni, Skírni, Óðinn, Eimreiðina og fleiri — og í þessu tímariti á hann eigi færri en tólf eða þrettán ritgjörðir, aðallega bókmenta og bókmentasögulegs efnis. Þá má eigi gleyma aragrúa af blaðagreinum um ýms efni, og ritdómum um bækur. Kennir þar margra grasa og skoðana, því maðurinn er óhræddur við að láta í ljós álit sitt, hvað sem almenningsálitinu kann að líða í það eða það skiftið. Væri það að bera í bakkafullan lækinn, að nafngreina hverja einstaka ritgjörð eða reyna að flokka þær eftir efni. Enda verður ekki farið út í þá sálma hér.

En alt þetta er vitanlega fyrir íslenska lesendur. Undir kynningar og fræðslustarfið út á við verður því einkum að telja ritgerðir þær, er hann hefir skrifað í annara þjóða tímarit. Meðal þeirra má telja: Acta Philologica Scandinavica, Arkiv för nordisk filologi, Journal of English and Germanic Philologi, Modern Language Notes, Scandinavian Studies and Notes, Life and Letters, Island (Mitteilungen der Islandfreunde). Þá hefir hann um nokkur ár verið meðritstjóri að Journal of English and Germanic Philologi.

Fjalla þessar ritgerðir um harla margvísleg efni, svo sem: hljóðfræði, samanburðarmálfræði, einstaka menn, fornmenjar og fornfræði rannsóknir. Ein grein er um áttir og átta greiningu í nútíðarmáli og talvenjum í ýmsum landshlutum; önnur um sama efni, eins og það birtist í fornsögunum. Er hún eftirtektaverð, að svo miklu leyti sem fræðimenn þykjast geta ráðið að nokkru af, hvar þetta eða hitt fornritið sé fært í letur, eftir því hvernig greint er frá áttum í því.

Tvö stærstu ritverk dr. Stefáns eru nú á uppsiglingu.

Hið fyrra er kenslubók í íslensku, er verður að öllu sjálfráðu komin á bókamarkaðinn áður en þetta *Tímarit* er fullprentað. Bókin heitir fullu nafni: *Icelandic: Grammar, Texts, Glossaries,* og er yfir fimm hundruð blaðsíður í stóru broti, málfræðin tekur yfir 180 bls., orðasafnið 200 síður, og aðrir hlutar bókarinnar eru

æfingar og leskaflar. Verður þetta reglulegur happafengur fyrir alla þá, sem löngun hafa til að læra málið til hlítar.

Hitt ritið er hin stóra Bókmentasaga, er þeir báðir standa að, hann og dr. Richard Beck. Er verkum þannig skift, að Stefán skrifar um sundurlaust og órímað mál og höfunda þess, en Beck annast um ljóðagjörðina og ljóðskáldin. Má að líkindum vænta hennar einhvern tíma á árinu. Er ætlast til að hún nái yfir alla nítjándu öldina og niður til vorra tíma.

Þá hefir hann og í smíðum aðra kenslubók í íslensku fyrir The Linguaphone Company í London. Verður hún með lesköflum, skýringum og orðasafni. Textarnir verða jafnframt lesnir á grammophone plötur sem síðan verða notaðar í sambandi við kensluna.

Þótt eg hafi ekkert leyfi til — eins og reyndar er um ýmislegt annað, sem að framan hefir verið sagt — get eg ekki skilist svo við þennan greinarstúf, að eg ekki geti enn eins atriðis, sem sýnir ljóslega, í hve miklu áliti dr. Stefán er meðal fræðimanna.

Haustið 1939 fékk hann tilboð frá Árna Magnússonar-nefndinni í Kaupmannahöfn, að taka að sér, ásamt tveimur öðrum mönnum, söfnun og ritun forn-íslenskrar orðabókar, er sú stofnun gengst fyrir og kostar. Átti hann að vera aðalritstjórinn og setjast að í Khöfn meðan á verkinu stæði. En eins og öllum er kunnugt, magnaðist heimsstyrjöldin, og Danmörk lenti í hershöndum. Framkvæmd þessa nytsama starfs felst því á bak við þokubólstra framtíðarinnar.

*G. J.*

---

## BÆKUR OG RIT

Nú á þessum "verstu og síðustu tímum", stríðs og styrjalda, hefir fækkað góðum ísl. bókum og ritum hér hjá bóksölum, og verðið sloppið úr öllum hömlum, borið saman við kaupgetu okkar hér vestra. Sumar bestu bækurnar hafa aldrei komið — t. d. Bókmentafélags bækurnar ekki í þrjú eða fjögur ár.

Fáein hefti af þremur tímaritum hafa félaginu verið send, og vil eg þá fyrst tilnefna "Tímarit Iðnaðarmanna". — Fjallar það auðvitað um áhugamál iðnaðarmannastéttarinnar í landinu. Það flytur ágætar greinar og kvæði, og auk þess myndir af merkum innlendum listaverkum og fleiru.

Þá hafa okkur borist þrjú hefti af "Tímariti Verkfræðingafélags Íslands" (29. ár). Er þar vitanlega margt algerlega sérfræðilegs efnis, en þó vel skiljanlegt almenningi. Af því, sem þar er rætt, má best sjá, hvað er að gerast og hefir gerst á seinni árum í verklegum framförum í landinu.

Þá var félaginu send snemma á árinu tvö fyrstu heftin af nýju tímariti, er nefnist "Stígandi" — táknrænt nafn um hið andlega viðhorf þess. Þessi tvö hefti eru fjölbreytt að efni: Ritgerðir, ferðalýsingar, sögur og kvæði, auk ritdóma og smælkis. ★

Það, sem í upphafi var sagt um lestrarbækur íslenskar, á einnig við um söngbækur og aðra musik að heiman. Á því hefir verið hlé í nokkur ár.

Það var því óvænt gleðiefni, þegar nýtt sönglagahefti kom hér á bókamarkaðinn rétt fyrir jólin, eftir einn af hinum yngri tónskáldum Íslands. Það eru "Fimm einsöngslög" eftir Sigurð Þórðarson í Rvík. Útgefandinn er Gunnar R. Paulson, 12 Stone Ave., Baldwin, L. I., N. Y., og er frágangurinn hinn prýðilegasti. Lögin hafa bæði íslenska og enska texta, svo hver getur sungið það málið, sem honum er geðfeldara. Þau eru líka öll á þægilegu raddsviði, og öll þess virði, að vera lærð og sungin.

# Ævisögubrot

**Eftir Björn S. Lindal**

---

Hinn 8. maí 1944 andaðist hér í bænum bændaöldungurinn Björn S. Lindal á þriðja árinu yfir nírætt. Hann lét eftir sig ævisögubrot það, sem hér fer á eftir og hann kallar fullu nafni "Ævisögubrot eftir langa göngu." Hann hleypur að mestu yfir æskuárin og getur til dæmis að engu systkina sinna. En ekkja hans, Svava, segir að hann hafi átt bæði alsystkini og hálfsystkini. Tveir bræður hans dóu hér vestra, Kristmundur á Gimli fyrir nokkrum árum og Lýður fyrir skemstu hér í Winnipeg. Líndals nafnið, segir hún, átti upphaflega að vera Lyngdal, eftir litlum dal í bygðarlagi hans heima. en áður en varði hafði það breytst, líklega vegna framburðarins, í Lindal. Þetta æviágrip er athyglisvert, meðal annars, vegna þess, að hér segir maður frá, sem sjálfur átti mikinn þátt í landaleit og nýlendu myndun á fyrri árum Íslendinga-bygðar hér vestra, auk þess sem það er látlaust í framsetning og skemtilegt aflestrar.—Ritstj.

Þegar eg varð níutíu ára gamall, 8. september 1941, leitaði hugurinn til æskustöðvanna; því hann hefir ávalt farbréf á reiðum höndum, og enginn getur hindrað ferð hans. Það leiddi til þess, að eg fór, mér til dægrastyttingar, að merkja hjá mér einstöku atriði, sem mér hafa verið minnisstæðust af minni löngu ævigöngu, þó ekkert sé viðburðaríkt, borið saman við þá sem hærra hafa komist í mannfélaginu, og meira hefir borið á og meira liggur eftir.



Eg er fæddur á Gautshamri við Steingrímsfjörð í Strandasýslu 8. september 1851. Foreldrar mínir voru Sæmundur Björnsson, Hjálmarssonar prests í Tröllatungu, og Guðrún Bjarnadóttir, ættuð úr sömu sýslu.

Þegar eg var um fermingaraldur var það í ráði, að mér yrði komið þangað sem eg gæti fengið tilsögn í læknisfræði, en þá dó faðir minn, og það breytti þeirri ákvörðun, því móðir mín þarfnaðist þeirrar litlu hjálpar, sem eg gat veitt henni við búskapinn þau sex árin sem hún bjó áfram á Gautshamri, eftir að faðir minn dó.

Þegar hún brá búi, flutti hún að Þambárvöllum í Bitrufirði til Jóns Bjarnasonar, sem þar bjó, og giftist honum síðar. Þangað fór eg með henni og var þar nokkur ár, eða þangað til eg losaði mig við vinnuhjúa

skylduna, og keypti lausamenskubréf af Sigurði Sverrisen, þá sýslumanni í Strandasýslu. Kostaði það 6 vættir á landsvísu að fá að vera frjáls maður. En fastaheimili þurfti eg að hafa, og var það á Þórustöðum í Bitrufirði. Á sumrin vann eg í kaupavinnu hjá Torfa í Ólafsdal, Eggert Jónssyni á Kleifum og fleirum, á haustin við fiskirí, og á vetrum við vefnað. Aldrei þurfti eg að vera iðjulaus — var það ekki heldur. 1875 gjörðist eg vinnumaður hjá Þorsteini Jónssyni á Broddanesi við Kollafjörð. Um vorið 1876 flutti Þorsteinn og Guðrún kona hans að Skriðunesenni, ytsta bæ norðvestan við Bitrufjörð. Haustið eftir, 1. des. 1877, vildi það slys til að eg lenti í skipreika á leið frá Broddanesi til Ennis. Á því skipi voru og húsbændur mínir, Þorsteinn og Guðrún, Matthías Jónsson, bróðir Guðrúnar, ung stúlka, sem hét Anna og unglingspiltur, Bjarni að nafni. Alt þetta fólk druknaði nema eg og Anna, henni gat eg bjargað, því örskamt var til lands. Skamt var heim til bæjar að Enni, en sorgleg var heimkoman. Þar voru tvær ungar dætur Þorsteins og Guðrúnar, og ekkja Matthíasar og tvö þeirra börn. Eg ætla ekki að skýra frá tilraunum mínum við að bjarga fleirum, sem þarna voru að berjast við dauðann. En svo mikið fékk það á mig, að eg lá veikur í marga daga á eftir. . . . Eg sá um búið á Enni til vorsins. Þá var á ferð vesturfara agent, Guðm. Guðmundsson frá Tjaldanesi, og var að sækja foreldra sína. Eg var þá óráðinn í hvaða átt eg ætti að leggja land undir fót á þessum alvöruþrungnu vegamótum. Réðu þá örlögin úrslitunum um það, svo eg ákvað, að flytja til Vesturheims í byrjun júlí 1878. Var ákveðið að skip kæmi til Borðeyrar við Hrútafjörð fyrir vesturfarana. En þá vildi það til, að skipið laskaðist á grynningum á leiðinni inn Hrútafjörð, og var ekki álitið hættulaust að flytja fólkið á því. Fólkið varð því að bíða í 10 daga eftir öðru skipi. . . .

Ferðin vestur yfir hafið gekk vel. Þegar til Toronto kom, skiftist fólkið; sumt fór til Bandaríkjanna, sumt til Manitoba. Eg ætlaði með fólkinu sem til Minnesota fór. En þar sannaðist máltækið: "Kongur vill sigla, en byr hlýtur að ráða." Eg átti þá aðeins 60 cent í buddunni. Í Toronto var íslenskur maður, sem Hjálmar hét, leiðsögumaður vesturfara. Hann réð mig hjá bónda skamt frá Toronto, sem Robert hét. Kaupið var 25¢ á dag og fæði. Þá stóð yfir sem hæst uppskera, og höfðu alvanir menn við það verk aðeins dollar á dag. Verkið var, að binda kornið með stráinu í smábindi, eftir að búið var að slá það með vélum. Þá voru engir sjálfbindarar þar. Tíu manns voru hjá Robert meðan á kornslættinum stóð. Eftir fyrstu vikuna bætti hann við mig öðrum 25 centum, án þess eg beiddi hann um það. Eg var þá farinn að geta mætt hinum í því verki, en oft varð eg að vinna ýmislegt á kvöldin, eftir að hætt var á akrinum, við að gefa fuglum og svínum, sem mikið var af, svo þurfti eg að læra að mjólka kýr — það hafði eg ekki lært á Íslandi — og eg varð hissa, þegar eg fyrst sá gamla Robert sitja á stól og mjólka eina kúna sína. Vænt þótti mér um að geta lært vinnubrögð, en vænna þó um hvert orð, sem eg gat lært í ensku máli. Fyrir þá sem hing-

að flytja var meira virði að kunna málið, en nokkrir dollarar, því það er ekki hægt að fleka það frá manni, eins og oft vill til um peningana.

Oft var mér kent um, ef eitthvað misfórst eða skemdist. Sérstaklega gerði einn vinnumaðurinn það. Til dæmis var hann eitt sinn að kljúfa við, og braut axarskaftið. Sagði hann að eg hefði gert það. En svo hittist á, að dóttir Roberts gekk framhjá, þegar hann braut það, og bar hún, að hún hefði séð hann brjóta skaftið. Talaði Robert óblíðlega til stráksins, og rak hann eftir nokkra daga.

Þegar kornsláttur var á enda og bindin orðin þur, byrjaði þreskingin, og svo plæging. Alt af voru nýjar lexíur fyrir mig að læra. Fækkaði þá vinnumönnum hjá Robert, og bauð hann mér, ef eg vildi ráða mig til ársvistar hjá sér, 200 dollara um árið. Það virtist vera gott kaup, eftir því sem þá gerðist. — Var eg þá í vandræðum, hvað eg ætti að gjöra. En þá kom þar norskur maður, sem búinn var að vera mörg ár í Ameríku. Við hann gat eg dálítið talað og skilið hann vel. Eg sagði honum að eg hefði ætlað til Minnesota, en ekki komist fyrir peningaleysi. Hann bauð mér að verða sér samferða, því þangað var ferð hans heitið. Hann kvað alla vinnu betur borgaða þar. Herti eg nú upp hugann og sagði Robert fyrirætlun mína. Mér skildist, að hann ekki lá mér, þó mig langaði til landa minna, og borgaði mér eins og til stóð. Var eg þá búinn að vera þar um þrjá mánuði. Kvaddi eg svo þessa góðu familíu með söknuði. Fólkið var alt saman valið í því, að stytta mér stundir og gera mér alt til geðs, og þó það hlæji að mér stundum, þá var það alt græskulaust.

Nú lögðum við af stað, eg og sá norski, sem kallaði sig Anderson. Ferðin gekk vel vestur, en þegar þangað kom var öll bændavinna búin. Réði eg mig þá hjá Guðmundi Guðmundssyni, sem var agent vesturfaranna, og áður er getið. Hann bjó þá skamt frá Minneota, þar sem flestir Íslendingar höfðu sest að. Þar var og fjöldi af norsku fólki líka. Eg réði mig þannig hjá Guðmundi, að eg fengi að vinna kvöld og morgna fyrir fæði, svo eg gæti gengið á skóla, sem norskur umferðakennari hélt hjá Eiríki Bergmann, sem bjó þar skamt frá. Á þann skóla gekk eg í þrjá mánuði til að læra ensku. Það var öll mín skólaganga. En raunar má segja, að maður sé í skóla lífsins alla sína ævi. Nokkru eftir að skólinn hætti, fór eg að vinna við járnbraut, sem þá var verið að byggja í gegnum Montana til gullnámanna í Black Hills. Þar vann eg þangað til að uppskera byrjaði í Minnesota. Réði eg mig þar hjá norskum bónda, og af því eg hefði ekki gleymt því, sem eg lærði hjá Robert gamla, hélt eg mig færan í flestan sjó, og heimtaði hæsta kaup, og fékk það — $3 á dag. Eftir uppskerutímann fékk eg járnbrautarvinnu. Deildarstjórinn (section foreman) sem var röskur maður og nokkuð vinnuharður, var gerður yfirmaður (Road Master), og bauð hann mér þá að verða section-formaður. En mér þótti það of bindandi og tók því ekki. Eftir ár hætti eg vinnu á brautinni, og tók að mér plægingu á 50 ekrum hjá bónda skamt frá Minneota. Þá kom það fyrir eitt kvöld, þegar eg var að skila hrossunum heim til

bóndans, að leið mín lá í gegnum þorpið. Gekk þá maður í veg fyrir mig, sem hafði stóra búð þar í bænum, og spurði mig hvort eg gæti talað norsku og íslensku. Eg játti því. Hann spyr mig þá hvort eg vilji vinna í búð hjá sér. Eg sagðist kunna of lítið í ensku. Hann sagði að það væru mest norskir og íslenskir búendur þar í kring. Nú var eg ekki búinn að plægja ekrurnar, en samt herti eg upp hugann, og lofaði að sjá hann seinna um kvöldið. Sagði eg nú bóndanum frá þessu tilboði búðarhaldarans. Hann sagði strax: Taktu þessu boði, þú getur lært mikið, við að kynnast verslunar sökum, ef ykkur semur. Eg fór svo um kvöldið að sjá búðarhaldarann, sem hét Seals, og sagðist skyldi reyna þetta. Það fyrsta, sem eg þurfti að gjöra, var að selja sjálfum mér ný föt. Nóg var til að velja úr. Hann hafði alskonar vörur, og í parti af búðinni hafði hann mikið af meðölum, því hann fékst töluvert við lækningar. En við það átti eg ekkert, nema þá patent-lyfin. Hann var oft í gripakaupum, og var þá kona hans líka í búðinni. Hún var hálf dutlungalynd, og fólki líkaði ekki að láta hana veita á sig. Mér féll hún ekki heldur.

Þegar eg var búinn að vera þarna hátt á annað ár, kom Helgi Jónsson, útgefandi Leifs. Hafði hann farið til Íslands, og var nú á ferð heim aftur til Winnipeg. Hann lét ekki bíða, að biðja mig að koma norður með sér. Hann ætlaði að byggja búð og byrja verslun, strax og hann kæmi heim, og bauð mér sama kaup og eg hafði, n.l. 50 dollara á mánuði. Þarna voru ein vegamótin fyrir mig að velja um, og þó gamla Seals væri ekki um að missa mig, þá lofaði eg þó Helga að koma, þegar hann væri búinn að byggja búðina, sem hann bjóst við að yrði seint í október. 1882 fór eg til Winnipeg. Búðin var þá ekki full smíðuð, og vann eg við ýmsa byggingarvinnu þangað til Helgi var búinn með búðina og farinn að versla. Eftir liðugan mánuð hjá Helga, lagðist eg í taugaveiki, sem þá geisaði í Winnipeg. Var mér lengi vel ekki ætlað líf. Á meðan seldi Helgi verslun sína enskum manni, og byrjaði aðra verslun á horninu á Isabella og Notre Dame strætum. Þegar mér fór að batna byrjaði eg aftur að vinna hjá Helga, og var þar í nærri tvö ár. Þá seldi hann verslunina. Mörg bréf fékk eg frá gamla Seals í Minneota um að koma til sín aftur, og bauð að borga fargjald mitt. En nú voru kringumstæður mínar breyttar, svo eg gat ekki tekið boði hans.

9. nóvember 1883 giftist eg Svövu Björnsdóttur Skagfjörðs og Kristrúnar Sveinungadóttur konu hans.

1885 ferðaðist eg vestur að Kyrrahafi, til Victoríu á Vancouver-eynni. Samferða mér voru þau hjón Haraldur Olson og kona hans, unglingspiltur, sem Ólafur hét og Mrs. Morris. Þó eg færi þá ferð á minn kostnað, var hugmyndin, að líta eftir nýlendusvæði fyrir Íslendinga, þar sem þeir gætu sest að sem sérstakur þjóðflokkur líkt og í Nýja Íslandi við Winnipeg-vatn. Þetta var áður en C. P. R. járnbrautin var lögð vestur að hafi, svo við urðum að fara suður til Bandaríkjanna og vestur Montana til Seattle og svo á skipi til Victoria. Eg hafði hugsað mér, að fara alla leið norður á enda eyjarinnar, sem mér var sagt að væri um 300

mílur. Tveir menn frá Boston ætluðu að verða mér samferða. En þegar við höfðum farið 200 mílur norður til Comox, vildu samferðamenn mínir ekki fara lengra, því þá lá ekki annað fyrir en að kaupa Indíána til að flytja okkur, svo við snérum aftur. Á þessari leið var ekki um nýlendusvæði að tala í stærri stíl. Svo fór eg til Vancouver og norður eftir ströndinni æði langt. Þar var ekki um stórt svæði að tala heldur. Svo kom nú annað til greina: Þarna var ekki um atvinnu að ræða á þeim dögum fyrir hvíta menn. Kínverjar og Indíánar gengu fyrir með alla vinnu. Á laxfaktoríinu í Vancouver unnu, til dæmis, 200 manns — alt Kínar, nema yfirmennirnir. Hjá heldra fólkinu voru þeir barnfóstrur og matreiðslumenn. Að öllu þessu athuguðu, sá eg ekki hyggilegt, að eggja Íslendinga á að flytja vestur, undir þeirra kringumstæðum. Þó fallegt væri víða útsýnið við hafið, þá var ekki hægt að lifa á því eingöngu. Eg dvaldi í Victoríu þangað til í nóvember, og fékk vinnu við að rífa niður stóra steinbyggingu. Alt voru það Kínar, sem unnu þar, nema eg, og var það leiði hópurinn, og alveg drepandi af þeim svitalyktin. Eg átti eiginlega að sjá um verkið, þegar verkstjórinn var ekki viðstaddur.

Nokkru eftir að eg kom heim úr þessari ferð, keypti eg mér hest og vagn, og tókst á hendur að flytja húsbúnað og selja eldivið.

Um þetta leyti voru margir Íslendingar farnar að hugsa til landbúnaðar. Framfarafélagið var þá við líði meðal Íslendinga, og fyrir áhrif Freemans Bjarnasonar (Freeman B. Anderson, fyrsti ritstjóri Heimskringlu) fór það fram á við stjórnina, að litast um eftir nýlendusvæði fyrir Íslendinga. Þetta leiddi til þess, að við Freeman vorum kosnir til þessarar ferðar. Fyrsta ferð okkar var vestur í Qu'Appelle-dal. Þar var töluvera af landi upptekið. Önnur ferð var farið til Moose Mountains — seinna kölluð Pipestone nýlenda. Þar voru skóglausar eyðisléttur, léttur jarðvegur og nokkuð grýttur, — engin von um járnbraut og langt að leita atvinnu, sem landnemar þurftu í byrjun búskapar. Um hana var ekki að tala nær en í Winnipeg. Mjög lítið var af slægjulandi þarna. Freemanni leist vel á þetta pláss. Hann hugsaði meira um akuryrkju, en blandaðan búskap, sem byrjaði með griparækt. En það útheimti heyskaparland, frekar en akuryrkjuland. Þriðju ferðina fórum við norður með Manitoba-vatni og víða austur frá því, alla leið norður í township 22. Alt það svæði var þá þurt og grasið afskaplega mikið um allar lægðir. Skógarbelti voru víða, til að byggja úr bjálkakofa í bráðina og til eldiviðar. Um þetta leyti var verið að byggja H. B. brautina. Var hún lögð 40 mílur frá Winnipeg norður til Harperville, og átti hún að liggja að vestan verðu við Grunnavatn, alla leið til Hudson-flóans. Á þetta pláss leist mér vel. Héðan var hægt að sækja vinnu til Winnipeg, sem þá var töluverð, við byggingar og skurðagröft.

Eftir alt þetta ferðalag var fundur haldinn í Framfarafélags húsinu, og gjörðum við Freeman grein fyrir ferðalagi okkar. Eg hélt fram minni hugmynd um griparæktina, en Freeman var með akuryrkjunni. Nú fóru

nokkrir landar að skoða þetta svæði norður á milli vatnanna. Mig minnir að Jón Sigfússon væri sá fyrsti eða með þeim fyrstu, sem tók þar land. Fljótt fjölgaði landnemum þar, og var bygðin skírð Álftavatns-nýlenda. Fjöldinn af þeim, sem fyrst fluttu út, settust að á svæðinu þar sem nú er Lundar-bær og nokkrir þar norðaustur frá. Um haustið 1890 flutti eg með konu mína og þrjú börn út þangað og vorum til húsa hjá Árna Freeman, sem numið hafði land norðaustur af Lundar. Nú voru þarna sestir að margir búendur. En eins og áður er skýrt frá, var það Freeman Bjarnason og Framfarafélagið sem komu því til leiðar, að stjórnin lagði til leiðsögumann og hesta, og stóð allan kostnað af þeim leiðangri. Má því óhætt telja, að það hafi verið fyrstu tildrögin að því, að sú nýlenda myndaðist.

Fjölda landnemanna flutti eg út í nýlenduna áður en eg fór þangað sjálfur, og voru þær ferðir ekkert spaug. Menn urðu að vaka til skiftis til að halda við reyk fyrir skepnurnar; flugnavargurinn var svo voðalegur.

Nú þegar hér var komið og menn voru búnir að byggja sér bráðabirgðar kofa, versnar útlitið og vonirnar bregðast, eins og oft vill verða. Vatn fór að flæða yfir alt láglendi, svo ekki var útlit fyrir, að menn gætu náð upp heyjum fyrir þær fáu skepnur, sem þeir áttu. Allir, sem þarna höfðu sest að, urðu því að flytja þaðan inn að Grunnavatni (Shoal Lake). Þar var mikið af óteknu landi, beggja megin við vatnið. Aðeins einn búandi, Ísleifur Guðjónsson, flutti lengra austur og bjó þar nokkur ár.

Af þessum flokki landnemanna myndaðist Grunnavatns nýlendan, svo nú verður umtalsefni mitt um hana, því þangað flutti eg einnig og bjó þar í 31 ár, og blandast inn í þá frásögn brot úr ævisögu minni, því mörg eru vegamótin þeirra, sem langa ævi eiga að baki.

Nú vöknuðu nýjar vonir hjá bygðarbúum um framtíðina, því nógan heyskap var að fá, fiskur var í vatninu, andir syntu í hópum, og dýrin þutu um skóginn. En brátt kom breyting á alt. Nú fór að hækka í vatninu, og það svo, að vandræði urðu að ná nægilegu heyi handa þessum fáu skepnum sem menn áttu. Svo kom annað fyrir, sem engum datt til hugar að brygðist. Hætt var við, að leggja H. B. brautina. Það hafði, að sagt var, aðeins verið svívirðilegt pólitískt bragð í tilefni af kosningum, sem þá stóð til að færu fram.

Óðum hækkaði í vatninu, og meiri vandræði urðu með heyskap. Var nú þingmannsefnið, sem var að sækja um kosningu, beðinn að fá stjórnina til þess að rannsaka, hvert ekki væri gjörlegt, að grafa skurð í gegn um Woodland-sveit og suður í Assiniboine-ána, því þangað væri nógur halli. Þingmannsefnið lofaði því, og var einhver mæling gjörð, og skurður grafinn vestur í Manitoba-vatn. Sá skurður þurkaði votlendið milli vatnanna, en hafði engin áhrif á Grunnavatn. En nú tók náttúran við — og vatnið fór að lækka, svo engin vandræði urðu með heyföng. Fór þá búskapurinn að lifna við, og ekki leið á löngu, að öll lönd voru numin beggja megin vatnsins og þar út frá. Öllum fór að líða betur, þó margir erfiðleikar ættu sér stað hjá þessum

frumbyggjum eins og öðrum brautryðjendum í þessu landi. Þess má geta að margir Ný-Íslendingar fluttu sig til Grunnavatns-bygðar.

Nú voru skólahéruð mynduð, 3 skólahús bygð, þrjú pósthús veitt, stórt samkomuhús bygt austan við vatnið, lestrarfélag með mjög vönduðum bókum sett á stofn, tvær kirkjur bygðar og tvö kvenféög mynduð, sem tilheyrðu kirkjunum. Með sanni má segja, að þó mismunandi skoðanir ættu sér stað bæði í kirkjumálum og pólitík, þá unnu þó þessi félög, og bygðarmenn í heild, sem bræður og systur að öllum velferðarmálum bygðarinnar. Þegar alt það, sem áður hefir verið skýrt frá, var komið í lag og bændur búnir að eignast nokkra gripi og nauðsynlegustu áhöld og farnir að búa að sínu án þess að fara í vinnu langt frá heimili sínu, mátti heita að gullöld ríkti meðal Álftvetninga og Grunnvetninga. Nú voru líka unglingar farnir að hjálpa mikið til við heimilisstörf.

En þá skall stríðið á 1914 og hervaldið heimtaði alla uppkomna syni frumbyggjanna á vígvöllinn, sem færir voru í þann hildarleik. Urðu þá margir bændur að fækka við sig gripum, og hafa minna um sig. Margir seldu lönd sín og fluttu sumir til Lundar og sumir til Winnipeg.

Eg seldi lönd mín og skepnur og flutti til Winnipeg í janúar 1922, og tók hús sem partborgun fyrir landið og skepnurnar, sem þá voru fáar orðnar, og þótt skrykkjótt gengi, að ná því, sem eftir stóð, kom eg nokkurn veginn vel út með söluna.

Þessi 31 ár, sem eg dvaldi í Grunnavatnsbygð ásamt konu minni, sem trúlega hefir staðið við hlið mína og stutt mig í gegnum alla okkar erfiðleika til þessa dags, vann eg auk búskaparins að ýmsum opinberum störfum. Eg gegndi Markland pósthúsi frá því það var stofnað, hafði á hendi skólahéraðs skrifstörf og skattheimtu frá því að skóli var bygður — hvorttveggja þangað til eg flutti frá Markland. Var þá búið að byggja nýtt skólahús. Einnig keyrði eg póst í 17 ár einu sinni í viku um 36 mílur, þó nokkru styttra síðustu árin. Við þessi störf vakti eg margt kvöldið, oft þreyttur eftir dagsverkið. Eg ætla ekki að greina frá þátttöku minni í félagsmálum Grunnvetninga, en mér til mestu ánægju get eg sagt, að hlýjustu handtökin fæ eg hjá þeim, þegar þeir líta inn til okkar.

Eg hefi nú stiklað á steinum og stokkið yfir marga keldu, og sniðgengið margt, sem vel hefði mátt greina frá og fyrir mig hefir komið á minni löngu ævibraut. Eins og fyr er getið, fluttum við út í Álftavatnsnýlendu með þrjá syni okkar, þann yngsta á fyrsta ári, og svo árið eftir til Grunnavatns (1891). Meðan við dvöldum á Markland, fæddust okkur fjögur börn, tvær stúlkur og tveir drengir. Önnur stúlkan dó níu ára gömul, var hún búin að liggja veik í fimm ár í ólæknandi sjúkdómi, blind, mállaus og máttlaus. Til sérfræðinga var leitað og alt reynt, sem mögulegt var, en ekkert dugði. Eg var þá í Winnipeg-ferð, og þegar eg kom heim og var sagt að hún væri dáin, lofaði eg guð í huganum fyrir að hún var búin að fá hvíld. Hin sex börnin ólust upp á Markland, þangað til að því kom, að þau fýsti að sjá fleira en

um var að ræða í kringum bjálkakofana þar, sum til að ná hærri mentun og sum til að vinna upp á sínar eigin spítur.

Kunningi minn spurði mig, hvar mér hefði best liðið, eða best kunnað við mig, síðan eg kom til þessa lands. Svaraði eg þá með þessari vísu:

Lék þá flest við æðri óm,
yndi kjörin sýndu,
meðan ungu börnin blóm
við bjálkakofann tíndu.

Já, meðan þau voru öll heima, og léku sér að blómum náttúrunnar, höfðu ánægju af að hlusta á margraddaða fuglasönginn, draga að sér svala morgunloftið og horfa á daggarperlurnar, sem glitruðu á trjánum í sólargeislunum — áður en þau fóru út í lífið. Þannig er áframhald lífsins á jörðunni.

Síðan við fluttum til Winnipeg, hafa einnig skiftst á skin og skuggar. Í maí 1933 mistum við 2 syni okkar, Leif Columbus og Luther Melankton, með aðeins 10 daga millibili. Columbus dó hér í Winnipeg, eftir langa sjúkrahússlegu, Luther dó snögglega norður á Winnipegvatni. Báðir þessir synir okkar voru giftir. Columbus skildi eftir konu og þrjú börn, Lúther ekkju og sjö börn. Nú eru aðeins fjögur börn okkar lifandi: Carl Franklin, á Langruth, Manitoba; Georg Fjölnir, á Íslandi (búinn að vera þar í 13 ár); Hjörtur Björn, Indiana, U. S. og Laufey Svava í Winnipeg. Öll eru þau gift, nema Fjölnir. Við höfum ekki farið varhluta af sorginni, en eitt megum við þó vera þakklát fyrir: Ekkert af börnum okkar hefir lent í vondum félagsskap, og eru þau öll vel virt af þeim sem þau hafa kynst, og er það mikilsvert, því ekkert er sorglegra en að missa börn sín út í vondan félagsskap.

Fyrst eftir að eg flutti til Winnipeg vann eg að ýmsu, mest við byggingar, og umbætur á húsum, mínum og annara. En svo kom að því, að eg varð að hætta vinnu fyrir vanheilsu og elli sakir, og þegar þau hjónaleysin leggjast á eitt, þá fer lífið að verða þreytandi. Þessi staka datt mér í hug rétt núna:

Eftir langvint æviskeið,
er það gömul saga,
að ellin verði öllum leið
og öðrum helst til baga.

Enn, sem komið er, lifum við á okkar eigin sveita, í okkar eigin húsi, sem dóttir okkar leigir. En svo er nú að því komið, að tvisvar verður gamall maður barn. Og þar sem eg nú er níutíu og tveggja ára, eða því sem nær, hlýtur að vera skamt að hinstu vegamótum, sem eru þau alvarlegustu vegamót allra dauðlegra manna, og draumsjón þeirra ofvaxið, að vita með vissu, hvað þá tekur við; því vonin er aðeins draumur vakandi manns. En með reynslunni verður sú gáta ráðin, eins og alt annað.

# Tveir dómarar



J. T. Thorson



H. A. Bergman

Í tuttugasta og þriðja árgangi þessa *Tímarits* er þess atburðar að nokkru getið, er Íslendingur var í fyrsta sinn skipaður í dómarastöðu hér í Canada. Á eg þar við héraðsdómara W. J. Lindal. Síðan hefir atvikum svo skipast að tveir aðrir Íslendingar hafa hlotið dómarasess.

Í sama hefti var og greinarstúfur í tilefni af því að Joseph T. Thorson var tekinn inn í King-ráðuneytið í Ottawa. Var þar fremur óspámannlegum getum leitt að pólitískri framtíð hans. Hann tók við ráðherra stöðunni í júnímánuði öndverðum 1941, en rúmu ári síðar er honum smeygt út úr ráðuneytinu. Kom mörgum vinum hans það á óvart. En í ljós seinni tíðar atburða verður það ekki eins óskiljanlegt.

Hinn 6. okt. 1942 er hann svo skipaður yfirdómari í fjármálarétti Canada (Exchequer Court), og er það líklega hin hæsta dómarastaða, sem nokkrum Íslendingi hefir hlotnast hérna megin hafsins. Vitanlega voru þetta góð skifti fyrir pólitíska hræri grautinn í Ottawa. Enda mun hugur hans jafnan hafa hneigst í þá átt.

Að þessu sögðu vísa eg til áðurnefndrar greinar um Thorson yfirdómara í *Tímaritinu*.

★

Ekki hefir getað hjá því farið, að mörgum hafi þótt stjórnarvöld þessa lands, (og er þá ekki átt við neinn einstakan pólitískan flokk) upp til þessa tíma treg í því að gjöra Íslendingum jafnt undir höfði og t. d. Skotum og Frökkum, þegar um hærri embætta veitingar hefir verið að ræða. Og það hefir jafnvel komist inn í meðvitund vora, að landinn þyrfti að vera býsna miklum mun

betri maður og færari, til þess að geta öðlast samskonar viðurkenningu. Þessvegna, ef til vill, verður vanalega meiri gleði á meðal vor, þegar einhver úr vorum hópi fær verðskuldaða viðurkenningu hér í Canada, en t. d. sunnan landamæranna, þar sem Íslendingar þó hafa engu síður skipað, og skipa enn, virðulegar og ábygðarmiklar stöður. Þar er það fólkið sjálft, sem skipar embættin með kosninga-atkvæðum sínum. Og fólkinu má oftar treysta til þess, að koma auga á sína atkvæðamestu menn fyr, en íhaldssömum stjórnarvöldum, sem auk þess hafa í mörg horn að líta.

★

Þegar sæti rýmdist í áfrýjunarrétti Manitoba (Court of Appeal) á síðastliðnu vori, var þriðja Íslendingnum veitt dómarastaða í Canada. Það var á mánudaginn 9. maí 1944, að Hjálmar A. Bergman K.C., opnuðust hinar nýju dyr inn að dómstólnum, og mun vinum hans, og þjóðbræðrum yfirleitt, ekki hafa þótt of langt til lokunnar seilst; því bæði var hann einn meðal hinna lengst starfandi lögfræðinga þessa fylkis, þótt aldurinn sé ekki ýkjahár, og svo hefir hann um langa tíð gegnt margvíslegum trúnaðarstörfum, auk hinna venjulegu lögmannsverka.

Bergman dómari fæddist að Garðar í Norður Dakota árið 1881, og er því rúmlega sextugur. Foreldrar hans voru þau Eiríkur H. Bergman og kona hans Ingibjörg f. Thorlacíus, merkishjón, bæði af góðum norðlenskum ættum. Mentun sína hlaut hann fyrst í Luther College, Iowa, og síðar í lögfræðideild Norður Dakota háskólans. Stundaði hann fyrst lögmannsstörf þar syðra, en flutti brátt norður yfir landamærin, og hélt áfram lögfræðisnámi hér í Winnipeg. Fékk hann fult lögmannsleyfi í Canada árið 1908 og gerðist meðlimur í lögfræðingafélagi með Thos. H. Johnson, síðar ráðherra í stjórn Manitoba-fylkis. Alt fram að þessu hefir hann stundað lögmannsstörf undir því nafni, og verði í miklu áliti innan félagsskapar lögfræðinga. Árið 1920 var hann nefndur K.C. (konunglegur málafærslumaður), og um langan tíma hefir hann verið í stjórn lögmanna samkundunnar og einnig í forsæti hennar.

Síðan 1933 hefir hann setið í stjórnarráði Manitoba háskólans, vara-formaður í mörg ár, og nú síðast forseti þess. Væntir maður mikils góðs af því í hærri mentamálum fylkisins, þar á meðal, að hann beiti sínum alkunnu lögmannshæfileikum og víðsýni til þess, að menta og opna svo augun á mentamálaráði fylkisins, að það sjái sér fært að stofna háskólastól í íslensku og norrænum fræðum, án þess að Íslendingar múti þeim til þess með því, að standa einir allan straum af því. Eldri og merkari háskólum hefir fyrir löngu skilist, að norræn tunga er nauðsynleg fyrir víðara nám enskunnar einnar, auk annars menningarverðmætis, er því námi fylgir. Að dómarinn hafi sterkan áhuga á, að koma þessu á rekspöl, efast víst enginn um, að minsta kosti ekki sá, er þetta ritar, eftir að hafa hlustað á stutta hugvekju frá honum um þetta efni fyrir skemstu.

Að allra sögn, sem til þekkja, er Bergman dómari víðlesinn og vel mentaður maður, auk lögfræðinnar.

löngum, að djúp skilur drauma og athafnir vor mannanna barna.

En því hefir þessi félagsskapur vor lifað og dafnað fram á þennan dag, að hann hefir frá byrjun átt mikil ítök í hugum almennings, þó eigi hafi allir séð eða skilið til fulls nauðsyn hans eða hlutverk. En ánægjulegt er að geta sagt það á þessu afmælisþingi, að félagið hefir undanfarið átt vaxandi vinsældum að fagna; spáir það góðu um framhaldsstarf þess, ef vel og drengilega er á málunum haldið og hvergi hvikað frá settu marki. Hitt má þeim aldrei gleymast, sem þar er forusta falin, eða félagsmönnum í heild sinni, að sem víðtækastur góðhugur almennings er það bjarg, sem heill félagsins og framtíð byggist á um komandi ár.

En jafnframt því, sem á það er minst, að það var með almennum samtökum Íslendinga hér vestra, að allsherjar Þjóðræknisfélag þeirra var stofnað fyrir 25 árum síðan, er oss einnig skylt að minnast þess með þakklátum huga, að oss voru þá, eins og svo oft síðar, réttar bróðurhendur til styrktar heiman um haf, því að samtímis var stofnað heima á Íslandi, til samvinnu við hið nýstofnaða félag vort hérna megin hafsins, félagið "Íslendingur", sem margir fremstu og ágætustu menn heimaþjóðarinnar stóðu að. Létu þeir eigi lenda við orðin tóm um samvinnuna við oss, því að þegar á næsta hausti sendu þeir hingað vestur til fyrirlestrahalda um íslensk menningar- og þjóðræknismál hinn snjallasta og prýðilegasta mann, þar sem var séra Kjartan Helgason, er sjálft Alþingi Íslands hafði styrkt til fararinnar. Varð og sú raunin á, að hann fór hina mestu sigurför um íslenskar bygðir hérlendis og aflaði félagi voru og málstað þess trausts og vinsælda með komu sinni.

Sagan endurtekur sig, segir orðtakið. Sannast það eftirminnilega og fagurlega á oss þjóðræknismönnum á þessu þingi félags vors. Á aldarfjórðungsafmæli þess, rétt eins og við stofnun þess, hafa oss verið réttar örlátar bróðurhendur til samtaka og hvatningar heiman yfir hið breiða haf. Ríkisstjórn Íslands hefir sýnt oss mikinn virðingarvott og vinsemdar með því að senda oss á þessum tímamótum, sem fulltrúa sinn og íslensku þjóðarinnar, annan mikilhæfan og ágætan kirkjunnar mann, að þessu sinni sjálfan biskupinn yfir Íslandi, herra Sigurgeir Sigurðsson. Bjóðum vér hann hjartanlega velkominn á þing vort og í vorn hóp, og vonum, að dvöl hans vor á meðal verði honum sem ánægjulegust í alla staði.

Á þessum slóðum búum vér löngum við vetrarríki mikið og er því þörf sumarauka. Vitum vér, að koma Sigurgeirs biskups verður oss slíkur sumarauki í öllum skilningi, efling bræðrabandsins yfir hafið og vakning í þjóðræknismálunum. En hann er oss áður að góðu kunnur, meðal annars af einkar hlýlegu samfagnaðarskeyti, er hann sendi oss á 20 ára afmæli félags vors og þá eigi síður af hinni fögru og drengilegu jólakveðju, er hann sendi oss á hljómplötu, og fann hún þann hljómgrunn í hjörtum vorum, að flestum mun enn í fersku minni. Vona eg einnig og veit, að hinum virðulega gesti muni reynast íslensk gestrisni enn svo vel lifandi og hjartaheit í bygðum vorum, að hann finni eigi um of til vetrarkuldans, þó að svalan kunni um hann að næða hér á víðfeðmu sléttuhafinu.

★

Af þeim sjónarhól, er vér nú stöndum á, aldarfjórðungsafmæli félagsins, verður oss að vonum litið um öxl yfir farinn veg. Á slíkum stundum verða eyru vor næmari á þyt líðandi tíðar og raddir liðinna ára. Líkt og mynd á tjaldi rennur viðburðarík saga félags vors fram fyrir hugskotsaugum vorum og gæðist lífi og litum. Verður oss sérstaklega staðnæmst við þá menn og þær konur, sem á undan oss gengu og ruddu oss veg "til áfangans þar, sem vér stöndum." Minnumst vér með djúpri virðingu og einlægu þakklæti foringja vorra, sem þögul moldin geymir, hinna mikilhæfu forseta félags vors, þeirra séra Rögnvaldar Péturssonar, séra Jónas A. Sigurðsson og séra Ragnar E. Kvaran, er jafnan

munu heiðursrúm skipa í sögu þess. Rík verður oss einnig í hug minningin um hinn ágæta samherja, Árna Eggertsson, er öllum öðrum lengur hafði átt sæti í framkvæmdarnefnd vorri, er hann féll að velli. Ógleymdir eru oss einnig hinir mörgu aðrir góðu samstarfs og stuðningsmenn og konur, er búa hinstu hvílu í skauti jarðar, en eigi eru tök á að nefna með nafni. Um nöfn þeirra má þó með sanni segja, að "þjóðin mun þau annarsstaðar finna", því að þau eru skráð á söguspjöldum félags vors, í félagatali þess og þingtíðindum, og þó enn betur og varanlegar í þakklátum hugum samferðamannanna.

Sæmir oss jafnframt að minnast þeirra félagssystkina, sem látist hafa á síðasta starfsári. — Meðan þjóðræknisþingið stóð yfir í fyrra, lést séra Guðmundur Árnason, sem komið hafði við sögu félags vors frá byrjun; hann var ritari undirbúningsnefndarinnar að stofnun félagsins og einnig ritari stofnþings þess, og hafði æ síðan reynst oss hinn ágætasti starfsbróðir og stuðningsmaður, og einhver hinn allra nýtasti maður á þingum félagsins. Er oss því mikill söknuður að honum, eins og vara-forseti félags vors, séra Valdimar J. Eylands, tók réttilega og fagurlega fram í minningarorðum í nafni félags vors við jarðarför hans. Stuttu eftir þingið lést Bjarni Dalman, kaupmaður í Selkirk, sem um skeið átti sæti í stjórnarnefnd félags vors, verið félagsmaður þess og velunnari frá byrjun og setið fjölda mörg þing þess. Aðrir félagsmenn og konur, sem látist hafa á árinu, eru þessi, samkvæmt upplýsingum frá Guðmann Levy, fjármálaritara: Dr. Magnús B. Halldórsson, Winnipeg; Eysteinn Árnason, skólastjóri í Riverton og um eitt skeið forseti þjóðræknisdeildarinnar þar; Mrs. Guðrún Björnsson, Riverton; Árni Magnússon, Hallson, N. Dak.; Sveinn G. Northfield, Mountain, N. Dak.; Kristín Hinriksson, Churchbridge, Sask.; Guðrún Mýrmann, Winnipeg; Fanney Blöndahl, Winnipeg; Gunnar Helgason, Hnausa; Björg Thorsteinsson, Selkirk; Kristján Stefánsson, Winnipeg; Ingi Stefánsson, Winnipeg; Bjarni Thorsteinsson, Winnipeg; Málfríður Eastman, Grafton, N. Dak.; Þorsteinn J. Gauti, Wynyard, Sask.; Árni Thorfinnson, Mountain; Jón Jónsson, Riverton og Lilja Freeman, Cavalier, N. Dak.

Er með fráfalli þeirra stórt skarð höggvið í starfslið vort og íslenskt félagslíf í landi hér. Af heilum huga þökkum vér þeim trúmenskuna og stuðninginn við félagsmál vor og vottum skyldmennum þeirra innilega samúð vora.

★

Römm er sú taug,
sem rekka dregur
föðurtúna til.

Óvíða hafa þau spöku orð sannast betur en á Íslendingum í Vesturheimi; ættjarðar- og átthagaást þeirra hefir fundið sér framrás í fögrum og tilfinningaheitum kvæðum og sögum. Og sú ást er eigi síður ljósu letri skráð í þjóðræknisbaráttu þeirra, sem nú á sér 70 ár að baki, því að segja má, að hún sé jafnaldra meginlandnámi þeirra hér í álfu. Verða rætur hennar raktar til hinna söguríku þjóðminningarhátíðar Íslendinga í Milwaukee, 2. ágúst 1874, fyrstu slíkrar hátíðar og íslenskrar guðsþjónustu vestan hafs, samhliða stofnun fyrsta Íslendingafélags í landi hér samtímis. Hugsjón þeirrar þjóðernis- og þjóðræktarhreyfingar verður aldrei færð í kröftugri eða markvissari orðabúning heldur en séra Jón Bjarnason gerði í máttugri hátíðaprédikun sinni við það tækifæri, og þó aðstæðurnar séu breyttar, á sú lögeggjan enn brýnt erindi til vor: "Hver, sem gleymir ættjörðu sinni eða þykist yfir það hafinn, að varðveita það af þjóðerni sínu, sem gott er og guðdómlegt, af þeirri ástæðu að hann er staddur í framandi landi og leitar sér þar lífsviðurværis, það gengur næst því að hann gleymi guði. Það er stutt stig og fljótstigið frá því að kasta þjóðerni sínu til þess að kasta feðratrú sinni."

Eins og fleiri vitrum mönnum, skildist séra Jóni það, að mjótt er milli þjóðrækni og trúrækni, eða eins og Davíð

Stefánsson skáld frá Fagraskógi orðaði það í hinu stórbrotna kvæði sínu "Norræn jól":

og allir þeir, sem guði sínum gleyma
þeir glata fyrstir sinni þjóð.

Þjóðræknisaldan, sem reis í Milwaukee fyrir 70 árum síðan, hjaðnaði aldrei með öllu, en hófst á ný í ýmsum myndum víðsvegar í bygðum Íslendinga, hæst og varanlegast með stofnun Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi fyrir aldarfjórðungi síðan. Stóð félagið því í reyndinni á gömlum merg, enda sýndi það sig, að hugsjónir þær, sem það hefir frá upphafi helgað starfsemi sína — varðveislu og ávöxtun íslenskra eðliskosta og menningararfs vors — sló á næma strengi og djúpstæða í brjóstum fjölda manna og kvenna.

Á þessum tímamótum fer vel á því, að vér rifjum upp fyrir oss stefnuskrá félagsins og leggjum oss á ný á hjarta þær skuldbindingar, sem hún felur í sér; en vitanlega er henni ætlað annað hlutverk og veglegra heldur en að vera dauður bókstafur. — Hún á að vera áttaviti vor í þjóðræknisstarfinu.

Samkvæmt fyrstu málsgrein hennar, stefnir félagið að því marki, "að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi." Þessi grundvallar-málsgrein í lögum félagsins verður raunhæfari og gildi hennar enn auðsærra í ljósi þeirra miklu krafa og kvaða, sem örlagaþrungin samtíð og lönd þau, sem vér búum í og eigum þegnskuld að gjalda, leggja oss á herðar. Enda sæmir oss það eitt, íslenskum mönnum, sem eru "farmenn og synir hins frjálsborna anda", að vera jafnan:

í brjóstfylking þeirra manna,
sem hatast við illvígt aldarfar
en unna því rétta og sanna,
og elska mest hin ónumdu lönd og
kanna.

Svo að eg taki að láni nokkrar ljóðlínur úr fögru minningarkvæði eftir Einar P. Jónsson skáld um vestur-íslenskan hermann, sem nýlega féll í frelsisstríði því hinu mikla, sem nú er háð í heiminum.

Annars er framangreind málsgrein laga félags vors prýðilega skilgreind í ritgerðum þeirra dr. Rögnvaldar Péturssonar og séra Guttorms Guttormssonar í fyrsta árgangi **Tímarits** þess. Leggja þeir báðir réttilega áherslu á það atriði, að það sé meir en þegnhollustan ein við hið nýja land, þó sjálfsögð sé og mikilvæg, sem hér er um að ræða; menn verða að leggja eitthvað á borð með sér, menningarlega talað, til þróunar þjóðarinnar, sem þeir eru orðnir hluti af, annars geta þeir illa hlutgengir talist. Séu þeir snauðir að veraldlegum auði, skyldu þeir minnast orðanna ódauðlegu: "Silfur og gull á eg ekki, en það sem eg hefi, það gef eg þér." Er þar í þessu sambandi átt við þá menningarauðlegð og þann hugsjónaarf, sem Íslendingar hafa af erfðum þegið. Af þeim auði andans og manndómsins ber þeim að miðla sinni nýju þjóð sem örlátlegast.

Á þann streng sló dr. Sigurður Nordal í hinni ágætu og vekjandi ritgerð sinni í **Tímariti** voru um "Framtíð íslenskrar menningar í Vesturheimi", sem tala ætti sérstaklega til vor á þessum tímamótum: "Eg efast ekki um, að sú verði raunin á, að virðing hinna íslensku ætta í vestrænu þjóðlífi verði því meiri, sem þær varðveita betur sjálfsvitund sína og erfðamenningu. Og þegar er eg segi **varðveita**, á eg ekki einungis við vörn, heldur líka sókn. Íslendingar vestra búa enn yfir menningararfi, sem það er heilög skylda þeirra við sitt nýja fósturland að gera lifandi þátt í þeirri menningu, sem þar er að skapast. Enda verður sú arfleifð svo virkust eign þeirra sjálfra, að þeir verði ekki einungis geymandi heldur líka veitandi."

Hinar tvær málsgreinar stefnuskrár Þjóðræknisfélagsins eru svo hin nauðsynlega undirstaða og túlkun hinnar fyrstu, viðleitninnar að verða sem bestir og gjöfulastir borgarar landi sínu, en þær málsgreinar eru á þessa leið: "að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi" og "að efla samúð og

samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan."

Að sjálfsögðu geta menn eigi orðið hinu nýja landi veitandi í menningarlegum skilningi, nema þeir hafi tileinkað sér menningararfleifð stofnþjóðar sinnar, varðveiti þá menningu og geri hana ávaxtaríka í lífi sínu, en í þeim menningararfi felst bæði tunga, bókmentir og saga þjóðarinnar, er allar spegla hina sérstæðu lífsreynslu hennar, hugsjónir, sál og einstaklingseðli.

En þegar eg hugsa um lífrænt eðli og þroskamátt dýrkeyptrar menningar þjóðar vorrar, kemur mér í hug íslensk berglind. Vér, sem fædd erum og uppalin á Íslandi, minnumst slíkrar lindar, er fyrir oss varð á ýmsum stöðum í hlíðum og fjöllum uppi, og sérstaklega munum vér hversu hrein slík lind var og tær, og hversu hressandi svaladrykk var þar að finna sárfættum smala eða langferðamanni. Í andlegum skilningi er jafn hressandi svaladrykk að finna í orðlist og auðlegð íslenskrar tungu og hinum ágætustu bókmentum Íslendinga að fornu og nýju, ekki síst fornsögum vorum.

Um tigna tungu vora farast dr. Guðmundi Finnbogasyni þannig orð í ritgerð sinni "Hreint mál": "Íslenskan lyftir öllum börnum sínum á sama sjónarhól og gefur hverjum, sem kann að þiggja, alt það mannvit, sem í hann hefir verið lagt á liðnum öldum. Hún gefur svo gott skygni yfir aldirnar af því að hún er svo hrein."

Í Íslendingasögum er löngum heiðríkja, hreinviðri og fjallaloft, og því er það andleg hressing að viðra sig í andrúmslofti þeirra. Þessvegna er það einnig réttmæli, sem dr. Einar Ól. Sveinsson segir í hinu merka riti sínu **Sturlungaöld:** "Margar fornar sögur vekja í huga lesandans þá tilfinningu, að hann sé staddur uppi á fjalli og sjái þaðan vítt yfir landið. Lof sé þeirri þjóðmenningu, sem lætur mönnum líða vel, ennþá meira lof þó þeirri, sem skapar einhver þau verk, sem hafa í sér varanlegt gildi."

Seinasta málsgrein stefnuskrár félags vors, um aukin samskifti milli Íslendinga austan hafs og vestan, bendir til þeirrar nauðsynjar, sem öllum ætti að vera augljós, að því aðeins verður vor menningarlega arfleifð til langframa varðveitt og ávöxtuð í landi hér, að vér stöndum í sem nánustu og stöðugustu sambandi við þann jarðveg, sem hún á rætur sínar í og dregur næringu sína úr, vort söguríka og svipmikla ættarland. Minnug þess tökum við undir með Einari skáldi Benediktssyni:

Standa skal í starfsemd andans
stofninn einn, með greinum tveim:
Brúnni slær á Atlantsál
okkar feðramál —
Íslands fagra, sterka mál.

En það er fleira heldur en hin glæsta og sterka taug tungunnar, hinn gullni lykill að bókmentafjársjóðum vorum, sem tengir Íslendinga saman yfir hinn breiða útsæ. Öll eigum vér, sem íslenskt blóð rennur í æðum, þegnrétt í hinu íslenska ríki andans. Óhögguð standa orð séra Matthíasar Jochumssonar:

Saga þín er saga vor,
sómi þinn vor æra;
tár þín líka tárin vor,
tignarlandið kæra.

Þessi sannindi voru einnig efst í huga Sveins Björnssonar, ríkisstjóra Íslands, er hann komst þannig að orði í hinni íturhugsuðu og vinsamlegu kveðju sinni, er hann sendi oss á hljómplötu fyrir þrem árum síðan: "Ykkar saga er saga Íslands. Þá sögu er ekki lokið að skrifa ennþá. Og þið eigið ykkar þátt í að skrifa þá sögu. Eigum við ekki að koma okkur saman um að reyna að skrifa hana sem besta, Íslandi til gagns og sóma?"

Við þeim orðum viljum vér bregðast sem drengilegast. Og þar sem vér minnumst þess jafnframt, að heimaþjóð vor á nú, vegna hernámsins, við margvísleg vandkvæði að glíma, og um sárt að binda, vegna manntjóns af styrjaldarvöldum, vottum vér henni hugheilasta

samúð vora og látum í ljósi þá von og trú, að hún muni ganga sigrandi af þeim hólmi.

Jafnminnugir erum vér þess, að fyrir dyrum hinnar íslensku þjóðar stendur nú mikil örlagastund, þar sem hún býr sig nú undir að stíga á næstunni lokasporið í langri sjálfstæðisbaráttu sinni og stofna að nýju íslenskt lýðveldi. Hita þeir atburðir oss um hjartarætur og gefa metnaði vorum vængi. — Biðjum vér af heilum huga ættþjóð vorri blessunar og velfarnaðar, er hún stígur það örlagaspor. Rætist þá hennar forni frelsisdraumur á ný, og mun heill fylgja.



Hin þríþætta stefnuskrá félagsins hefir eins og að undanförnu verið það markmið, sem starfið hefir miðað að á árinu, og hefir stjórnarnefndin eftir föngum leitast við að koma í framkvæmd þeim málum, sem síðasta þjóðræknisþing fól henni til fyrirgreiðslu, ásamt öðrum þeim málum, sem henni hafa borist í hendur. Þakka eg samnefndarfólki mínu áhuga sinn og ágæta samvinnu eins og fyrri.

**Útbreiðslumál**

Aldrei verður of mikil áhersla lögð á það, hve mikilvægur þáttur útbreiðslumálin eru í starfi félagsins. Þessvegna er það sérstakt ánægjuefni að geta skýrt frá því á þessu afmælisþingi, að félagið hefir numið nýtt land á árinu í tveim helstu bygðum vorum.

Að tilmælum stjórnarnefndar félagsins fóru þau Ásmundur P. Jóhannsson, féhirðir; Mrs. Einar P. Jónsson, vararitari, og Einar P. Jónsson, ritstjóri "Lögbergs", útbreiðsluferð til Gimli laust fyrir miðjan nóvember, með þeim ágæta árangri, að þar var stofnuð þjóðræknisdeild með 80 félögum þ. 22. nóv. Auk fyrnefndra, tók Guðmann Levy, fjármálaritari, þátt í stofnfundinum af hálfu stjórnarnefndarinnar; lesið var þar einnig upp ávarp frá vara-forseta, séra Valdimar J. Eylands, er eigi gat verið viðstaddur vegna embættisanna, en bréflegar árnaðaróskir forseta, sem einnig var skyldstörfum bundinn, náðu eigi í tæka tíð á fundinn, en voru síðar prentaðar ásamt ofannefndu ávarpi.

Embættismenn hinnar nýju deildar voru þessir kosnir: Dr. Kjartan Johnson, forseti; W. J. Árnason, vara-forseti; Mrs. Hulda Shaw, skrifari; Th. Thordarson, fjármálaritari og Elías Ólafsson, féhirðir. Í skólanefnd voru kosnar: Mrs. Lára Tergesen, Mrs. Ingibjörg Bjarnason og Mrs. Hulda Shaw.

Vil eg í nafni stjórnarnefndar þakka öllum þeim, sem áttu hlut að því þarfa og tímabæra verki að koma á fót jafn myndarlegri þjóðræknisdeild í hinu sögufræga landnámi Íslendinga á þeim slóðum.

Stuttu áður, þ. 19. nóv. höfðu þeir ritari, Jón J. Bíldfell, og forseti félagsins sótt almennan fund í Argyle-bygð, er boðað hafði verið til fyrir atbeina stjórnarnefndarinnar; bar sú för þann árangur, að þjóðræknisdeild var mynduð með allmörgum félögum. Embættismenn hennar voru kosnir: séra Egill H. Fáfnis, forseti; B. S. Johnson, vara-forseti: G. J. Oleson, ritari, og Tryggvi Johnson, féhirðir. Þakka eg hérmeð bygðarbúum höfðinglegar viðtökur og góðar undirtektir, en ritara ánægjulega samfygld og samvinnu á ferðalaginu. Væntum vér hins besta af Argyle-búum í málum vorum, enda eru þegar yfir 40 manns í deild þeirra.

Býð eg svo hinar nýju deildir velkomnar í félagið og fulltrúa þeirra á þing vort, og má það öllum vera ljóst, hver styrkur félagi voru hlýtur að vera að slíkum liðsauka. Leyfi eg mér jafnframt að geta þess, að hið nýja Íslendingafélag í Fargo, N. Dakota, og Moorhead, Minn., mun eigi ólíklega ganga í eitthvert samband við félag vort, þegar hið nýja félag er orðið fastara á rót, enda hafa nokkrir félagsmenn þess þegar gengið í félag vort.

Vara-forseti félagsins, ritari, vara-ritari og vara-fjármálaritari, dr. S. E. Björnsson, hafa flutt erindi um íslensk mál á samkomum deilda þess og öðrum mannamótum, og með þeim hætti talað máli félagsins beint og óbeint. Hefir Einar P. Jónsson ritstjóri einnig lagt fé-

laginu lið með sama hætti, auk ágæts stuðnings við mál vor í blaði sínu "Lögbergi", og hið sama hefir ritstjóri "Heimskringlu", Stefán Einarsson, gert í dálkum blaðs síns. Þykir mér hlýða á þessum eyktamörkum í sögu félagsins að þakka íslensku blöðunum margháttaðan stuðning við mál vor á liðinni tíð.

Forseti hefir heimsótt þessar deildir félagsins á árinu og flutt erindi á samkomum þeirra: — allar þrjár deildir þess í Saskatchewan, ennfremur deildirnar í N. Dakota, Selkirk, Árborg og Mikley. Einnig flutti hann ávarp á samkomu sambandsdeildarinnar "The Icelandic Canadian Club" í Winnipeg og ræðu um þjóðræknismál á stofnfundi Íslendingafélagsins í Fargo og Moorhead. Með bréflegum kveðjum af félagsins hálfu hefir hann eins og að undanförnu unnið að því að sameina hugi Íslendinga um menningarerfðir þeirra og einnig aflað allmargra nýrra félagsmanna, en fjármálaritari gerir frekari grein fyrir þeirri hliðinni á útbreiðslustarfinu í skýrslu sinni. Þá hefir forseti flutt á ýmsum stöðum ræður um íslensk efni og norræn á ensku máli, svo sem á allsherjarmóti norrænna manna í Winnipeg í júlímánuði, og skrifað greinar og ritdóma um þau efni í amerísk og canadisk rit.

Íslandsmynd félagsins hefir einnig á árinu verið nokkur þáttur í útbreiðslustarfinu, því að séra Albert E. Kristjánsson hefir sýnt hana í bygðum Íslendinga á Vesturströndinni; ennfremur var hún sýnd á samkomu sambandsdeildarinnar "Vísir" í Chicago. Liggja fyrir nokkrar beiðnir um myndina, en hún hefir þegar reynst oss mjög nytsöm gjöf og vinsæl að sama skapi.

**Fræðslumál**

Á þjóðræknisþinginu í fyrra var forseta falið að skipa á ný milliþinganefnd í fræðslumálum. Skipaði hann stuttu síðar í þá nefnd sömu menn og konur, er höfðu svo ötullega og farsællega unnið að þeim málum árið áður og tóku þau öll kosningu. Er nefndin því þannig skipuð: Mrs. Einar P. Jónsson, formaður; Ásmundur P. Jóhannsson, Mrs. S. E. Björnsson, Sveinn Thorvaldson og Miss Vilborg Eyjólfsson. Hefir nefndin, eins og vænta mátti, unnið dyggilega áfram að því að skipuleggja íslenskukensluna, koma henni á sem traustastan grundvöll og efla hana sem allra víðast í bygðum vorum. Er þar um að ræða það grundvallarstarf í félagsskap vorum, sem löngu fyrri skyldi hafa unnið verið. Hefir það þegar sýnt sig, að happa- og framtíðarspor var stigið með útvegun hinna flokkuðu kenslubóka heiman af Íslandi, sem nefndin aflaði sér með aðstoð stjórnarnefndarinnar, og þegar hafa hlotið mikla útbreiðslu. — Nutum vér og þar, sem oftar, drengilegrar samvinnu Þjóðræknisfélagsins á Íslandi.

Laugardagsskóli félagsins í Winnipeg hefir verið starfræktur með sama hætti og áður, við allgóða aðsókn, en þó hvergi nærri eins mikla og hann á skilið, jafn ágæt kensla, og ókeypis ofan í kaupið, sem þar er á boðstólum. Ættu íslenskir foreldrar að sjá sóma sinn í því að senda börn sín þangað til íslenskunáms. Þessir hafa verið kennarar skólans í ár: Mrs. Einar P. Jónsson, skólastjóri; Mrs. H. F. Danielson, Mrs. Baldvin Einarsson og Miss Vordís Fridfinnsson, en Ásmundur P. Jóhannsson hefir, sem um undanfarin áratug, haft aðalumsjón með skólanum. Mrs. Danielson hefir einnig, eins og áður, æft börnin í íslenskum söng, með aðstoð Mrs. S. B. Stefánsson. Skuldar félagið kennurum skólans og öðrum stuðningsmönnum hans ómælda þökk fyrir árvekni og ósérplægni þeirra í þessu mikla nytsemdarstarfi í þágu félagsins.

Þar sem um jafn viðurhlutamikinn þátt er að ræða í starfsemi félagsins, ber einnig að fagna því og þakka það, að ýmsar deildir þess, svo sem í Riverton, Árborg, Mikley, Selkirk og N. Dakota, halda uppi íslenskukenslu, sumar með ágætum árangri. Á íslenskuskóla hinnar nýju deildar að Gimli eru t. d. á annað hundrað nemendur. — Deildin í Argyle hefir tekið þetta þarfa mál upp á starfskrá sína.

Skýrsla milliþinganefndar í fræðslumálum greinir annars nánar frá viðleitninni á því sviði. Þó vil eg eigi á

þessum tímamótum í sögu félagsins skiljast svo við fræðslumálin, að eg hvetji eigi til þess, að sem mest rækt verði við þau lögð, enda þótt það útheimti nokkur fjárframlög af félagsins hálfu. Það fær eigi, hvort sem er, trygt framhaldsstarfsemi sína betur á annan hátt, en með því að eignast sem víðtækust ítök í hugum æskunnar, því að hennar er framtíðin.

**Samvinnumál við Ísland**

Þjóðræknisfélagið heima á Íslandi, undir ötulli forustu Árna G. Eylands framkvæmdarstjóra, í samvinnu við fjölmarga aðra velunnara vora þarlendis, hefir með ýmsum hætti sýnt áhuga sinn fyrir samskiftum við oss og góðhug í vorn garð á liðnu ári. Nýlega gekst félagið t. d. fyrir fjölsóttum og prýðilegum skemtifundi og bauð þangað öllum Vestur-Íslendingum, sem til náðist, en áður hafði það haldið félagsbróður vorum, Hjálmari Björnsson, verslunarfulltrúa Bandaríkjastjórnar á Íslandi, virðulegt kveðjusamsæti. Sami ræktarhugurinn kom fram í jólakveðju forseta félagsins til vor, er birt var hér í íslensku vikublöðunum.

Önnur drjúgum stærri og umfangsmeiri störf í þágu Vestur-Íslendinga og félags vors hefir Þjóðræknisfélagið á Íslandi þó unnið á árinu. Það átti hlut að rausnarlegri styrkveitingu Alþingis til vestur-íslensku vikublaðanna, sem tilkynt var á lokasamkomu síðasta þjóðræknisþings. Þá er það eigi síður verðugt frásagnar og þakkarvert, að Þjóðræknisfélagið heima safnaði fé og gaf eitt herbergi (kr. 10,000.00) í hinum nýja stúdentagarði og ánafnaði það Vestur-Íslendingum, til afnota fyrir námsmenn að vestan. Ber herbergið nafnið **Nýja-Ísland.** Síðast en ekki síst ber að minnast þess með þakklæti, að félagið hefir unnið hið þarfasta verk með aukinni útbreiðslu **Tímarits** vors á Íslandi, eins og frekar er vikið að í sambandi við frásögn um útgáfu þess.

Af öðrum vináttumerkjum í félagsins garð heiman um haf, er skylt að nefna hér og þakka ágæta gjöf frá skáldkonunni Huldu (frú Unni S. Bjarklind), er sendi félagi voru til útbýtingar allmörg eintök af fögru Íslandskvæði eftir sig ásamt með sönglagi við það eftir Sigurð Þórðarson söngstjóra. Hefir skáldkonan áður sýnt góðhug sinn til vor með fagur yrtum ljóðum í **Tímariti** voru.

Hið mesta vinarbragð og drengskapar, sem heimaþjóðin hefir sýnt oss á þessu afmælisári, er þó koma hins virðulega og ágæta fulltrúa ríkisstjórnarinnar, biskups Íslands, sem eg gat um í byrjun máls míns. — Verður það virðingarmerki og vinsemdar seint fullþakkað, og eigi með orðum einum, heldur með framhaldandi og frjósömu þjóðræknisstarfi.

Fátt kemur hins vegar til framtals í samvinnumálunum frá vorri hlið á árinu. Þó skal þess getið, að sem ofurlítinn vinsemdarvott og þakklætis sendi félag vort Þjóðræknisfélaginu á Íslandi canadiska, breska og ameríska borðfána úr silki til afnota við meiriháttar tækifæri, og er oss tjáð, að þeir hafi verið þakksamlega þegnir og þegar að nokkrum notum komið. En þó hér sé um lítilræði að tala, eru borðflögg þessi ágæt táknmynd íslenskra þjóðræknissamtaka, er skjól eiga undir merkjum hinna miklu lýðríkja, sem hér er um að ræða, og brúa hið breiða haf milli heimaþjóðarinnar og vor æ traustari bræðraböndum.

Eigi vildum vér heldur láta 25 ára afmæli fullveldis Íslands fara þegjandi fram hjá oss. — Sendi eg því í nafni félags vors ríkistjóra Íslands svohljóðandi samfagnaðarskeyti: “Sendum heimaþjóðinni hugheilar afmæliskveðjur. — Þjóðræknisfélagið.” Svaraði ríkisstjóri með svohljóðandi skeyti: “Alúðarþakkir. — Kveðjur til Þjóðræknisfélagsins.”

Þá varð eg fyrir nokkru síðan við tilmælum frá Upplýsingaskrifstofu Bandaríkjanna í New York (Office of War Information) um að tala á hljómplötu ávarp til íslensku þjóðarinnar, er var kveðja til hennar og lýsing á starfi félags vors. Hefir dr. Edvard Thorlaksson, formaður Íslandsdeildar umræddrar skrifstofu, nýlega tjáð mér, að fyrnefndu ávarpi hafi verið víðvarpað á

Íslandi laust fyrir áramótin, og það með, að hann verði staddur hér á þinginu af hálfu skrifstofunnar til þess að síma fréttir af þinginu til Íslands og útbreiða þekkingu á starfi voru með öðrum hætti. Býð eg þennan ágæta landa vorn velkominn á þingið og þakka í félagsins nafni vinsemd þá og athygli, sem Upplýsingaskrifstofa Bandaríkjanna hefir sýnt oss með komu hans.

Má eg jafnframt geta þess, að stríðsupplýsingadeild Canada-stjórnar (Wartime Information Board) á samvinnu við Upplýsingaskrifstofu Bandaríkjanna hvað þetta snertir. Er hér um að ræða gott dæmi þess gagnkvæma góðhugs, sem ríkir milli þessara tveggja nágrannaþjóða. Ennfremur lýsir sér hér einlægur vinarhugur þeirra í Íslands garð, sem meta ber og þakka.

Loks ber þess að geta, að tveir góðir gestir heiman af Íslandi heimsóttu oss á árinu, þeir Henrik Sv. Björnsson, ritari íslenska sendiráðsins í Washington, er var aðalræðumaður Íslendingadagsins á Gimli, og Jakob Gíslason, rafmagnsfræðingur frá Reykjavík, er flutti erindi í samsæti, sem "Icelandic Canadian Club" efndi til. Átti félag vort nokkurn hlut að því að fagna þeim báðum, og talaði vara-forseti máli voru við það tækifæri; ritari félagsins flutti einnig ræðu fyrir minni Íslands í samsætinu fyrir Henrik sendiráðsritara.

Í þessu sambandi er eigi nema réttmætt að geta þess, að heiðursfélagi vor, Thor Thors, sendiherra Íslands í Washington, og dr. Helgi P. Briem, aðalræðismaður Íslands í New York, hafa jafnan verið boðnir og búnir til þess að verða oss að liði í samvinnumálum vorum við Ísland og á annan hátt.

**Saga Íslendinga í Vesturheimi**

Eins og menn muna, kom fram á þjóðræknisþinginu í fyrra tilboð frá nokkrum velunnurum sögumálsins um að taka að sér málið í nafni félagsins, að uppfyltum vissum skilyrðum, sem tilgreind eru í tilboðinu, en það er prentað í síðustu þingtíðindum. Var málinu vísað til stjórnarnefndarinnar til frekari athugunar, einkum með tilliti til þess, hverrar samvinnu mætti vænta um framhald útgáfunnar heima á Íslandi. Nokkru eftir þingið samþykti stjórnarnefndin að taka tilboði sjálfboðanefndarinnar, enda var það um alt hið drengilegasta. Tók nefndin þegar til starfa, réði Þorstein Þ. Þorsteinsson skáld til þess að halda áfram ritun sögunnar, og kom 2. bindi hennar út um mánaðamótin nóvember og desember. Er það mikil bók, fróðleg og vel skráð, er fengið hefir prýðisgóða dóma í vikublöðum vorum. Mega hinir mörgu, sem unna framgangi þessa þarfa máls, vera ánægðir með, hversu það er nú komið á fastan grundvöll, og þakklátir þeim, sem þar eiga hlut að máli. Hvet eg fólk vort eindregið til þess að styðja framhald verksins með því að kaupa söguna, enda stendur engum nær að stuðla að útbreiðslu hennar. Jafnhliða skal þess þakklátlega getið, að Mentamálaráð Íslands hefir vinsamlegast tekið að sér að vinna að sölu sögunnar þeim megin hafsins, og þarf ekki að orðlengja um það, hve mikilvægur sá stuðningur er. Hin gamla sögunefnd félags vors var endurkosin á þinginu í fyrra; mun ritari hennar, dr. Sigurður J. Jóhannesson, sem einnig er vararitari hinnar nýju nefndar, leggja fram skýrslu um málið.

**Ingólfsmálið**

Á síðasta þjóðræknisþingi var sú ákvörðun tekin í því máli, að ritara félagsins, J. J. Bíldfell, var falið að skrifa dr. J. M. Morrow, lækni í Prince Albert, og biðja hann að rannsaka hag Ingólfs og heilsufar og láta í ljósi álit sitt á því, hvað hann teldi að hægt væri að gera fyrir hann. Undir eins að þingi loknu skrifaði ritari umræddum lækni og fékk nokkru síðar það svar frá honum að hann hefði kynt sér allar kringumstæður og komist að þeirri niðurstöðu, að Ingólfur ætti við góða aðhlynningu að búa og taldi læknirinn það algert óráð að flytja hann af sjúkrahúsinu. Kom það og á daginn, að Ingólfur átti eigi langt eftir ólifað, því að hann lést í maímánuði síðastliðnum. Bauðst stjórnarnefnd-

in til að standa straum af kostnaði við að flytja lík hans til greftrunar í átthögum ættingja hans hér í fylkinu, en því boði var hafnað.

**Önnur mál**

Væntanlega koma fram á þinginu munnlegar eða skriflegar skýrslur frá **minjasafnsnefnd**, en Bergthór E. Johnson er eins og áður formaður hennar, frá nefnd þeirri, er kosin var til að hafa með höndum **útvarp til Íslands**, í tilefni af 25 ára afmæli fullveldis heimaþjóðarinnar, en Grettir L. Jóhannsson, ræðismaður, skipar þar formannssessinn; og frá nefnd þeirri, er safna skal **þjóðlegum fróðleik** vestur hér. Fól þingið forseta að skipa hana og eiga þessir sæti í henni: séra Sigurður Ólafsson, Selkirk; Gamalíel Thorleifsson, Garðar, N. Dak., og G. J. Oleson, Glenboro, Man. Jafnframt skal það þó tekið fram, að nokkuð var liðið á starfsár, er nefnd þessi var skipuð, og hefir hún því, ef til vill, eigi haft mikinn tíma til starfa.

Um fjármál félagsins, nægir að vísa til hinnar prentuðu skýrsla féhirðis, fjármálaritara og skjalavarðar, Ólafs Péturssonar, en hinn síðastnefndi hefir jafnframt, sem að undanförnu, annast umsjón með húseign félagsins, og er það hið þakkarverðasta verk.

**Aldarfjórðungsafmæli félagsins**

Á þinginu í fyrra og síðar á fundum stjórnarnefndar komu fram raddir um það, að **Tímarit** félagsins skyldi að þessu sinni sérstaklega helgað aldarfjórðungsafmæli þess. Varð ritstjórinn, Gísli Jónsson prentsmiðjustjóri, sem endurkosinn hafði verið í það embætti, vel við þeim tilmælum. Flytur ritið allítarlegt yfirlit yfir starfssögu félagsins frá byrjun, sem prýdd er fjölda mynda, auk annars lesmáls varðandi afmælið. Mun og óhætt mega segja, að efni þess sé að öðru leyti bæði athyglisvert og fjölbreytt.

Mrs. P. S. Pálsson tók að sér aftur að safna auglýsingum í ritið, og hefir framúrskarandi árangur orðið af ötulu starfi hennar í þá átt. **Tímaritið** er einnig í ár prentað í stærra upplagi en áður, bæði vegna aukins félagafjölda og þá eigi síður vegna hins, að Þjóðræknisfélagið á Íslandi, sem stöðugt er að færa út kvíarnar, hefir beðið um 750 eintök af ritinu. Var sú beiðni hækkuð um 150 eintök síðan eg skrifaði afmælisgrein mína um félagið. Er það bæði hið mesta vinarbragð og mikill sómi, sem félagið hefir sýnt **Tímaritinu** með því að gera það einnig að félagsriti sínu.

Aldarfjórðungsafmælis félagsins, er áður var vikið, að, verður einnig, eins og tilhlýðilegt var, minst með virðulegri veislu síðasta þingkvöldið. Af hálfu stjórnarnefndar hafa þeir vara-forseti, féhirðir og fjármálaritari annast undirbúning þessarar sögulegu samkomu.

★

Í byrjun þessa máls hvarflaði eg, eins og skylt var, huganum til liðinnar tíðar og mintist stuttlega nokkurra forgöngumanna félagsins og velunnara, sem horfnir eru af sjónarsviðinu jarðneska. Er dregur að lokum máls míns, á jafnvel við að horfa nær sér og renna jafnframt augum til framtíðarinnar, því að henni erum vér "skattskyld um dáð", eigi síður en samtíðinni. Fer oss viturlegast, ef vér lærum af fortíðinni og ávöxtum vel það, sem lífrænast er í arfi hennar, bregðumst sem drengilegast við kröfum samtíðarinnar og byggjum með þeim hætti sem traustast fyrir framtíðina. Eða eins og Stephan G. Stephansson skáld orðaði það spaklega og fagurlega:

Vinur aftansólar sértu,
sonur morgunroðans vertu.

Og er vér nú horfum um öxl, verður vart annað með sanni sagt, en að félagsstarfið hafi gengið vonum fremur á árinu, þegar á alt er litið. Deildir félagsins hafa yfirleitt haldið furðanlega vel í horfinu, en sumar hinar elstu þeirra gerast nú af skiljanlegum ástæðum fámennari en áður var, og ber stjórnarnefndinni að hlynna að starfi þeirra með heimsóknum eða á hvern annan hátt, sem hagkvæmast þykir. Þá ber oss

einnig að hafa það hugfast, að þrátt fyrir hið nýja landnám félagsins á liðnu ári, hefir það enn eigi náð fótfestu með deildarstofnun í ýmsum mannmörgum bygðum vorum, svo sem að Lundar og norður við Manitoba-vatn, að eigi séu aðrir staðir tilgreindir. Eigi eru heldur nærri allir Íslendingar í landi hér, sem ættu að styðja félagið að starfi, innan vébanda þess. Næg eru því verkefnin framundan og eggjandi til starfa að sama skapi, eða svo ætti það að vera.

Er þó ótalið það verkefnið, sem knýjandi er um önnur fram, aukið samband við hina yngri kynslóð vora, með víðtækara íslenskunámi eða annari fræðslu og samvinnu, sem líklegt er til að tengja þá kynslóð nánar félagsskap vorum og glæða henni skilningi og ást á íslenskum menningarerfðum.

Eigi verður lausn fundin á fyrgreindum verkefnum félagsins án umhugsunar eða fyrirhafnar. Vakandi og frjósamt framhaldsstarf vort, eins og alt annað, sem einhvers verulega er virði í lífinu, krefst fórna af vorri hálfu, og eigi síður sigurtrúar, sem horfist djarflega í augu við erfiðleikana, en lætur þá ekki drekka sér þrótt úr taugum eða hella köldu vatni á áhugaeld hjarta síns.

Karlmenskulund hefir altaf verið rík í Íslendingseðlinu og eitthvert fegursta einkenni þess, eins og fram kemur í orðunum fornu (færð til nútíðarstafsetningar): "Það skaltu vita, að enn lifa hendur Hrólfs, þó fæturnir séu farnir." Í þeim hug, sem skilur hvað við er að glíma, en lætur erfiðleikana eigi buga sig, sæmir oss að ganga að þingstörfum á þessum tímamótum í sögu félags vors. Megi oss auðnast að leysa vandamál vor á sem drengilegastan og framsýnastan hátt, sjálfum oss og þjóð vorri til sæmdar, og þeim, er fylgja oss í spor, til fagurs fyrirdæmis og varanlegrar nytsemdar.

RICHARD BECK

Séra V. J. Eylands lagði til, og Á. P. Jóhannson studdi, að ávarpinu sé veitt móttaka með þökk og virðing og var það samþykt.

Guðmann Levy lagði til og H. Hjaltalín studdi, að forseti skipi þrjá menn í dagskrárnefnd og var það samþykt. — Þessir skipaðir Á. P. Jóhannsson, Dr. S. E. Björnsson og Þorsteinn Gíslason.

Á. P. Jóhannsson stakk upp á og H. Hjaltalín studdi, að forseta sé falið að skipa þrjá menn í kjörbréfanefnd. — Samþykt. Þessir skipaðir: Guðmann Levy, Mrs. P. S. Pálsson og Guðmundur Eyford.

Skrifari gaf munnlega skýrslu. Kvað hann ellefu fundi hafa verið haldna á árinu og áhugamál félagsins rædd og athuguð ítarlega af stjórnarnefndinni. Skýrsla hans var meðtekin.

Féhirðir lagði þá fram skýrslu sína. Var hún prentuð og útbýtt á meðal þingmanna, áður en féhirðir hóf mál sitt. Að lokinni fjármálaræðu féhirðis, hr. Ásm. P. Jóhannssonar, lagði fjármálaritari, hr. Guðmann Levy, fram skýrslu sína. Kvað hann starfið hafa gengið vel á árinu og viðskifti öll greiðlega. Skjalavörður, hr. Ólafur Pétursson, lagði og fram skýrslu sína með ítarlegum skýringum.

**Reikningur féhirðis**

yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 17. febr. 1943 til 9. febr. 1944.

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| 17. febr. 1943: | |
| Á Landsbanka Íslands | $ 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,468.96 |
| | $1,470.76 |
| Frá fjármálaritara | $ 618.87 |
| Fyrir auglýsingar í XXIII. árg. Tímaritsins | 3.00 |
| Fyrir auglýsingar í XXIV. árg. Tímaritsins | 1,914.75 |
| Fyrir auglýsingar í XXV. árg. Tímaritsins | 250.00 |
| Ágóði af Barnasamkomu Laugardagsskólans | 68.60 |
| Fyrir seldar kenslubækur | 137.20 |
| Samskot til hjálpar Rússum | 48.40 |

| | |
|---|---|
| Ágóði af seldum hljómplötum eftir Maríu Markan (ágóðinn sendur Rauðakrossinum) | 70.00 |
| Bankavextir og gengishagnaður | 6.84 |
| | $3,117.66 |
| Greitt af Þjóðræknisfél. Íslendinga, Reykjavík (kr. 3,062.50 — gengi ísl. kr. 5.92 í Can. dollarnum) | 517.30 |
| Samtals | $5,105.72 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Kostnaður við ársþing 1943 | $ 76.60 |
| Ritstjórn og ritlaun Tímaritsins | 285.25 |
| Prentun XXIV. árg. Tímaritsins | 841.79 |
| Kostnaður við að safna augl.: | |
| XXIII árg. Tímaritsins | .75 |
| XXIV. árg. Tímaritsins | 478.70 |
| XXV. árg. Tímaritsins | 62.50 |
| Til hjálpar Rússum | 50.00 |
| Til Rauðakrossfélagsins | 70.00 |
| Laugardagsskóla | 129.77 |
| Burðargjald og tollur á kenslubókum | 62.12 |
| Greitt fyrir kenslubækur, borgað á Íslandi | 517.30 |
| Kostnaður við að senda Tímarit til Íslands | 59.18 |
| Veitt úr Rithöfundasjóði | 25.00 |
| Afborgun á 652 Home St. | 750.00 |
| Borgað lögmönnum (dánarbú Elíasar Jóhannssonar) | 21.50 |
| Til deildarinnar "Frón" fyrir bókakaup | 154.00 |
| Ferða- og útbreiðslukostnaður | 136.66 |
| Prentun og skriff     öng | 66.11 |
| Banka, síma og annar kostnaður | 46.53 |
| Starfslaun Fjármálaritara | 62.17 |
| Afmælishátíðarkostnaður | 23.10 |
| Kostnaður varðandi Ingólf heit. Ingólfsson | 16.77 |
| | $3,935.80 |
| Í Landsbanka Íslands | 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,168.12 |
| Samtals | $5,105.72 |

Ásmundur P. Jóhannsson, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Canada, 9. febrúar 1944.

S. Jakobsson G. L. Jóhannson

**Yfirlit yfir sjóði félagsins**

| | | |
|---|---|---|
| 9. febr. 1944: | | |
| Í byggingarsjóði | | $ 32.54 |
| 19. febr. 1943: | | |
| Í Ingólfssjóði | $889.22 | |
| Útborgað á árinu | 16.77 | |
| 9. febr. 1944: | | |
| Í Ingólfssjóði | | 872.45 |
| 9. febr. 1944: | | |
| Í Leifs Eiríkssonar sjóði | | 68.76 |
| 19. febr. 1943: | | |
| Í rithöfundasjóði | $ 81.20 | |
| Útborgað á árinu | 25.00 | 56.20 |
| Sjóðir samtals | | $1,029.95 |
| 9. febr. 1944: | | |
| Á bönkum | | 139.97 |
| Samtals | | $1,169.92 |

Efnahagsreikning byggingarinnar 652 Home Street, gefur útlánsmaður hr. Ólafur Pétursson.

Ásmundur P. Jóhannsson, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Canada, 9. febrúar 1944.

S. Jakobsson — G. L. Jóhannson

**Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1943**

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 278.00 |
| Frá deildum og sambandsd. | 343.70 |
| Seld Tímarit til utanfélagsm. | 19.65 |
| Samtals | $ 641.35 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Póstgjöld undir bréf og Tímarit | $ 22.13 |
| Umbúðir og pappír | 1.35 |
| Afhent féhirði | 617.87 |
| Samtals | $ 641.35 |

Guðmann Levy, fjármálaritari

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Canada, 9. febrúar 1944.

S. Jakobsson — G. L. Jóhannson

**652 Home Street, Winnipeg, 1943**

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| 1. janúar í sjóði | $ 385.62 |
| Innheimt leiga | 2,700.00 |
| Fróns herbergisleiga | 60.00 |
| Íslendingadagsnefndin | 5.00 |
| Samtals | $3,150.62 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Afborgun á veðrétti | $1,318.75 |
| 1943 bæjarskattur | 402.13 |
| Hitun | 441.40 |
| Málning, viðgerðir og ýmislegt | 212.05 |
| Ljós og rafmagnshitun | 151.89 |
| Vatn | 114.38 |
| Greitt fyrir kæliskápa að fullu | 309.90 |
| Eftirlit | 120.00 |
| Ýmislegt | 11.15 |
| 31. des. 1943, í sjóði | 68.97 |
| Samtals | $3,150.62 |

Borgað fyrir byggingu, 652 Home St. ....$10,906.10

SKULDIR:

| | |
|---|---|
| Borgað í höfuðstól úr byggingarsjóð | $1,000.00 |
| Borgaðar rentur 1943 | 318.75 |
| Borgað á höfuðstól af féh. Þjóðræknisfélagsins | 750.00 |
| Kæliskápar borgaðir að fullu | 309.90 |
| Samtals | $2,378.65 |

| | |
|---|---|
| 31. des., 1942, skuld, fyrsti veðréttur | $4,750.00 |
| Borgað á fyrsta veðr. 1943 | 1,750.00 |
| 31. des. 1943, skuld, fyrsti veðr. | $3,000.00 |

Eign Þjóðræknisfélagsins í byggingunni ....$7,906.10

Ó. Pétursson, byggingarumboðsm.

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Canada, 9. febrúar 1944.

S. Jakobsson — G. L. Jóhannson

**Ársskýrsla Skjalavarðar yfir árið 1943**

Tímarit óseld í Winnipeg:

| | |
|---|---|
| 1.-XXIII. árg. hjá skjalav., eint. | 5065 |
| I.-XXIII. árg. hjá fjármálaritara | 32 |
| XXIV. árg. hjá skjalav., eint. | 27 |
| XXIV. árg. hjá fjármálaritara | 10 |
| | 5134 |

Tímarit á Íslandi:

Frá I.—XXI. eru um 1300 eintök. XXII., XXIII. og XXIV. árg. allir seldir og talsvert af eldri árg. hafa verið seldir. Engar nákvæmar skýrslur frá Íslandi hafa komið á árinu.

Skýrsla yfir XXIV. árg. Tímaritsins:

| | |
|---|---|
| Til heiðursfélaga, rithöfunda o. fl. í Ameríku | 28 |
| Til umboðssölu á Íslandi (460, comp. 19) | 479 |
| Til auglýsenda Tímaritsins | 166 |
| Til fjármálaritara | 900 |
| Hjá skjalaverði | 27 |
| | 1600 |

Selt og útbýtt af eldri árgöngum ... 802

Þjóðaréttarstaða Íslands (sérprentun):
Skýrslan frá 1939, óbreytt ... 300

Svipleiftur samtíðarmanna ... 129

289 eintök af innheftri Baldursbrá eru í umsjá Mr. B. E. Johnson, ráðsm. Baldursbrár.

Tímarit í bókaherbergi þjóðræknisfélagsins, ágúst 1943:

| | |
|---|---|
| 1. árg. | 568 |
| II. árg. | 340 |
| III. árg. | 33 |
| IV. árg. | 186 |
| V. árg. | 154 |
| VI. árg. | 328 |
| VII. árg. | 236 |

| | |
|---|---|
| VIII. árg. | 204 |
| IX. árg. | 141 |
| X. árg. | 369 |
| XI. árg. | 355 |
| XII. árg. | 547 |
| XIII. árg. | 193 |
| XIV. árg. | 252 |
| XV. árg. | 183 |
| XVI. árg. | 159 |
| XVII. árg. | 148 |
| XVIII. árg. | 55 |
| XIX. árg. | 23 |
| XX. árg. | 259 |
| XXI. árg. | 116 |
| XXII. árg. | 91 |
| XXIII. árg. | 109 |
| XXIV. árg. | 16 |
| Alls | 5065 |

Til Íslands hafa verið seld 744 Tímarit af eldri árg. I.—XXIII.

Deildin "Frón" hefir umsjón yfir aðalbókasafni félagsins og mun leggja fram skýrslu því viðvíkjandi.

Ó. Pétursson, skjalavörður

—Winnipeg, Man., 9. febr., 1944.

Séra V. J. Eylands lagði til, H. Ólafsson studdi, að skýrslum féhirðis, fjármálaritara og skjalavarðar sé veitt móttaka. Samþykt.

Þá var fundi frestað til kl. 2 e. h.

## ANNAR FUNDUR

Annar fundur settur kl. 2 e. h. Forseti gat þess, að kjörbréfanefndin hefði enn ekki lokið starfa sínum.

Á. P. Jóhannsson, formaður dagskrárnefndar kvað þá nefnd vera reiðubúna, með þingsálit sitt. Bað forseti hann að flytja þinginu álitið. Framsögumaður kvað nefndina leggja til, að dagskráin væri samþykt eins og hún hefði verið auglýst í blöðunum, með því viðbættu, að einum lið sé breytt, sem verði sjötti liður og hljóði: Ávarp biskups Íslands, en að sjötti liður auglýstu dagskrárinnar verði að sjöunda lið o. s. frv. Einnig að því ákvæði sé bætt inn í 15. lið, að kosningar embættismanna fari fram kl. 2 e. h. þann 23. febrúar.

Guðmundur Jónasson lagði til og Einar Magnússon studdi, að dagskrá þingsins sé samþykt með greindum breytingum. Samþykt.

## SKÝRSLUR
## frá deildum Þjóðræknisfélagsins fyrir árið 1943.

### Ársskýrsla deildarinnar "Báran" fyrir árið 1943

Deildin "Báran" á Mountain hefir ekki mjög langan athafnaferil að baki sér fyrir s. l. ár, en þó má geta þess, sem gert er.

Fundir hafa verið haldnir margir á árinu eða 5 alls, af þeim voru 3 sem stjórnarnefndin hafði.

Deildin hélt aðallega eina samkomu á árinu; var hún haldin á Mountain þ. 17. júní, var ágætlega sótt og að allra dómi hin besta.

Mr. Th. Thorleifsson á Garðar æfði barnakór sem söng þar, auk þess sólósöngvar. Nefndin var svo lánsöm að fá á þessa samkomu Dr. Beck og Mr. J. J. Bíldfell, sem báðir fluttu ágæt erindi, auk annara, sem skemtu fólki með stuttum ræðum.

Báran minnist þess nú við þessi tímamót, að nokkrir félagsmenn og konur hafa farið í burtu frá okkur, sumir dánir og enn aðrir flutt sig í ný pláss. Þannig var það með Mr. og Mrs. S. S. Laxdal og Mr. og Mrs. Halldór Björnson, sem öll fluttu vestur á Kyrrahafsströnd.

Í tilefni af þessu stóð Báran fyrir kveðjusamsætum, sem bæði voru haldin á Mountain, fyrir Laxdals hjón 5. júlí — og fyrir Björnssons hjónin 27. ágúst. Um báðar þessar samkomur var skrifað í íslenku blöðin og vísast til þess, sem þar er sagt.

Það var mikil eftirsjá að báðum þessum ágætu hjónum. Mr. Laxdal var fyrsti forseti deildarinnar hér á Mountan, og reyndist hinn ágætasti formaður.

Þau Björnssons hjón, Halldór og Jakobína, voru einnig ágætir félagsmenn hvort á sínu sviði. Halldór bókavörður

deildarinnar, frá þeim tíma að hann kom til Monutain til þess að hann flutti burt, var það einróma áilt allra, að vandfenginn væri betri bókavörður en Halldór.

Báran og annað bygðarfólk saknar beggja þessara hjóna, en þykir á hinn bóginn vænt um að þeim líður vel á nýju heimilunum og óskar þeim allrar blessunar í framtíðinni.

Stjórnarnefnd Bárunnar samþykti á fundi 8. ágúst s. l. að kaupa íslenskar kenslubækur á því verði, sem auglýst hafði verið í íslensku vikublöðunum, skýrir féhirðir deildarinnar eða fjármálaritari væntanlega nánar frá því, en eg get aðeins bætt við að miklar líkur eru á að íslensku kensla verði hafin nú bráðlega, sem auðvitað er dugnaði sumra nefndarmanna að þakka — og þá sérstaklega forseta okkar, sem sýnir lofsverðan áhuga að deildin vinni sem mest í þjóðræknismálum okkar á meðal.

Að öðru leyti hefir flest annað gengið sína ákveðnu leið. Við lifum öll í þeirri von, að bráðum komi betri tímar, að þetta mikla veraldarstríð verði senn á enda, og að menn fái að búa að sínu eftir það.

H. T. Hjaltalín, forseti
A. M. Asgrimson, skrifari

**Fjárhagsskýrsla**

þjóðræknisdeildarinnar "Báran", Mountain, N. D., fyrir 1943.

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| Í sjóði | $ 91.77 |
| Meðlimagjöld | 97.00 |
| Sala íslenskra kenslubóka | 24.90 |
| Tekið inn fyrir samkomu | 65.13 |
| Aðrar inntektir | 6.95 |
| Samtals | $ 285.93 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Borgað fjármálaritara G. Levy | $ 49.00 |
| Prísar, til unglinga, fyrir að sækja sérstaklega vel söngæfingar og íslenskukenslu | 6.00 |
| Vinargjöf til Tryggva Ólafson | 10.00 |
| Til Rauðakrossins | 40.25 |
| Kostnaður við fundarhöld og samkomur | 38.24 |
| Kostnaður við söngkenslu | 23.75 |
| Fyrir íslenskar kenslubækur | 46.59 |
| Fyrir aðrar bækur | 18.00 |
| Annar kostnaður | 1.50 |
| Í sjóði | 52.60 |
| Samtals | $ 285.93 |

C. Indriðason, féhirðir

Tillaga frá Þorsteini Gíslasyni og Dr. S. E. Björnssyni að skýrslan sé meðtekin.

Forseti benti á, að einn af atkvæða starfsmönnum Bárunnar, Þorfinnur Þorláksson, lægi veikur og að vinarorð frá þinginu mundi gleðja hann. Sveinn Thorvaldson lagði til og Á. P. Jóhannsson studdi að ritari sé beðinn að senda Þorfinni samúðarskeyti. Samþykt.

**Skýrsla deildarinnar "Gimli"**

Við höfum ekki frá miklu starfi að segja þar sem við erum með yngstu deildum félagsins. Deildin "Gimli" var stofnð 22. nóv. s. l., með 79 meðlimum. Síðan hefir meðlimafjöldinn aukist um 20. Starf deildarinnar hefir síðan hún var mynduð verið aðallega að koma af stað kenslu í íslensku. Kenslan fer fram í skóla bæjarins á laugardagsmorgna. Kennarar eru Miss S. J. Tergesen, Mrs. H. G. Helgason, I. N. Bjarnason, J. Bjarnason, Mrs. O. Kardal, Miss M. Halldórson, Miss K. Benson og Miss M. Johnson.

Nemendur eru 105 og 20 af þeim annara þjóða en Íslendingar.

Deildin hefir um $40.00 í sjóði.

Embættismenn deildarinnar eru: forseti, Dr. K. I. Johnson; vara-forseti, V. Árnason; ritari, Mrs. Hilda Shaw; féhirðir, Elia Olafson og frjámálaritari Thordur Thordarson. Í skólanefnd eru: Mrs. I. Bjarnason, Mrs. J. Tergesen og Mrs. Hilda Shaw.

Með bestu óskum frá "Gimli".

Hilda Shaw, skrifari

B. E. Johnson og Á. P. Jóhannsson lögðu til að skýrslunni sé veitt móttaka. Samþykt.

Sveinn Thorvaldson lagði til, Á. P. Jóhannsson studdi, að skýrslunni sé veitt móttaka. Samþykkt.

Ritari, J. J. Bíldfell, las eftirfylgjandi ávarp til þingsins frá Guðm. S. Johnson, Glenboro, Man.

**Til Þjóðræknisfélagsins á tuttugu og fimm ára móti þess**

Vegna þess, að eg er fjarri þessu 25 ára þingi þjóðrækinna Íslendinga, langar mig til að senda kveðju mína ásamt nokkrum velvildarorðum til þessa mannamóts.

Saga vor Vestur-Íslendinga sýnir að við, flestir fátækir og fremur vankunnandi, flúðum frá kæra Íslandi, vegna vonlausrar og sigurvana baráttu fyrir lífstilveru vorri, og niðja vorra.

Við gátum ekkert betra gert, en flytja vestur, þegar okkur var leyfð hér landganga, og boðinn þegnréttur hér vestra, lönd, gull, og grænir skógar.

Þessi gæði hafa reynst okkur hér vestra, guðdómlega happadrjúg, og mikil hamingju uppspretta.

Hitt ber einnig að játa og viðurkenna, að mörgum af vorum fyrstu landnemum hepnaðist ekki vel að færa sér inn til blessunar þau gæði sem biðu hér framanda fólks, — væntanlegra borgara landsins í Norður Ameríku. — Sem sé innflytjendanna.

Fyrir óhöppum þessum eru margar eðlilegar ástæður, sem eg alveg sleppi hér að nefna. Á hinn bóginn, hefir allur þorri fólks vors, hér vestra, skapað sér góðar kringumstæður, efnalega. Og ekki svo fáir vel góðar stöður. Prýðileg heimili og eignir í borgum og bæjum, og úti á landsbygðinni — að ógleymdum öðrum verðmætum, menningu, gulli og gersemum.

Í þessu sambandi má benda á, að þessi fátæki lýður, ef á Íslandi hefði setið, hefði að mestu verið nú, sem alþýðufólk Íslands, gott og göfugt fólk, vita skuld. En þó líklega ekki fleira fólk þar en nú er.

Til þess að vinna nokkurn sigur hér vestra, urðu landnámsmenn vorir að nota óspart sitt norræna eðli, og sigra og yfirstíga alla örðugleika, og brjóta á bak aftur alla mótstöðu. Eins og vorar fornaldarhetjur Norðurlanda, og konungar (Eddu konungar, síðar guðir) forfeður vorir, urðu að gera, eða falla í valinn að öðrum kosti og bíða ósigur.

Margir hafa fallið í valinn. Sumir farist á ýmsan hátt og mist lífið. Aðrir orðið sóttdauðir við fyrsta áfanga. En heildin af oss hefir unnið glæsilegan sigur hér vestra. Við erum nú orðnir hér landsmenn. Eigum vorn skerf af sjálfu landinu.

Við gerum skyldu vora í því að stjórna og viðhalda landinu að vorum parti. Með öðru fólki hér vestra, byggjum upp landið.

Þetta sem eg hefi nú upptalið er prýðilega gott. — En — nú kem eg að því allra dýrðlegasta, sem gáfað en fátækt fólk vort hrepti hér í meira en fullum mæli. — Það var sjálft guðdómlegt frelsið. Hugsanafrelsi, málfrelsi, og sem mestu var um vert — trúfelsi, án lögskipunar saurgað, og skorið við nögl.

Þessi dýrð hefir verið vel notuð hér vestra af þjóð vorri, og allir hafa viljað gera bæði sér sjálfum og öðru fólki sem mest úr því fágæta hnossi, frelsinu. Sem við mátti búast, urðu stundum af þessu starfi, alvarleg mistök, sem lét hjörtu fólksins slá örara en ella hefði orðið. Vitaskuld hefir afleiðingin af því þó verið holl, og andlega heilsubætandi.

Svo máttugur hefir þessi sálarþróttur landnema vorra og okkar sjálfra verið, að Ísland hefir einnig orðið hrifið og snortið af frelsisþrá á flestum sviðum, En sjálft frelsið notað ljúflega er hjartsláttur menningar og manndóms. Þegar frelsið er ekkert nema ríkis þrælavafstur, er lífsferill fólksins orðinn fátæklegur.

Eg flutti ungur frá Íslandi. Eg tók þá eftir því, að við burtför vora, var hjarta okkar allra grátið, við skilnað vors helga lands. En þjóðin og ríkið, þar þá, leit vesturfarana óhýru auga; annars hefði oss orðið erfitt að þola viðskilnaðinn, ættjarðar vorrar. Kaldar kveðjur frá máttugu landsfólki drógu úr sorg vorri.

Með illu skal gott útreka.

Eg geri ráð fyrir, að vestra hér séu 40—50 þúsund fólks af þjóð vorri. Reglan er, að ef íslenskur blóðdropi finst í Vesturheims ungmenni, þá er það Íslendingur.

Af þeirri ástæðu var Þjóðræknisfélagið stofnað, af bestu mönnum vorum hér vestra, fyrir fjórðungi aldar síðan, að gera alvarlega og sístarfandi tilraun að sameina alt ungt fólk af ætt vorri í eina félagsheild. Og sem hjálpar svo þessu fólki til að varðveita sína tilveru og frelsi frá glötun, frá kyni til kyns. Á þann hátt getur vor forni menningararfur, og norrænn drengskapur, skapað þessu unga og einnig síðar, óbornu fólki af ættum vorum, ævarandi blessun og góðan orðstír, sem er eini varanlegi eilífðar sjóðurinn sem treysta má. Og eina sálarfæðan sem getur skapað göfuga mannpersónu. og haldið sál vorri sílifandi, bæði sem einstaklinga og sem þjóðarsálar í heild.

Á þann eina hátt varðveitist vort viðhald og varir.

Segir Þorsteinn Erlingsson í "Örlög guðanna":

"Og alfaðir stóð þar og Æsir hans hjá
og ekki til málanna lögðu,
en litu yfir völlinn hjá lindunum blá
og Lögbergið helga og þögðu.

En hér var um guði sem hæglegast
breytt,
þeir hjuggu þar eldgamla bandið;
og Alföður þótti þeim ganga það greitt,
að gjalda sér frelsið og landið."

og

"Á leiðirnar bláu, frá landinu því
nú lyftu sér guðirnir reiðu,
og þá var hið fyrsta og ferlega ský
að færast á tindana heiðu."

og svo útförin

"Og Alfaðir leit hina lækkandi sól
og landinu mátti' hann ei gleyma,
en lífgyðju eilífri frelsisins fól
hann fjörviðinn Íslands að geyma."

Fjörviðurinn — það er ungdómur þjóðar vorrar — heima og hér vestra.

Lífgyðja Íslands, eru hollvætti Íslands — heilög og eilíf — sem bíður eftir heimboði frá "fjörviði Íslands", þegar annarlegum guðum hefir verið lokað að eilífu á Íslandi.

Nú eru dularfullir tímar. Ef Íslendingar sofna nú, á verði, á næstu dögum eða næstu árum, verða þeir að engu sem sérstök þjóð. Nú þarf það að vera stefna allra af þjóð vorri í heiminum, að endurheimta hamingju og "lífgyðju" vora. Íslendingar stefni að alþjóðarinnar Íslendinga frelsun og viðhaldi frá glötun.

Við lærum um reglur allra annarlegra guða. Þeirra fyrsta og eina boðorð er sjálfsvernd. Eigingirni í hæstu spennu. Annars hefðu þeir aldrei komist eitt fet áfram með líðandi tíma.

Sjálfir verða því Íslendingar að varðveita tilveru sína, og sjá til þess að niðjarnir njóti þar góðs af.

Íslensk tunga á vörum allra vorra afkomenda er eini farkosturinn sem getur flutt og frelsað þjóð vora frá gereyðingu. Svo getur það orðið gressilegt, að ekki sjáist spor eftir þars við stóðum — þetta hefir skeð fyrri um týndar þjóðir. Eilífðin og gleymskan vara, þó sól hætti að skína.

Not íslenskunnar opnar fólki voru forn menningar verðmæti, sem hvergi finnast annarstaðar á þessari jörð, jafn góð.

Út í þá sálma má eg þó ekki fara hér. Það er of mikið verk að tína fram öll vor eilífðarverðmæti menningarleg.

Til dæmis, ef þjóðsaga Júðanna er svo stór bók um þetta eina orð (The Universal Power of Nature), guð þeirra, þá má sjá hvað margar og stórar bækur við þurfum til að útskýra lífsstefnu forfeðra vorra, og hræsnislaus boðorð þeirra. Þeirra sem tignuðu "Alföður". En Alfaðir er öll, sjálf, heilög tilveran, sem aldrei var sköpuð og aldrei hefir haft upphaf, svo sem heima ger goð. Heldur hefir varað eilíflega, og er hinn eini sanni guð sem mögulegt er að finna. Hærra er erfitt fyrir mannsandann að komast, og ábyggilegri guð verður seint fundinn,

sem treysta má jafnvel, sem heilagri tilveru og lífslögmáli hennar.

Við eigum í vitund vorri, máttuga þrenningu, sem þarfnast vorrar umhyggju og aðhlynningar, sjálfum oss til viðhalds og blessunar.

Þessi þrenning er fyrst, traust á Alföður og þeirri kirkju vorri sem er menningarvegur vor og vegur manndóms vors. Þá annað, vort pólitíska frelsi, stjórnfrelsi vort, sem leyfir oss að vera frjálsar mannverur. Ef við höfum þetta frelsi, getur líf vort manna á jörðu orðið að dýrðlegu sæluástandi, svo sem Alfaðir — heilög tilveran ætlast til að vitsmunalíf mannsins sé. Og þá þriðja, frelsi um eignarétt vorn, rétt um viðskifti og verðmæti í verslun, til þess að við megum vera frjáls og eiga vor heimili og aðrar eignir. Án þessa réttar getur ekkert frelsi — mannfrelsi átt sér stað. — Heldur yrðum vér, án eignarrétts, öll stjórnarbúpeningur, ófrjáls sem þrælar og þý höfðingjanna á Íslandi var í þeirra fornöld, þeirra landnámstíð.

Athafnastarf, eignar og mál og hugsanafrelsi aðeins, getur gert mannfólk jarðar hamingjusamt, þegar réttlæti, sannleikur og kærleikur, en ekki hatur, eru landslög.

Verksvið Þjóðræknisfélags vors hefir verið, með mætti frelsisins, í athöfn, í hugsun og eignarfrelsi að varðveita vort þjóðerni og tilveru, ásamt tungu vorri frá eilífri glötun.

Þetta nær vissulega til Íslands einnig. Landslög hér leyfa oss að vara. Fyrirþað ber oss að vera þakklát. Allir Íslendingar, austan og vestan hafs, þurfa að starfa að sinni eigin lífstilveru. —

Heill eilífri lífgyðju Íslands. Lengi lifi Þjóðræknisfélag Íslendinga.

Eg held þeim rétti að mega leiðrétta misskilning ef þörf gerist.

Guðm. S. Johnson,
—1. feb. 1944. Glenboro, Man.

Séra Halldór Johnson lagði fram og las álit þingnefndarinnar í bókasafnsmálinu, er þannig hljóðar:

1. Nefndin álítur að þörf sé á nýjum bókalista þar sem bókunum sé raðað eftir efni þeirra. Þá er full þörf á að laga bókaskápana, að minsta kosti suma. Sömuleiðis þarfnast sumar bækur mjög bráðrar viðgerðar. Einkum á þetta við blöðin Lögberg og Heimskringlu, sem Mr. G. Goodman gaf safninu.

2. Nefndin leggur ennfremur til að dálitlum vísir af ensku bókasafni um íslenskt efni sé komið á fót sem fyrst, er verði hluti af aðalsafninu (3. liður í uppástungu bókasafnsnefndar s. l. ár og samþyktur á því þingi).

3. Nefndin álítur nauðsynlegt, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins komist að haganlegri samningi við deildina "Frón" svo deildin geti aflað sér meir af góðum, íslenskum, nútíðarbókum.

Winnipeg, 22. feb. 1944.

S. E. Björnson
H. E. Johnson
Davíð Björnsson

Ari Magnússon lagði til, séra Sigurður Ólafsson studdi, að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykt.

Fyrsti liður samþyktur.

Annar liður samþyktur.

Um þriðja lið urðu allmiklar umræður. Á. P. Jóhannsson lagði til og J. J. Húnfjörð studdi, að þriðja lið bókasafnsnefndar álitsins sé vísað til væntanlegrar framkvæmarnefndar. Samþ.

Dr. Sigurður J. Jóhannesson las skýrslu milliþinganefndarinnar í sögumálinu svohljóðandi:

**Skýrsla sögunefndar**

Eins og þið munið var sögunefndin endurkosin á síðasta þingi; eins og þið einnig munið kom fram á því þingi tilboð frá tíu (10) mönnum um það að lyfta fjármálabyrðinni í sambandi við þetta mál af herðum Þjóðræknisfélagsins og taka að sér útgáfu sögunnar. Þingið afgreiddi ekki svar við þessu tilboði en vísaði málinu til væntanlegrar framkvæmdarnefndar.

Eftir nokkurn tíma ákvað Þjóðræknisfélags stjórnin að taka tilboði þessara

manna og mynduðu þeir þá þegar nýja sögunefnd: sjálfboðanefnd. Nefnd sú er þingið kaus var með þessu leyst frá öllum frekari störfum; hún afhenti nýju nefndinni öll skjöl og gögn er hún hafði með höndum og taldi með því störfum sínum lokið.

Nefndin hefir því enga verulega skýrslu að gefa en lýsir yfir ánægju sinni yfir þeirri breytingu, sem á sögumálið hefir komið síðan á þinginu í fyrra.

Um starf hinnar nýju nefndar verður væntanlega gefin skýrsla af henni sjálfri.

Winnipeg, 22. febrúar 1944.

P. M. Pétursson, forseti
Sig. Júl. Jóhanesson, ritari

Nöfn hinna nýju sögunefndar manna:

G. F. Jónasson
Friðrik Kristjánsson
J. G. Jóhannson
J. J. Swanson
Ólafur Pétursson
Sveinn Pálmason
Halldór Johnson
Sveinn Thorvaldson
Séra Philip M. Pétursson
Hannes Péturson
W. J. Lindal
Soffanías Thorkelsson
Sig. Júl. Jóhannesson
Þ. Þ. Þorsteinsson

Einnig las Mrs. S. Pálmason og afhenti þinginu eftirfarandi skýrslu um tekjur og gjöld í sambandi við sölu á fyrsta hefti af Sögu Íslendinga í Vesturheimi fram til 1. júní 1943.

**Skýrsla**
**Sögu Íslendinga í Vesturheimi**
**(fyrsta bindi)**

| | |
|---|---|
| Tekið á móti bundnum bókum | 403 |
| Tekið á móti óbundnum bókum | 200 |
| Samtals | 603 |

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| 373 | bundnar bækur á $3.50 | $1,305.50 |
| 9 | óbundnar bækur á $2.50 | 22.50 |
| 9 | bundnar bækur gefnar | |
| 71 | bundnar bækur óseldar | |
| 141 | óbundnar bækur óseldar. | |
| 603 | Samtals | $1,328.00 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Davíð Björnsson, bókband á 50 bókum | $ 35.00 |
| Borgað til útsölumanna | 198.60 |
| Burðargjald (postage) | 29.23 |
| Lagt á banka í reikning S. Thorkelssonar | 1,065.17 |
| | $1,328.00 |

| | |
|---|---|
| Kostnaður við handrit á fyrsta bindi Sögu Íslendinga í Vesturheimi. Það sem borgað var út í Winnipeg af S. Thorkelsson. Borgað til söguritara fyrir 14 mánuði, $75.00 á mánuði | $1,050.00 |
| Uppbót á kaupi | 100.00 |
| Frímerki á banka ávísanir | .48 |
| Davíð Björnsson fyrir vélritun | 33.11 |
| Fyrir að taka ljósmynd af handritinu og senda það heim | 20.00 |
| Kostnaður við að taka á móti bókinni þegar hún kom að heiman, burðargjald og tollur | 138.42 |
| Rentur af peningaláni upp til 31. ágúst 1941 | 113.52 |
| | $1,355.54 |

| | |
|---|---|
| Lagt inn á banka í reikning S. Thorkelssonar | $1,065.17 |
| Mismunur | 290.37 |
| | $1,355.54 |

Þessi skýrsla er til 1. júní 1943.

S. Pálmason

Ásmundur P. Jóhannsson benti á í sambandi við skýrslu þá, er Mrs. Pálmason las, að Þjóðræknisfélagið hefði lagt fram fé, um $1,500.00 til sögunefndarinnar í sambandi við útgáfu fyrsta bindis og lagði til að skýrsla milliþinganefndarinnar í sögumálinu og skýrslu sú er Mrs. Pálmason lagði fram, eða skýrsla útsölumanns séu viðteknar.

Var sú tillaga studd af Sveini Thorvaldsyni og samþykt.

Álit þingnefndarinnar í fræðslumálum. Framsögumaður séra Sigurður Ólafsson.

**Álit fræðslumála þingnefndar**

1. Nefndin lýsir ánægju sinni yfir því að vaxandi áhugi er augljós í bygðum vorum fyrir íslensku kenslu, samanborið við það sem áður var.

2. Nefndin fagnar yfir því að gnægð sumra kenslubóka, er við þurfa, er nú fyrir hendi, og gengur út frá því sem sjálfsögðu að aðstandendur barna er kenslu njóta kaupi bækurnar frá deildunum.

3. Nefndin finnur til þess að einn hinn mesti erfiðleiki sem deildir eiga nú við að stríða, er að fá hæfa kennara fyrir laugardagsskóla sína. Ef Þjóðræknisfélagið gæti sýnt það, á einhvern virkan hátt, að það meti starf kennaranna að verðleikum, þá væri ef til vill auðveldara að fá þá. Nefndin telur því æskilegt að Þjóðræknisfélagið styrki kenslu deildanna fjárhagslega.

S. Ólafsson
Ingibjörg Jónsson
H. F. Hjaltalín
Kristian Johnson

Fyrsti liður samþyktur.

Annar liður samþyktur.

Um þriðja lið urðu allmiklar umræður, að síðustu bar frú Ingibjörg P. Jónsson fram eftirfarandi breytingar tillögu í sambandi við þann lið: "Vegna hinnar brýnu nauðsynjar sem á því er, að láta ekkert það ógjört, er greiða megi götu kenslu í íslensku meðal barna og unglinga ályktar þing Þjóðræknisfélagsins í dag, að heimila stjórnarnefnd greiðslu fjárupphæðar, er eigi fari fram úr $300.00 á ári til stuðnings þeim deildum sem að íslensku kenslu starfa." Tillögu þessa studdi frú S. E. Björnsson og var hún samþykt.

Séra Haraldur Sigmar lagði til, Ari Magnússon studdi, að breytingar tillaga frú Ingibjargar komi í stað þriðja liðsins í áliti fræðslumálanefndarinnar. — Samþykt. Nefndarálitið í heild svo samþykt.

Farið orðið var áliðið dags, stakk H. F. Hjaltalín upp á og Guðmundur Jónsson studdi, að fundi sé frestað til kl. 9.30 næsta dag. Samþykt.

FIMTI FUNDUR

settur kl. 10 f. h. 24. febr. Fundargjörð síðasta fundar lesin og samþykt.

Álit þingnefndarinnar í útgáfumálinu tekið til umræðu. Framsögumaður, séra Egill H. Fáfnis.

**Útgáfumál**

Nefndin í útgáfumálum leyfir sér að leggja fram eftirfylgjandi tillögur:

1. Þingið þakkar ritstjóra Tímaritsins, Gísla Jónssyni, fyrir hans fórnfúsa og ágæta starf, sem hefir borið ávöxt í hinu ágæta, fróðlega og fjölbreytta riti sem er svo ágætur þáttur í 25 ára afmæli félagsins.

2. Þingið þakkar Mrs. P. S. Pálsson ötulleik hennar við söfnun auglýsinga, sem er svo virkur þáttur í útgáfu ritsins; og minnist og allra þeirra sem stutt hafa ritið með auglýsingum.

3. Þingið felur stjórnarnefnd sinni að gefa út ritið á næsta ári í svipuðu formi og stærð, ráða ritstjóra og sjá að öðru leyti um framkvæmdir í þessu máli.

4. Þingið biður stjórnarnefndina að láta fjölrita þingsamþyktir, nefndarskipanir, milliþinganefnda og aðrar ákvarðanir og samþyktir sem varða mál vor og starf á komandi ári og senda deildum sínum, svo að hver deild fái minst 10 eintök.

Winnipeg, 23. febr. 1944.

Egill Fáfnis
Elin Hall
Einar Magnússon

Séra Sigurður Ólafsson lagði til, Ari Magnússon studdi, að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykt.

Fyrsti liður samþyktur.
Annar liður sömuleiðis.
Þriðji liður samþyktur.
Fjórði liður samþyktur.
Nefndarálitið í heild samþykt.

Forseti las kveðjur til þingsins frá Þorsteini Ísdal, White Rock, B. C.; Theódóri lyfsala í Park River, N. Dak., og Sigurði Helgasyni í Bellingham, Wash., sem forsetinn þakkaði í nafni þingsins.

Dr. Árni Helgason ræðismaður frá Chicago var kominn til þings. Bauð forseti hann velkominn. Ávarpaði dr. Árni þingið og flutti því árnaðaróskir frá sambandsfélaginu "Vísir" í Chicago og sínar. Skýrði Árni mjög greinilega frá starfi Vísirs og var ánægjulegt að heyra og vita hve vel að Íslendingar í Chicago halda í horfinu, og hve tryggir þeir reynast þjóðræknismálum vorum.

Annar mætur gestur sunnan úr Bandaríkjunum var einnig kominn til þingsins. Það var dr. Edward Thorlakson ritari herupplýsinga skrifstofu Bandaríkjastjórnar. Forsetinn gjörði og þann góða gest kunnugann þingheimi. Að kynningarræðu forseta lokinni ávarpaði dr. Thorlakson þingið. Kvaðst hann vera kominn til þings að tilhlutun stjórnardeildar þeirrar er hann starfaði fyrir í Washington. Kvaðst senda fréttir daglega frá gjörðum þingsins til New York og væri þeim þaðan útvarpað til Íslands tafarlaust svo landar vorir á Íslandi gætu fylgst með því, sem gjörðist á þjóðræknisþingi voru hér í Winnipeg.

Fyrir slíka rausn og vináttumerki frá Bandaríkjastjórninni og dr. Thorlakson stöndum vér Vestur-Íslendingar í mikilli þakklætisskuld.

Dr. Thorlakson flutti og þinginu árnaðaróskir frá sjálfum sér og mörgum fleiri Íslendingum þar syðra.

Þingnefndarálitið í samvinnumálinu við Ísland tekið til umræðu. Framsögumaður, séra V. J. Eylands.

### Samvinnumál við Ísland

Hjörtu vora allra, sem sitjum hið 25. ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi hrærast til innilegs þakklætis fyrir alla þá samúð og margþáttaða stuðning sem þjóðbræður vorir á Íslandi hafa sýnt félagi voru frá öndverðu, og einkum fyrir þann drengskap og rausn sem vér höfum notið af þeirra hálfu á þessu aldarfjórðungs afmæli voru.

1. Vér þökkum Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Reykjavík, og einstökum mönnum sem kunna að eiga hlut að máli fyrir þá alúð og gestrisni sem vestur-íslenskir hermenn sem dvalið hafa, eða dvelja nú á Íslandi, hafa notið í landi þar. Vér þökkum fyrirgreiðslu félagsins í sambandi við útbreiðslu og sölu á Tímariti voru á Íslandi. Vér þökkum ennfremur fyrir þá sæmd sem Þjóðræknisfélag Reykjavíkur hefir sýnt Vestur-Íslendingum, með því að gefa herbergi í hinum nýja stúdentagarði sem sérstaklega er ætlað vestur-íslenskum námsmönnum, og ber nafnið Nýja Ísland.

2. Vér þökkum hinum ýmsu stofnunum á Íslandi sem sent hafa oss kveðjur og árnaðaróskir á þessum tímamótum í sögu vorri, svo sem Þjóðræknisfélagi Ísl. í Reykjavík, Háskóla Íslands, forsetum alþingis, Prestafélaginu, Íþróttafélaginu, Kvenfélögum Reykjavíkur, einnig þökkum vér fjölda einkaskeyta, sem birtast munu í næsta hefti Tímarits vors.

3. Vér þökkum ríkisstjóra Íslands, hr. Sveini Björnssyni, fyrir hið faguryrta og vingjarnlega ávarp er hann sendi oss á hljómplötu, og flutt var hér á fyrsta þingdegi; einnig þökkum vér ríkisstjórninni fyrir hið skrautritaða ávarp sem erindreki hennar bar fram á þessu þingi voru.

4. En einkum og umfram alt, þökkum vér ríkisstjórn Íslands fyrir þá frábæru rausn að senda oss biskup Íslands, herra Sigurgeir Sigurðsson, sem fulltrúa sinn á þing vort. Viljum vér lýsa því yfir að hann hefir verið oss hinn kærkomnasti gestur, að hann hefir með æfintýralegri för sinni hingað vestur, með glæsilegri persónu sinni, ljúfri framkomu og heillandi ræðum og erindum, hrifið hugi vora og yljað oss um

hjartarætur. Erum vér þess fullviss að áhrif hans muni verða fólki voru hér vestan hafs til mikillar og varanlegrar blessunar.

5. Vér leggjum til að 5 manna milliþinganefnd, er fjalli um samvinnumálin við Ísland á árinu, sé skipuð af forseta.

V. J. Eylands
Sveinn Thorvaldson
G. L. Jóhannsson
Soffanías Thorkelsson
G. J. Oleson

Ásgeir Bjarnason lagði til, H. Hjaltalín studdi, að nefndarálitið í heild sé samþykt. Séra Egill H. Fáfnis gjörði breytingartillögu um, að þingnefndar álitið sé athugað lið fyrir lið, er Eldjárn Johnson studdi. Breytingartillagan feld en nefndarálitið í heild samþykt með því að þingmenn stóðu á fætur, og málið með því afgreitt.

Nefndin var skipuð síðar á árinu.

Útbreiðslumál, framsögumaður séra Philip M. Pétursson.

**Útbreiðslumálanefndarálit**

Við undirrituð, sem útnefnd vorum til þess að semja álit til íhugunar á þinginu um útbreiðslumál, leyfum okkur:

1. Að leggja til að þingið lýsi ánægju sinni yfir miklu og vel unnu starfi, sem forseti og framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir unnið á síðastliðnu ári, með stofnun fleiri deilda en á nokkru öðru ári síðan að félagið var stofnsett; með aukinni félagatölu; með ritgerðum og stuðningi kenslumála sem góðan ávöxt hefir borið, sérstaklega út um bygðir. Ennfremur leggur nefndin til að þingið tjái íslensku blöðunum Heimskringlu og Lögbergi, þakkir fyrir veitta velvild og stuðning þjóðræknismála á árinu, og ritinu "Icelandic Canadian" fyrir ágæta frammistöðu meðal yngri Íslendinga.

2. Að leggja til að þingið lýsi ánægju sinni yfir vaxandi áhuga fyrir íslenskukenslu á árinu, og feli væntanlegri stjórnarnefnd að gangast fyrir, að sú kensla sé aukin og efld í sem allra flestum bygðum Íslendinga. Ánægjulegt sé að aðstæður hafi mikið batnað með því að fengist hafa nothæfar kenslubækur frá Íslandi, og að stjórnarnefndinni sé falið á hendur að gangast fyrir að útvega það af þeim eintökum sem útseld eru orðin, til þess að enginn hnekkir verði á þeim framförum sem hafa orðið í íslensku kenslu.

3. (a) Að leggja til að þingið feli stjórnarnefndinni að styðja deildarstarfsemina eftir megni og veita deildum aðstoð og hjálp til að ferðast á meðal deilda þeim til leiðbeiningar og hjálpar á hvern þann hátt sem heppilegt þykir, hvort sem er, með fyrirlestrum, leiðbeiningum, barnakenslu eða öðru.

(b) Einnig leggur nefndin til að þingið hvetji deildir út um bygðir að halda sameiginlega fundi í útbreiðsluskyni eins og sumstaðar hefir verið gert og reynst vel.

4. Einnig leggur nefndin til að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd á hendur að leggja sérstaka áherslu á stofnun enn fleiri deilda og að auka meðlimtölu deildanna og aðalfélagsins.

Winnipeg, 23. febrúar 1944.

Philip M. Pétursson
Marja Björnson
Páll Guðmundson
Sigurður Johnson
S. V. Sigurdson

Haraldur Ólafsson lagði til, Árni Brandson studdi, að álitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykt.

Fyrsti liður samþyktur.

Annar liður sömuleiðis.

Þriðji liður samþyktur.

Fjórði liður samþyktur.

Nefndarálitið í heild samþykt.

Herra Árni Eggertsson lögfræðingur og erindreki frá sambandsfélaginu The Icelandic Canadian Club, var nú kominn til þings og bauð forseti hann velkominn og bað hann að flytja skýrslu frá félagi sínu. Gjörði Árni það. Sagði allrækilega frá starfi The Icelandic Can-

adian Club og færði þinginu árnaðaróskir frá félagi sínu og sér sjálfum.

Sveinn Thorvaldson lagði til og séra Sigurður Ólafsson studdi, að skýrslunum frá Vísir í Chicago og The Icelandic Canadian Club sé veitt móttaka. Samþykt.

Eldjárn Johnson lagði til, Ásgeir Bjarnason studdi, að fundi sé frestað til kl. 1.30 e. h. Samþykt.

SJÖTTI FUNDUR

settur kl. 2 e. h. 24. febr. 1944. Forseti lýsti yfir því, að samkvæmt samþyktri dagskrá, þá yrði nú gengið til kosninga.

Ari Magnússon lagði til og séra Sigurður Ólafsson studdi, að embættismanna kosningum sé frestað í þrjátíu mínútur. Uppástungan borin upp og feld.

Formaður útnefningarnefndar, hr. Guðmundur Eyford, eftir nokkrar athugasemdir almenns eðlis, lagði til að forseti dr. Richard Beck sé endurkosinn, þar eð engar aðrar útnefningar komu fram, var hann endurkosinn í einu hljóði og vara-forseti séra V. J. Eylands sömuleiðis.

Útnefningarnefndin lagði til að J. J. Bíldfell væri endurkosinn skrifari. Á þá tillögu félst þingheimur ekki. Stungið upp á séra Sigurði Ólafssyni, Jóni Ásgeirssyni, Páli S. Pálssyni og séra Halldór Johnson. Báðu allir sig undan kosningu nema J. J. Bíldfell og séra Sigurður Ólafsson. Var kosið á milli þeirra á miðum og séra Sigurður Ólafsson kosinn. Allir embættismenn félagsins endurkosnir sem áður voru, að J. J. Bíldfell einum undanteknum.

Embættismenn félagsins fyrir árið 1944-5 eru því:

Dr. Richard Beck, forseti
Séra V. J. Eylands, vara-forseti
Séra Sigurður Ólafsson, ritari
Frú Ingibjörg Jónsson, vara-ritari
Ásmundur P. Jóhannsson, féhirðir
Sveinn Thorvaldson, vara-féhirðir
Guðmann Levy, fjármálaritari
Dr. S. E. Björnsson, vara-fjármálaritari
Ólafur Pétursson, skjalavörður

Ólafur Pétursson lagði til, J. J. Húnfjörð studdi, að sá af yfirskoðunarmönnum félagsins sem út ent hefði kjörtímabil sitt á þessu þingi sé endurkosinn. Samþykt.

Yfirskoðunarmenn eru því hinir sömu: Steindór Jakobsson og Grettir L. Jóhannson.

Ásmundur P. Jóhannsson las og afhenti eftirfarandi bréf, sem skýra sig sjálf:

January 26, 1944

The Canadian Red Cross Society,
4th fl. Free Press Building,
City

Dear Sirs:

The Icelandic National League is pleased to enclose herewith a cheque to the amount of Seventy Dollars.

This money represents the proceeds from sales of records sung by Maria Markan, Icelandic Soprano, now with the Metropolitan Opera Company in New York.

Please be kind enough to acknowledge receipt of this cheque.

Yours truly,
The Icelandic National League
A. P. Jóhannsson,
Treasurer

February 3, 1944

Mr. A. P. Johannson, Treas.,
The Icelandic National League,
910 Palmerston Ave.,
Winnipeg

Dear Mr. Johannson:

Please accept our sincere thanks and deep appreciation for the splendid donation of Seventy Dollars from the Icelandic National League.

At the present time we are planning for a Red Cross National Appeal for funds which opens February 28th and are asking the support of all associations, either from their regular club funds or as a result of some event which

might be organized through their membership to assist our campaign.

Again our sincere thanks for your very generous support.

Sincerely yours,

R. H. Snyder,
Campaign Director

Ásmundur P. Jóhannsson formaður fjármálanefndar þingsins lagði til og Sveinn Thorvaldson studdi, að skýrslum embættismanna sé veitt móttaka og þær samþyktar breytingalaust. Samþykt.

Eldjárn Johnson lagði til og H. F. Hjaltalín studdi að þriggja manna útnefningarnefnd sé kosin. Samþykt. — Kosnir: Grettir L. Jóhannson, Guðmundur Eyford of Eldjárn Johnson.

Forseti skýrði frá, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefði borist bréf frá frú Sigrúnu Lindal, þar sem hún fari þess á leit fyrir hönd The Icelandic Canadian Club, og annara, að Þjóðræknisfélagið taki þátt í sjóðsstofnun er hafin hefir verið til minningar um Jórunni Magnúsdóttir Lindal og nefnist námsstyrkssjóður (scholarship fund). Kvað stjórnarnefnd félagsins hafa haft málið til meðferðar, en ákveðið að fela þinginu framkvæmdir í því.

Guðmann Levy lagði til og Elías Elíasson studdi, að máli því sé vísað til framkvæmdarnefndarinnar.

J. J. Bíldfell gerði þá breytingartillögu og séra Sigurður Ólafsson studdi, að Þjóðræknisfélagið leggi $100.00 til þessa sjóðs og feli stjórnarnefndinni að greiða það fé til hlutaðeigenda eins fljótt og að hún sjái sér fært. Breytingtillagan samþykt.

H. F. Hjaltalín gerði fyrirspurn um, hvað stjórnarnefndin hefði gert í málinu um breyting á þingtíma, sem lagt hefði verið formlega fyrir síðasta þing.

Ritari J. J. Bíldfell svaraði fyrirspurninni og kvað það sér að kenna, að engar framkvæmdir hefðu verið hafðar í því. Benti á örðugleikana sem breytingunni væru óhjákvæmilega samfara, og lét þá meining sína í ljósi, að málið væri ekki nógu vel undirbúið til afgreiðslu.

Ari Magnússon lagði til og Páll Guðmundsson studdi, að forseti skipi fimm manna milliþinganefnd til frekari athugunar og undirbúnings á því máli. Samþykt.

Forseti kvaðst ekki vera reiðubúinn að skipa í þá nefnd, en kvaðst tilkynna nefndarskipunina síðar.

Fallið var frá að skipa þessa nefnd, en í þess stað lagði stjórnarnefndin málið fyrir deildir með umburðarbréfi.

Sveinn Thorvaldson lagði til, H. F. Hjaltalín studdi, að forseta og skrifara sé falið að ljúka þeim störfum, sem ólokin kynnu að vera, og því öðru sem yfir kynni að hafa sést. Samþykt.

Fundi var svo frestað til kl. 6.30 e. h.

Klukkan 6.30 síðdegis komu menn saman í Marlborough gistihúsinu í Winnipeg. Var þar búin veisla mikil og hátíð í sambandi við 25 ára afmæli Þjóðræknisfélagsins. Neyttu gestirnir sem voru yfir 400, rausnarlega framreiddrar máltíðar. Að lokinni máltíð fóru fram skemtanir undir stjórn forseta félagsins, dr. Richards Beck. — Skemtiskráin var fjölbreytt og ágæt, og hafði dr. Edward Thorlakson svo umbúið, að allmikill partur af skemtiskránni var tekinn á hljómplötur, sem sendar verða síðar heim til Íslands og því sem á þeim er útvarpað þar.

Skemtiskráin var sem fylgir:

1. Allir sungu "O Canada"
2. Séra Philip M. Pétursson flutti borðbæn
3. Borðhald
4. Ávarp forseta
5. Einsöngur, frú Pearl Johnson (Svanasöngur á heiði, Rósin og Ástar sæla).

6. Kveðja frá Íslandi, hr. Sigurgeir Sigurðsson biskup.
7. Kvæði, Einar Páll Jónsson ritstjóri Lögbergs, Winnipeg.
8. Ræða, Icelandic Contribution to American Culture, Ásmundur Benson, B.A., L.L.B., Bottineau, N. Dak.
9. Einsöngur, Ólafur Kárdal (Ætti eg hörpu, Svanurinn minn syngur og Draumalandið)
10. Ræða, séra Valdimar J. Eylands, 25 ára minning Þjóðræknisfélagsins.
11. Þingslit, forsetinn, Dr. Beck, tilkynti að landstjóri Canada, His Excellency the Right Honourable the Earl of Athlone, K.C., og ríkisstjóri Íslands, herra Sveinn Björnsson hefðu gerst heiðursverndarar Þjóðræknisfélagsins.

Ennfremur las forseti nokkur símskeyti sem þinginu höfðu borist síðasta þingdaginn. Þar á meðal skeyti frá ríkisstjóra Íslands og frá Vilhjálmi Þór utanríkisráðherra Íslands og frú.

Ritari J. J. Bíldfell, lagði til í umboði stjórnarnefndarinnar, að þeir herra Sigurgeir Sigurðsson biskup yfir Íslandi, Gunnar B. Björnsson, skattstjóri í Minneapolis, Minn., og Ásmundur Pétur Jóhannsson byggingarmeistari í Winnipeg séu gerðir að heiðursfélögum og mintist hvers þeirra um sig með nokkrum orðum. Séra Valdimar J. Eylands studdi og var tillagan samþykt með því að allir risu á fætur. Þar næst voru þjóðsöngvarnir þrír, Bretlands, Bandaríkjanna og Íslands sungnir. Sleit svo forsetinn þessu eftirminnanlega þingi. Hinu tuttugasta og fimta ársþingi Íslendinga í Vesturheimi, kl. 10.15 e. h. 24. febr. 1944.

**Richard Beck, forseti**
**J. J. Bíldfell, ritari**

---

## LEIÐRÉTTING

Þegar prentararnir voru að reka á eftir mér með handrit fyrir tvær seinustu síðurnar í *Tímaritinu* í fyrra, hripaði eg í flýti greinarkorn, er eg nefndi "Þjóðsöngur Íslands". Þar varð mér á sú lítt fyrirgefanlega skyssa, að rangfæra tvær seinustu ljóðlínurnar úr fánakvæði Einars Benediktssonar. Minnið er stundum hrekkjótt, og kvæðið hafði eg eigi lesið frá upphafi til enda frá því að það kom út fyrir 38 árum. Að vísu höfðum við, nokkrir karlmenn, sungið þær vísurnar, (þá 1. og 5.), sem Sveinbjörnsson skrifaði lag sitt við, árið sem þeir voru báðir hér á Íslendingadegi, höfundar ljóðsins og lagsins. Kona mín, Guðrún, benti mér fyrst á þessa villu, nokkrum dögum eftir að *Tímaritið* var komið af pressunni, en þá var of seint að laga það. Svo hér kemur leiðréttingin í næsta *Tímariti*. Í stað þess, sem í greininni er prentað, eru línurnar orðrétt svona:

djúp sem blámi himinhæða,
hrein sem jökultindsins brún.

Lesendur *Tímaritsins* og minning Einars Benediktssonar eru beðin afsökunar á þessu. *Ritstj.*

**Park River, N. Dak.**
Theodore Eyjólfson

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall

**Pt. Roberts, Wash.**
Lestrarfél. "Hafstjarnan"
Árni S. Mýrdal
Mrs. J. G. Jóhannsson

**Portland, Ore.**
Barði Skúlason
Guðm. Thorsteinsson

**Poulsbo, Wash.**
Mrs. H. F. Kyle

**Princeton, N. Y.**
Próf. R. V. Lindaburg

**Rio Linda, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Rugby, N. Dak.**
Dr. A. G. Johnson

**Santa Barbara, Calif.**
Mrs. Rannveig Schmidt

**Seattle, Wash.**
Sveinn Árnason
Mrs. Margrét J. Benedictsson
B. J. Einarsson
Mrs. Helga K. Sumarliðason

**St. Paul, Minn.**
Minnesota Historical Society

**Thief River Falls, Minn.**
Rev. S. S. Ólafsson

**Topeka, Kans.**
J. B. Linderholm

**Twenty Nine Palms, Cal.**
Jóhannes Sveinsson

**Toppenish, Wash.**
Mrs. Bergþóra Benedictson

**Upham, N. Dak.**
E. J. Breiðfjörð

**Urbana, Ill.**
Próf. Sveinbjörn Johnson

**Virginia, Minn.**
Magnús Magnússon

**Washington, D. C.**
Mrs. Mekkin S. Perkin
Þórhallur Ásgeirsson
John M. Echols
Leifur Magnússon
Hinrik Björnsson

**Williamsburg, Va.**
Próf. Jess H. Jackson

**Woodbrigde, Mass.**
J. B. Skaptason, Ph.D.

5. DEIDLIR

**"Esjan"**

**Árborg, Man.**

Kristján Albertson
A. H. Anderson
Björn G. Anderson
Hildur Árnason
Einar Benjamínsson
Mrs. Lilja Bergman
Þorsteinn Bergman
Árni Bjarnason
Rev. B. A. Bjarnason
Björn Bjarnason
Björn S. Bjarnason
Eiríkur Bjarnason
Mrs. Björn Bjarnason
S. María Bjarnason
Heiðmar Björnson
Óli Björnson
Dr. S. E. Björnson
Mrs. S. E. Björnson
Thomas Björnson
Mrs. Guðrún Borgfjörð
Mrs. S. M. Brandson
Sesselja Böðvarson
Tímóteus Böðvarson
G. O. Einarson
Gunnar Einarson
K. O. Einarson
Mrs. Herdís Eiríksson
Sveinn Eyjólfsson
Sigurður Finnson
Herman Fjeldsted
Halldóra Gíslason
Ingibjörg Gíslason
Magnús Gíslason
Thorarinn Gíslason
Elli Guðmundson
Gunnlaugur Hólm
Hólmfríður Hólm
Lúlli Hólm
E. G. Ingaldson
Böðvar H. Jakobson
Mrs. B. H. Jakobsson
Helgi B. Jakobson
Steini Jakobsson
Sigmundur Jóhannson
Valdi Jóhannesson
Mrs. Valdi Jóhannesson
Mrs. Andrea Johnson
Baldvin Jónsson
Franklin Johnson
Mrs. G. M. Johnson
Mrs. Júlíana Johnson
Kristján Johnson
Snæbjörn Johnson
Jónas J. Jónasson
Marteinn M. Jónasson
Árni Kristinsson
Th. Kristjánsson
B. J. Lifman
Grímur Magnússon
Mrs. Guðrún Magnússon
Hólmfríður Magnússon
Mrs. Kristiana Magnússon
Valdi Mýrdal
B. Oddleifsson
Gunnl. K. Oddson
Helgi Pálsson
Haraldur Pálsson
Lárus Pálsson
Thorgrímur Pálsson
B. M. Paulson
Mrs. Aldís Pétursson
Franklin Péturson
Guðmundur Péturson
Jóhannes Pétursson
Mrs. Emma von Renesse
Svanberg Sigfússon
Felix Sigmundson
S. A. Sigurðson
Bjarni Sigvaldason
Björn I. Sigvaldason
V. Sigvaldason
Páll Stefánsson
Sigurður Stefánsson
Brynjólfur Sveinsson
Sveinn Sveinsson
Gunnar Sæmundson
Jóhann Sæmundson
Guðmundur Vigfússon
Sigurður Vopnfjörð
Karl Vopni
Sigurjón Þórðarson

**"Báran"**

**Mountain, N. Dak.**

Mrs. Inga Anderson
Jóhannes Anderson
Kristinn Árman
Ásgrímur M. Ásgrímsson
H. Ásgrímsson
John Axdal
Próf. Richard Beck
Mrs. Richard Beck
Alli Bjarnason
Herman Bjarnason
B. T. Björnson
Guðm. Björnson
Hannes Björnson
Sig. Björnson
T. A. Björnson
M. W. Davidson
Björn Eastman
Fríða Eggerts
F. M. Einarson
J. J. Einarson
Jón M. Einarson
Einar G. Eirikson
J. J. Erlendson
Helgi Finnson
Mrs. Kristinn Goodman
Th. Goodman
Mrs. Anna Grímson
Guðm Grímson, dómari
H. B. Grímson
Dagbjartur Guðbjartson
John Gudman
B. S. Guðmundson
C. S. Guðmundson
G. Guðmundson
Sigmundur Guðmundson
Mrs. Torfi Guðmundson
V. G. Guðmundson
G. T. Gunnarson
Jóhann G. Hall
W. K. Halldórsson
Mrs. H. J. Hallgrímsson
Mrs. S. J. Hallgrímsson
John Hannesson
Valdimar Hannesson
T. V. Hansson
Ben Helgason
Joe Hillman
J. P. Hillman
W. G. Hillman
H. F. Hjaltalín
S. T. Hjaltalín
John Hjörtson
Chr. Indriðason
Stefán Indriðason
Hanna Jóhannes
Hildur Jóhannesson
Fred G. Johnson
Helgi Johnson
John E. Johnson
John H. Johnson
Oli G. Johnson
Nels Johnson
S. K. Johnson
Sylvia Johnson
Símon S. Johnson
Sveinn Johnson
Rósa Johnson
Guðm. J. Jónasson
Magnús Jónasson
Hannes Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
Kristján G. Kristjánsson
Thora Kristjánson
Helgi Laxdal
Leo Laxdal
Alli Magnússon
Mrs. F. McWilliams
Hannes Melsted
Stefán Melsted
Marta Mýrdal
Steini Mýrdal
Stefanía Northfield
John M. Ólason
Haraldur Ólafson
Mrs. H. Ólafsson
J. K. Ólafson
Paul Ólafsson
S. F. Ólafson
B. F. Olgeirson
Thórdís Olgeirsson
Tryggvi Paulson
Bjarni Peturson
Joe Peterson

Oskar W. Peterson
Ragnar H. Ragnar
Helgi Reykdal
Magnea Sigfússon
Rev. H. Sigmar, D.D.
Emil Sigurðsson
H. B. Sigurðsson
W. M. Sigurðson
Fred Snowfield
Steindór Snydal
Björn Stefánson
S. T. Steinólfsson
M. A. Thorfinnson
Hjalti B. Thorfinnson
Snorri M. Thorfinnson
T. S. Thorfinnson
Mrs. T. H. Thorlákson
Gamalíel Thorleifson
Próf. Thomas Thorleifson
T. M. Thorsteinson
Thorbergur Thorvardsson
H. W. Vívatson
Hannes Walter

**"Iðunn"**

**Leslie, Sask.**

Helgi Árnason
Rósmundur Árnason
J. M. Austmann
Björn Axfjörð
Bergþór Björnsson
Kristján Erlendson
O. Gíslason
Páll Guðmundson
Þorsteinn Guðmundson
Mrs. G. Halldórsson
Stefán Helgason
Jón Jóhannson
Bergsveinn Johnson
Páll Magnússon
H. G. Nordal
Jón Ólafson
Stefán Ólafsson
Sigbjörn Sigbjörnson
Jóhann Sigbjörnson
H. G. Sigurðson

Sigurður Sigurðson
Guðmundur Stefánsson
E. Thorsteinson
H. Thorsteinson

**Deildin á Gimli, Man.**

Th. Magnússon
Mrs. Óli Kárdal
G. H. Thorkelsson
Sveinbjörn Valgarðsson
Arthur Bristow
Dr. K. I. Johnson
Dr. Ágúst Ingimundsson
Elías Ólafsson
Ágúst Thorkelsson
Mrs. Ágúst Thorkelsson
Árni Björnsson
Hallgrímur Austman
Guðmundur Elíasson
Jóhann Sæmundsson
Lárus Nordal
Mrs. Gunnl. F. Bergman

Miss J. Kristín Johnson
S. Th. Kristjánsson
Harald Bjarnason
Hrólfur Sigurðsson
J. K. Laxdal
Mrs. Guðrún Thompson
Guðrún Stevens
Baldur Jónasson
Miss Sigurbjörg J. Stefánsson
Miss Rose Magnússon
Pálmi Lárusson
Guðni Thorsteinsson
John H. Stevens
Benedikt Lárusson
Mrs. Benedikt Lárusson
Mrs. J. B. Johnson
Sigurður Thordarson
Mrs. Sigurður Thordarson
Mrs. Elin Kristjánsson
Kristinn Johnson
Ingólfur N. Bjarnason
Árni Gottskálksson
Mrs. Ingólfur N. Bjarnason
W. J. Arason
Mrs. W. J. Arason
Þórður Ísfjörð
Mrs. Lawrence Stevens
Sigmundur J. Johnson
Sveinn Geirhólm
Mrs. Dorothea Helgason
Mrs. Lauga Pétursson
Óli Thorsteinsson

Miss Magnúsína Halldórsson
Mrs. Lára Tergesen
Mrs. J. Jakobsson
Mrs. Anna Jónasson
Mrs. Hilda Shaw
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. Anna Jósephsson
Mrs. Norman Stevens
J. K. Jónasson
G. E. Narfason
Mrs. Clifford Stevens
Mrs. Bergþór Thordarson
Jón Helgason
Mrs. Hallgr. Sigurdson
Hallgrímur Sigurdson
Mrs. Guðveig Egilsson
Egill Egilsson
Árni Jónsson
E. O. Markússon
Mrs. Capitola Stefánson
Mrs. Hermína Jacobson
Mrs. Oddný Sigurdson
Ásdís Henriksson
Thórður Thórðarson
Lestrarfélagið "Gimli"
Óli N. Kárdal
F. Frímansson
J. B. Johnson
Guðmundur Fjeldsted
Friðfinnur Einarsson
Sigurður Baldvinsson
Helgi Benedictson
Helgi Jóhannsson

Kjartan Eldjárnsson
G. B. Magnússon
Th. Johnson

**"Frón"**
**Winnipeg, Man.**

Sigtryggur Ágústsson
Hannes Anderson
Halldór Árnason frá Höfnum
Mrs. Helga Árnason
Magnús Árnason
S. S. Anderson
Mrs. S. Árnason
Jochum Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Dr. Kristján Austman
Mrs. Kristján Austman
Dr. Kristján J. Backman
Mrs. Kr. J. Backman
Mrs. Salóme Backman
Gunnar Baldvinsson
Mrs. Sylvia Barber
Arinbjörn S. Bardal
Jóh. Beck
Mrs. Vigfúsína Beck
S. Benjamínsson
Rafnkell Bergson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
Guðm. M. Bjarnason
Mrs. Ingibj. Bjarnason
Ólafur Bjarnason

P. K. Bjarnason
Miss Sæunn Bjarnason
Andrés J. Björnsson
Davíð Björnsson
Mrs. Lárus Björnsson
Hjörtur Brandson
Magnús Brandson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Ingibjörg Butler
Mrs. Anna Cameron
Miss Friðmunda Christie
Sigurjón Christophersson
Hjálmur Daníelsson
Mrs. Hólmfr. Daníelsson
Mrs. G. Davidson
Mrs. Ragnh. Davidson
Mrs. S. W. Edinger
Árni G. Eggertsson, K.C.
Mrs. Guðlaug Eggertson
Baldvin Einarsson
Mrs. Baldvin Einarsson
Jón Einarsson
Stefán Einarsson
Sigurður Einarsson
Kristinn Einarsson
Elías Elíasson
Leifur Ellison
Gunnar Erlendson
Mrs. Kr. Erlendson
Mrs. Kristín Eyjólfsson
Miss V. Eyjólfsson
Guðm. E. Eyford
Guttormur Finnbogason
Mrs. St. Finnbogason
Bjarni Finnsson
Mrs. L. E. Freeman
Mrs. G. Gillies
Halldór Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Ásgeir Guðjohnsen
Gunnar Guðmundson
Jón G. Gunnarsson
Mrs. Guðr. Agnes Gunnlaugsson
Miss Elin Hall
Mrs. Anna Halldórsson
Halldór Halldórsson
John Halldórsson
L. J. Hallgrímson
Mrs. Ásta Hallson
Páll Hallson
Karl Hansson
Thorleifur Hansson
Einar Haralds
Mrs. Oddný Helgason
Finnbogi Hjálmarsson
Bjarni Hjörleifsson
Mrs. Guðm. Ingjaldson
Miss Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Mrs. Ásm. P. Jóhannson
Gunnlaugur Jóhannson
Mrs. Gunnl. Jóhannson
Gunnl. F. Jóhannson
Mrs. Guðr. Jóhannson
Grettir Leo Jóhannson
K. W. Jóhannson
J. W. Jóhannson
Stefán Jóhannsson
Mrs. Ásdís Jóhannesson
Mrs. J. Jóhannesson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Björg Johnson
Einar P. Jónsson
Mrs. Einar P. Jónsson
Gísli Jónsson
Mrs. Guðríður Johnson
Mrs. Guðrún Johnson
Mrs. Henrietta Johnson
Helgi Johnson
Rev. H. E. Johnson
K. H. Johnson
Magnús Johnson
Mrs. Oddfríður Johnson
Simon Johnson
S. Johnson
Þorl. Johnson
Mrs. Þórdís Johnson
Thórður Jónsson
Karl Jónasson
Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Mrs. Jóna Jörundson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðgerður Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. Jakob F. Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
Capt. Wilhelm Kristjánsson
Guðmann Levy
Mrs. Margrét Levy
Hannes J. Líndal
Mrs. Hannes J. Líndal
Jón Líndal
Mrs. Una Th. Líndal
Mrs. Svafa S. Líndal
Judge W. J. Lindal
Agnar Magnússon
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Guðmundur Magnússon

Miss H. R. Magnússon
Jóhann Magnússon
Jón Magnússon
Magnús Magnússon
Magnús E. Magnússon
Ólafur Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Loftur Mathews
J. Nordal
Mrs. S. Nordal
J. H. Norman
Mrs. Sigurður Oddleifsson
Mrs. Sesselja Oddson
Sveinn Oddsson
Valgarður Oddsson
Mrs. Anna Ólafsson
Jón Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Mrs. Th. Ólafsson
Mrs. Vilborg Oliver
A. B. Olson
N. Ottenson
Mrs. Gróa Pálmason
Sveinn Pálmason
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Mrs. A. Paulson
Hannes Pétursson
Mrs. Jóhanna Pétursson
Ólafur Pétursson
Mrs. Petrea Pétursson
Séra Philip M. Pétursson
Mrs. Hólmfr. Pétursson
Miss Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson Jr.
Pétur Jónas Pétursson
Thorvaldur Pétursson
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóhann Sigmundsson
Mrs. Kristín Sigurðsson
Eiríkur H. Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Guðm. Sigurðsson
Mrs. Guðrún Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Mrs. Regina Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Mrs. Sigurþór Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðson
Sigurbjörn Sigurjónsson
Hreiðar Skaftfeld
Mrs. Thórður Sólmunds.
Björn Stefánsson
Guðm. A. Stefánsson
Gunnbjörn Stefánsson
Ragnar A. Stefánsson
Guðm. Strandberg
Mrs. Lina Stratton
Eyjólfur Sveinsson
Hans Sveinsson
Mrs. Hans Sveinsson
Mrs. Ovída Sveinsson
J. J. Swanson
Mrs. Guðfinna Sölvason
Mrs. Ágúst Sædal
Einar Thompson
Miss Solveig Thompson
Metúsalem Thórarinson
Mrs. Th. Thorarinson
Eiríkur Thorbergsson
Thorbergur Thorbergson
Guðm. Thordarson
Mrs. Þorgerður Thordarson
Páll Thorgrímsson
Fred Thorkelsson
Soffonías Thorkelsson
Mrs. Jóhanna Thorkelsson
Sigurjón Thorkelsson
Carl Thorláksson
Dr. P. H. T. Thorláksson
J. B. Thorleifsson
E. Thorsteinsson
Mrs. S. Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
Jónas Thorvardarson
Mrs. S. Vigfússon
Víglundur Vigfússon
J. J. Vopni
Mrs. P. Westdal

**"Fjallkonan"**

**Wynyard, Sask.**

S. S. Anderson
Jón Arngrímsson
Þórður Ásgeirsson
H. J. Austfjörð
Hallgrímur Axdal
Mrs. Jóna Axdal
H. J. Bardal
Thórhallur Bardal
Gísli Benediktsson
Steini Bergman
B. Bjarnason
Mrs. Guðrún E. Björnsson
Sigga Björnsson
Kristrún Egilsson
Kristinn Eyjólfsson
Jens Elíasson
Mrs. Th. Gauti
Gísli Gillis
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Valdimar Gíslason
C. H. Grímsson
G. D. Grímsson
S. Guðnason
Gísli Guðjónsson
Halldór Guðjónsson
Finnbogi Guðmundsson
Steinþór Gunnlaugsson
Ástvaldur S. Hall
Mrs. Ástvaldur S. Hall
Mrs. Andrés Helgason
Hósías Hósíasson
Mrs. Magnús Ingimarson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Barney Johnson
Óskar Johnson
Sigurður Johnson
Valdi Johnson
Axel Jónasson
Kristján Jónasson
Magnús Jónasson
Jónas Jónsson
Mrs. Albina Jóelsson
J. Jósefsson
Guðbjörg Kristjánsson
Mrs. Ragnheiður Kristjánsson
Ingi Magnússon
Fríða Pálsson
Hósías Pétursson
H. J. Skagfell
Ólafur Stefánsson
Skafti Steinsson
Pétur Thorsteinsson

**"Snæfell"**

**Churchbridge, Sask.**

Magnús Bjarnason
Séra S. S. Christopherson
Jóhannes Einarsson
Konráð Eyjólfsson
G. F. Gíslason
Jón Gíslason
Mrs. Gróa Gunnarsson
Sveinbjörn Gunnarsson
G. C. Helgason
Björn Hinriksson
Eyjólfur Hinriksson
Kristján Johnson
Mrs. Pálína Johnson
Gísli J. Markússon
Þórarinn Marvin
Kristín Oddson
Þorleifur Peterson
Einar Sigurðsson

**"Aldan"**

**Blaine, Wash.**

H. S. Helgason
Andrew Danielson
G. Stephanson

Mrs. G. P. Johnson
G. P. Johnson
A. E. Kristjánsson
Hannes Teitson
María Thordarson
Mrs. S. S. Laxdal
Guðbjörg Danielson
Halldór Björnson
Sigurjón Björnson
Mrs. P. Finnson
J. J. Straumfjörð
Ingibjörg Stoneson
G. G. Ísdal
Jónína Árnason
Sigríður Johnson
M. G. Johnson
Anna Lingholt
G. Guðmundson
Alfreð Horgdal
Sveinn Westfjörð
G. Guðbrandsson
Árni Símonarson
K. J. Brandson
Stefán Skagfjörð
E. G. Thomsen
Skúli Johnson
Guðni Davíðson
Jónas Sveinson
Mrs. B. Sölvason
W. J. Holm
S. Goodman
G. H. Johnson
Carl Westman
Valdimar Iwersen
Gustaf Iwersen
Guðrún Byron
Mrs. Elb. Lamareauxl
J. B. Peterson
John Holm
August Paulson
Waldimar Horgdal
Sigtýr Johnson
Sigurður Oddson
Hermann Brynjólfsson
Helgi Steinberg
Mrs. G. Holm

### "Ísafold"

**Riverton, Man.**

Mrs. Anna H. Árnason
Baldvin Baldvinson
Mrs. Kristín Benedictson
Árni Brandson
Mrs. Valgerður Coghill
E. Dahlman
Gísli Einarson
Marinó Elíasson
Albert Guðjónson

Mrs. S. Guðmundson
T. L. Hallgrímsson
Gunnl. B. Jóhannson
S. H. Jóhannesson
Einar A. Johnson
Pétur Jónsson
Th. V. Jónsson
Sveinn Magnússon
Séra Eyjólfur J. Melan
O. C. Ólafson
Marianne Renaud
Gísli Sigmundson
S. R. Sigurðson
S. V. Sigurðson
S. H. Sigurdson
Jón Sigvaldason
Grímur Stadfeld
H. G. Stadfeld
Mrs. Margrét Thorbergson
Sveinn Thorvaldson, M.B.E.
Gestur Vídal

Börn og unglingar

Jónas Melan
Elma Johnson
Anna Clair Benedictson
Irene Thorvaldson
Violet Thorvaldson
Christine Ólafson
Raymond Benedictson
Anna Björnson
Helen Cairns
Marjorie Doll
Fern Hallsson
Mae Magnússon
Alice Magnússon
Elva Ólafson
Elin Sigurðsson
Helgi Sigurðsson
Margaret Sigvaldason
Sylvia Sigvaldason
Inga Vigfússon
Guðrún Vigfússon
Gloria Wood.
Sólveig Anderson
Dorothy Jóhannesson
Sesselja Jóhannesson
Kristján Jóhannesson
Laurence Johnson
Lillian Árnason

**"Brúin"**

**Selkirk, Man.**

Jón Anderson
Bjarni Árnason
Mrs. Thora Austman
Miss Dóra Benson
Mrs. B. Dalman
Norman Dalman
Stefán Davíðsson
Mrs. Ásta Eiriksson
Mrs. Guðrún Finnson
Guðjón Friðriksson
Mrs. Björn Gilbertson
Hallur Gilson
Mrs. Brandur Guðbrandson
Kristinn Goodman
Páll Goodman
Mrs. Sigríður Goodman
Hallur Hallson
Mrs. Ingveldur J. Henry
Jón E. Hinriksson
Magnús Hjörleifsson
Jóh. Húnfjörð
Sigurður Indriðason
Jón Ingjaldson
Mrs. Guðrún Ísfeld
Miss Halldóra Jóhannesson
Gestur Jóhannson
Ingi C. Jóhannson
Stefán Jóhannsson
Mrs. Ásta Johnson
Guðlaug Johnson
Mrs. Júlíana Johnson
Dr. Eyjólfur Johnson,
Hinrik Johnson
Margrét Johnson
Mrs. Sigurbjörg Johnson

**S. E. BJORNSON, M.D.**
PHYSICIAN AND SURGEON



Phones: 58 & 40 - ARBORG, Man.

---

**DR. K. I. JOHNSON**
**Lyfja og skurðlæknir**



CENTRE STREET
Talsími 37
GIMLI  MANITOBA

---

**ARBORG GARAGE**
ALMENNAR BÍLA AÐGERÐIR
Umboðsmenn fyrir Chevrolet
og Oldsmobile bíla
John Deere jarðyrkju verkfæri
**Eigandi: K. O. Einarsson**
Sími 4 ARBORG, MANITOBA

---

**BLUEBIRD DIAMONDS**
**and**
**BULOVA WATCHES**

**G. H. THORKELSON**
JEWELER
Phone 86 Box 188
**Gimli, Man.**

---

**SEARLE GRAIN Co. Ltd.**
**Handlers of Grain, Wood & Coal**



Elevators at
ARBORG and RIVERTON

---

**Crescent Motor Service**
Th. Jóhannson, eigandi



**Bíla viðgerðir, logsuða og bílapartar**
Phone 18 ARBORG, MAN.

---

**ARBORG FARMERS CO-OP ASS'N LTD.**
**GENERAL MERCHANTS**
Also Public Service freighting of Livestock and General Freight.
**ARBORG** **MANITOBA**

---

**Árnaðaróskir til Þjóðræknisfélagsins!**

**GIMLI MEAT & FISH MARKET**

**GIMLI — MANITOBA**

**Phone 48** THOR ELLISON, Manager

Mrs. Vigdís Johnson
Klemens Jónasson
Einar Magnússon
Páll Magnússon
Mrs. Margrét Múnson
Mrs. Rakel Maxon
Mrs. Ingibjörg Oddson
Jón Ólafsson
Mrs. Kristín K. Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Séra Sigurður Ólafsson
Kristján Pálsson
Mrs. Ingibjörg Pálsson
Jóhann Pétursson
Árni Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Mrs. Sigrún Sigurðsson
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Jón Skardal
Mrs. Guðrún Stefánsson
Mrs. S. K. Stefánsson
Ágúst Sæmundsson
Oddur Sveinsson
Miss Aðalbjörg Thordarson
Mrs. Ingibjörg Thordarson
Theodór Thordarson
Th. S. Thorsteinsson
W. P. Thorsteinsson
Mrs. Jóhanna Thorvaldson
Jón Thorvaldson
Mrs. Helga Thomson
Jón Vogen

**Sambandsdeildin**

**"The Icelandic Canadian Club"**

Terry Arnason
Einar Arnason
Mrs. E. Árnason
Dr. K. J. Austmann
Mrs. K. J. Austmann
Miss Anna Anderson
Mrs. Ena S. Anderson
Miss Nina Anderson
Jochum Asgeirson
Ingibjörg Asgeirson
George Asgeirson
Edna Asgeirson
J. O. Anderson
Miss Olga Benson
Miss Lily Bergson
Gisli Borgfjord
Miss Emily Bardal
Miss Sybil Benjaminson
A. G. Bardal
Mrs. A. G. Bardal
Ola Barnes
Leo Barnes
Stefan Bjarnason
Lára Borgfjord
E. Baldwinson
Valdimar Björnson
S. M. Bachman
S. Bjarnason
Mrs. A. Blondal
Mrs. B. S. Benson
Paul Bardal, M.L.A.
E. Breckman
Mrs. E. Breckman
Mrs. Ruby Couch
Paul Clemens
Mrs. P. Clemens
Maurice G. Desourdey
Mrs. Hjálmur Daníelson
Hjálmur Daníelson
Baldur Daníelson
Miss Helga Eggertson
Miss Guðrún Eggertson
Miss Elin Eggertson
Miss Stefanía Eydal
Árni G. Eggertson, K.C.
Mrs. A. G. Eggertson
Gunnar Erlendsson
Miss Kay Ellick
Gissur Eliasson
Margaret Einarson
Thelma Erickson
S. H. Eggertson

